GUNNAR DAL:

*Vera,* ljóð 1950.
*Sfinxinn og hamingjan,* ljóð 1953.
*Rödd Indlands,* 1953.

*Móður minni,*
*Margréti Halldórsdóttur,*
*tileinka ég bók þessa.*

# EFNI

# INNGANGUR

Ef til eru algild sannindi, verða þau að vera jafnsönn í dag og á morgun. — Ef til er sönn heimspeki, verður hún að standast tímans tönn, vera sú sama í dag og fyrir þúsundum ára og enn hin sama í lífi óborinna kynslóða.

Trúarbrögð og helgisiðir breytast og hverfa. Trúin hverfur ekki. Menningarríki rísa á gröfum gleymdra þjóða til þess eins að hrynja sjálf. — En menningin lifir og endurfæðist með nýjum þjóðum á nýjum tímum. Listaverk glatast en listin lifir. Stjórnmálakerfi, sem hófust í líki stórra drauma og hárra hugsjóna, vinna hlutverk sitt og missa síðan gildi sitt og er kollvarpað fyrr eða síðar. En andinn, sem bak við þau stendur, hinn eilífi draumur um hið fullkomna samfélag mannfólksins og hinn fullkomna heim, glatast ekki, en hefur aðeins hamskipti.

Í hinum ytri heimi hverfulleikans „ber allt úr stað og skorðum". Hinn innri veruleiki, sem stendur að baki þess heims, er sannur, heimur hinna algildu sanninda. Sterk og oftast blind ástríða, til að leita þessa dularfulla afls að baki tilverunnar, brýzt á öllum tím-

um fram í trú, bókmenntum og listum. Hugsanir hinna fáu stóru anda, sem túlkað hafa sinn innri raunveruleika í stað þess að gerast yfirborðsleg tízkufyrirbrigði síns tíma, fyrnast ekki og missa ekki gildi sitt. Dýpsta eðli manna er klettur, sem straumur tímans heldur að eilífu áfram að brotna á.

Taki maður sér í hönd bók, sem skráð er af Vesturlandabúa og fjallar um sögu heimspekinnar, sést, að sú saga hefst jafnan í Grikklandi og er síðan rakin þaðan vestur á bóginn. Dvalizt er um stund í miðaldamyrkri Rómaborgar og þaðan enn haldið í vestur og norður til Frakklands, Þýzkalands og Englands síðari alda. Þar með er þeirri sögu lokið.

Þessir söguritarar vita ekki eða vilja ekki vita, að erfitt er að benda á nokkra hugmynd í samanlagðri sögu vestrænnar heimspeki, sem ekki var rædd og gefið nafn á sanskrít og pali, áður en menn á Vesturlöndum þekktu orðið heimspeki.

Trúarbrögð eru sögð fóstra heimspekinnar. Það er kunnara en frá þurfi að segja, að öll meiri-háttar trúarbrögð heimsins eru runnin upp í austri. Það væri þess vegna kynlegt, ef hin forna menning austursins, sem fætt hefur af sér trúarbragðahöfunda eins og Krist, Búdda, Múhammeð og Lao Tze, ætti sér enga heimspeki, eins og margir Vesturlandabúar virðast álíta. Menn vanmeta jafnan það, sem þeir þekkja ekki eða skilja ekki.

Til eru líka þeir menn í Austurlöndum, sem af sömu ástæðum gera sig seka um að vanmeta heimspeki Vesturlanda. Ganga sumir svo langt að fullyrða, að á Vesturlöndum hafi aldrei verið til neinir heimspekingar, aðeins prófessorar í heimspeki.

Þetta gagnkvæma vanmat byggist einnig að verulegu leyti á því, að á Indlandi t. d. hefur heimspeki aðra merkingu en á Vesturlöndum. Orðabókarmaðurinn getur því hæglega með því að gefa hinu vestræna hugtaki nægilega þrönga merkingu „sannað", að engin heimspeki sé til á Indlandi, og með sama orðhengilshætti getur Brahmaninn „sannað", að engin heimspeki sé til með vestrænum þjóðum. Hér er þetta hugtak, *heimspeki*, notað í það rúmri merkingu, að það nái yfir allt það, sem stærst og bezt hefur verið hugsað á þessari jörð.

Á Vesturlöndum er heimspeki kölluð *philo-sophia* — vinur vizkunnar. Leiðarstjarna hennar er skynsemin. Á Indlandi er heimspeki nefnd sanskrítarorðinu *anuiksiki*. Það merkir að horfa yfir og inn í alla hluti. Hinn innri veruleiki lífsins er höfuðviðfangsefni hennar. Hún er aldrei eingöngu leikur skynseminnar, heldur á hún sér alltaf þann tilgang að bæta og fullkomna líf manna.

Á Vesturlöndum er heimspeki bundin saman í kerfi, *systema*. Það orð er fyrst notað af Aristoteles og merkir að tengja hluti saman í rökrétt samhengi. Í indverskri heimspeki er notað orðið *darsana*. Það orð merkir að

horfa, ígrunda, rýna inn í dýpsta eðli allra hluta og inn í leyndardóm síns eigin innra eðlis, þar sem sagt er, að ljós heimsins búi. Á Vesturlöndum láta menn sér aftur á móti að jafnaði nægja að safna litasamstæðum af yfirborði tilverunnar í heimsmynd sína.

Af þessu leiðir, að á Vesturlöndum er um mörg heimspekikerfi að ræða. Í meginatriðum eru þessi kerfi í fullkominni andstöðu hvert við annað. Hver heimspekingur er þar miðdepill heimspeki sinnar. Hver heimspekingur kemur þar fram með sitt eigið kerfi og leggur jafnan áherzlu á að koma fram með eitthvað nýtt, vera frumlegur og í andstöðu við eldri stefnur. Heimspeki hins vestræna heimspekings byggist öll á skynjun hans, skynsemi, tilfinningalífi og eigin persónuleika. Engir tveir menn skynja fullkomlega það sama. Skynsemi manna er misjöfn og persónuleiki og tilfinningalíf ólíkt hjá ólíkum mönnum. Af þessu leiðir, að niðurstöður vestrænna heimspekinga verða jafnólíkar og það, sem þær byggjast á: skynjun, skynsemi, tilfinningalíf og persónuleiki.

Margir gáfaðir menn á Vesturlöndum hafa því hafnað metafysikinni, þar sem engum hinna miklu heimspekinga ber saman, og snúið augliti sínu til vísindanna.

En stjörnuhröp eru einnig tíð á himni vísindanna. Fáar kenningar þurfa þar að kemba hærurnar. Nýjar uppgötvanir afsanna þar fyrri kenningar. Þær síðustu eru jafnan taldar hinar merkustu. Þess vegna tölum við

um þróun vísindanna. En vísindin ná aðeins til hins ytri heims mannlegrar skynjunar og mannlegrar skynsemi. Í indverskri heimspeki er álitið, að innsæi, er sé ofar skynseminni, standi sannleikanum nær en hin þrönga skynsemi manna, sem þekkir hús sitt að vísu nákvæmlega, en hefur engan glugga til að horfa út um! Hversu vel sem þetta hús kann að vera upplýst af lampa skynseminnar og þó hver kvistur þess sé kannaður undir smásjá vísindanna, telur indversk heimspeki, að það sé þó aðeins fangelsi, sem skilur sálina frá hinum miklu víðáttum lífsins, sem liggja ofar takmörkunum skynseminnar.

Í stað þess að safna aðeins litasamstæðum og geislabrotum á yfirborði lífsins, leitast indverskur heimspekingur við að þekkja þá sól, sem er orsök þessa ljósflæðis hinnar miklu elfar og sameiginleg uppspretta alls ljóss. Skynsemin getur ekki farið þá leið. Hún getur aðeins þekkt yfirborðið. Hins vegar er því haldið fram, að allt í tilverunni eigi sér hliðstæðu í manninum. Hinn innri veruleiki tilverunnar er hinn sami þáttur og hinn innri veruleiki mannsins. Þess vegna er aðeins hægt að afla hinnar sönnu þekkingar með því að leysa úr læðingi leynd öfl, sem með manninum búa, og þegar hin dýpsta vitund manna er vakin, getur hún og hún ein skynjað þennan veruleika. Aðeins sá, sem náð hefur þessu marki, getur talið sig heimspeking á Indlandi. Sagt er, að þeir, sem komast upp á þennan tind vitundarinnar, sjái allir sama landslagið. Lýsingar þeirra á

þessu útsýni eru ekki allar eins, líkt og tveir vegfarendur lýsa sama byggðarlagi á ólíkan hátt, eftir því á hvaða stigi athyglisgáfa og frásagnarhæfileiki þeirra stendur, en þeim ætti þó að bera saman í aðalatriðum.

Af þessum ástæðum er í 6000 ára sögu indverskrar heimspeki aðeins um eitt heimspekikerfi að ræða, á Vesturlöndum aftur á móti mörg og gerólík, eins og áður er sagt. Ekki svo að skilja, að öllum hinum mörgu heimspekingum Indlands beri saman í einstökum atriðum. Fræðimenn kunna skil á tugum indverskra heimspekistefna og hópa, og rita margir ýtarlega um skoðanamun þeirra. — En þessi skoðanamunur er aðeins á yfirborðinu og snertir aðallega smærri atriði. Hin fimm grundvallaratriði indverskrar heimspeki eru sameiginleg öllum hinum „sex kerfum“ og viðurkennd af nær öllum indverskum heimspekingum.

Þessi fimm höfuðatriði eru kenningin um *karma* eða lögmál orsaka og afleiðinga, *endurholdgunarkenningin* um þróun mannsins, kenningin um *maya*, veröld hverfulleikans, kenningin um, að til sé *nirvana*, og *mukti* eða frelsun sálarinnar og lausn undan fjötrum hinnar lægri náttúru.

Þessar grundvallarniðurstöður indverskrar heimspeki eru settar fram í Vedabókum. Þær eru hinn rauði þráður Upanishadanna, og þeim er ekki hafnað í Búddatrú.

Þessar heimspekilegu niðurstöður runnu saman við skáldskap og goðafræði og ríktu sem kynlegt sambland

af djúphyggju og hindurvitnum. — Þegar tímar liðu, þótti nauðsynlegt að greina heimspekina frá skáldskapnum og þjóðsögunum, og hin sex viðurkenndu heimspeki„kerfi“ Indlands urðu til. En eins og áður er sagt — hið vestræna kerfi, systema, á ekkert sameiginlegt með því, sem kallað er heimspekikerfi *darsana* á Indlandi. — Þessi sex indversku darsana eru aðeins eitt kerfi eða eins og sex kapítular í sömu bók. Þau eiga öll sameiginlegan grundvöll. Þau viðurkenna öll Vedabækurnar og byggjast á heimspeki Upanishadanna. Segja má, að þau hafi með sér verkaskiptingu og deili hinni gömlu heimspeki á milli sín þannig að hvert darsana tekur fyrir ákveðna hlið hennar.

Nyaya-heimspekin (höfundur þess talinn Gotama) fjallar þannig um þær leiðir, sem færar eru mönnum til að afla sér hinnar sönnu þekkingar og skilja eðli hins innri veruleika.

Vaisesika-heimspekin (höfundur hennar er Kanada) fjallar um vef tilverunnar, sem Kanada telur ofinn úr níu þáttum. Vaisesika fjallar þannig um tilveruna í heild og sambandið milli guðs og veraldarinnar.

Samkhya-heimspekin (höfundur Kapila) telur aftur á móti, að tilveran sé ekki ofin úr níu þáttum eins og Kanada hélt fram, heldur tuttugu og fimm. Kapila tekur til meðferðar þróun heimspekilegra hugmynda um hinn innri veruleika. Það er táknrænt fyrir einingu hinna sex darsana, að þó Kanada tali þannig um að tilveran sé ofin úr níu þáttum, en Kapila tali um tuttugu

og fimm, er ekki um neinn árekstur að ræða. — Kapila heldur aðeins áfram þeirri sundurgreiningu, sem Kanada byrjar á, líkt og atómsérfræðingur tekur við hinni gömlu kenningu um að molekúl sé byggt upp af atómum. Hann er ekki andvígur þessari kenningu, en heldur sundurgreiningunni áfram og bætir við að skipta megi atóminu í elektrónur, protónur og nevtrónur.

Yoga-heimspekin (höfundur Patanjali) kennir, hvernig menn geti öðlazt beina innri reynslu í heimi hins yfirskilvitlega með aðferðum yogavísindanna. Það fjallar því um sambandið milli einstaklingsins og hins innri veruleika.

Mimansa-heimspekin (höfundur Jaimini) fjallar um karma; lögmál orsaka og afleiðinga, eða sambandið milli breytni og hins innri veruleika.

Uttara Mimansa eða Vedanta (höfundur Badarayanas) er síðasta rannsókn og lokaniðurstöður um hin fimm eldri darsana.

Þessi leit Indverjans að hinu yfirskilvitlega er tilgangslaus í augum Vesturlandabúans, ekki sízt eftir að Kant komst að þeirri niðurstöðu, að ómögulegt væri að ná neinni yfirskilvitlegri þekkingu, að slík heimspekileg sannindi yrðu aldrei fundin með beinni reynslu og því sé metafysikin þegar bezt lætur aðeins ósannaðar getgátur. Margir Vesturlandabúar hafa því neitað að trúa, að að baki „efnis“ og „hugar“ sé annar raunveruleiki, sem bæði þessi fyrirbrigði eiga rætur í. Þeir viðurkenna aðeins það, sem sannað verður vísindalega.

Á Austurlöndum telja menn aftur á móti, að sú sönnun, sem byggð er á skynjun hinna ytri skynfæra og rökum skynseminnar, sé lítils virði í leit hinnar sönnu þekkingar. Skynjun og skynsemi eru aðeins lægstu þrepin áh allartröppum skilningsins. Indverskir djúphyggjumenn fullyrða, að þar séu önnur þrep ofar. Þeir halda fram, að hægt sé að þekkja metafysisk sannindi með beinni reynslu og menn þurfi því ekki að styðjast við getgátur og rökfræðileg heilabrot eða meðtaka í blindni neina ákveðna trú. Öll meginatriði indverskrar heimspeki eru sögð kennd af mönnum, sem sjálfir hafa séð og reynt innsta eðli mannlífsins, stigið öll þrepin upp að hallardyrum vizkunnar og fundið lykil lífsskilningsins. Í ljósi þess skilnings eru þeir sagðir hafa skrifað hina fornu heimspeki Indlands, sem enn í dag heldur velli og stendur föstum fótum í indverskri þjóðmenningu og gefur henni enn líf, á sama tíma og þjóðmenning tuttugu og einnar stórþjóðar hefur fallið í gleymsku og orðið tortímingunni að bráð.

Rudyard Kipling, fulltrúi hinnar brezku yfirdrottnunar yfir Indlandi, virðist hafa haldið, að brezka heimsveldið gæti ekki hrunið né undirokaðar og vannærðar milljónir Indlands risið upp úr niðurlægingu sinni. Blekktur af þeirri villu að skoða hið yfirborðslega og stundlega sem hið varanlega, fannst honum sem hjörtu mannanna mundu slá á annan hátt við Öxnafurðu en á Indus bökkum. „Austur er austur og

vestur er vestur," orti hann, „og það tvennt getur aldrei mætzt".

En tíminn, þessi hljóðláti byltingaseggur, sem aldrei þreytist í dularfullri neðanjarðarstarfsemi sinni í mold viðburðanna, hefur þegar byrjað að afhjúpa þessa villu Kiplings. Í vissum skilningi má þó þessa frægu setningu til sanns vegar færa. — Austur og vestur geta aldrei mætzt vegna þess að þau hafa aldrei skilið! Manneðlið er jafnan sjálfu sér líkt, þó að það kunni að birtast í mörgum myndum, — og þessar ólíku myndir þess eru ekki staðbundnar við „austur" eða „vestur". — Hve mörg eru þau lönd í hinum gamla heimi, sem hafa ekki einhvern tíma verið heimsveldi og staðið í fremstu röð? Hvar var menning vestursins á öld Vedabókanna? Hver leiddi vestrið fyrstu skref sín á braut menningarinnar? Hefur ekki vestrið þegið öll trúarbrögð sín frá austrinu? Hve mörg austræn menningarverðmæti hafa ekki auðgað vestrið í heimspeki, bókmenntum og vísindum?

Menningarauður Indlands og áhrif á menningu Vesturlanda eru ekki bundin við heimspeki eina, þótt þau séu mest. — Ólíkustu menn eins og t. d. Goethe og Emerson annars vegar og H. C. Andersen og Boccaccio hins vegar hafa ausið jöfnum höndum úr þessum sjóði.

Kviður Hómers eru af mörgum taldar ortar eftir hinni indversku kviðu Mahabharata, sem er lengsta kvæði, sem ort hefur verið. — Söguefni beggja er hið sama. Margar gamlar indverskar sögur er að finna í

vestrænum búningi í ævintýrum Grimms og Andersens, í Gesta Romanorum og Decameron, í Canterbury Tales Chaucers og jafnvel í leikritum Shakespeares.

Indverjar eru einnig hinir fyrstu brautryðjendur í málfræði og hljóðfræði. — Enn í dag er málfræði Paninis talin sú merkasta, sem skrifuð hefur verið.

Indland er vagga stærðfræðinnar. Indverjar fundu upp núllið og tugakerfið og kenndu Aröbum algebru, sem síðan barst þaðan til Vesturlanda. — Þeir kortlögðu himininn á undan öðrum þjóðum, og 2000 árum fyrir daga Kopernikusar skrifar óþekktur stjörnufræðingur í ritið Aitareya Brahmana, að það sé misskilningur að halda, að sólin setjist eða komi upp. Í raun og veru setjist hún aldrei, heldur haldi hún för sinni alltaf áfram og skapi til skiptis dag hérna megin og nótt hinum megin jarðarinnar eða nótt hérna megin og dag hinum megin.

Meðan Indverjar voru frjáls þjóð, stóðu þeir ekki að baki neinni annarri þjóð í vísindum, en heimspeki skipaði þar þó jafnan öndvegið, og hún ein hefur haldið velli í umróti síðustu alda.

Af þessu má m. a. sjá, að austur og vestur hafa aldrei skilið. Áhrif austursins á Vesturlönd, einkum í trú og heimspeki, hafa verið ómetanleg. En straumurinn hefur að sjálfsögðu ekki legið í vestur eingöngu. Áhrif Vesturlanda á Austurlönd hafa verið engu minni á síðari öldum, þó á annan hátt sé.

Hin mikla framsókn vestrænna þjóða hefur beint geiri sínum að raunvísindum, tækni og þjóðfélagsumbótum. — Indland fann einnig brátt púðurþef þessarar nýju menningar í vestri. Valdið kom í stað réttarins og í dag eftir aldalanga ánauð eru Indverjar fátækastir allra þjóða. En þessi fátækt er aðeins veraldleg. Þeir eiga sér stóran auð gamalla og nýrra menningarverðmæta og eru nú aftur frjálsir til að hefja göngu sína til hinnar nýju menningar framtíðarinnar.

Á þessum tímamótum í viðskiptum vesturs og austurs hafa margir góðir menn og vinir indverskrar menningar látið í ljós þann ótta, að hin gamla menning og heimspeki drukkni í umróti þessara síðustu tíma tækni og auðhyggju. Þeir segja, að skólaæska Indlands lesi ekki lengur hinar fornu bækur, en snúi augliti sínu í vestur.

Max Müller segir svo: „Óttazt er, að þeir fáu menn, sem nema heimspekileg fræði, hverfi fullkomlega næstu eina eða tvær kynslóðir, þar sem ungt fólk nú á dögum (á Indlandi) hefur engan áhuga fyrir þessum fræðum, jafnvel þó það sé alið upp með Brahmönum. og er heldur ekki hvatt til þess“. — Þessi ótti hins gamla fræðaþular er þó sennilega ástæðulaus. Æska Indlands í dag skilur réttilega, að annars er nú meiri þörf en heimspeki einnar saman.

Bretar yfirgáfu í Indlandi meira en 300 milljónir manna, sem aldrei var kennt að lesa eða draga til stafs. — Á hverju misseri hafa menn fallið hrönnum saman

og falla jafnvel enn úr hungri og hvers kyns sjúkdómum, vegna þess að varla meir en einn hundraðshluti af auðlindum landsins er nýttur með nútíma tækni. Öll alþýða manna var og er of fátæk til að geta tileinkað sér hinn mikla arf. Hann hefur verið eign fárra, — sárafárra manna. Æskan í dag hefur vaknað til skilnings um, að áður en menn geta eignazt hin dýrmætu andlegu verðmæti Indlands, verður a. m. k. að kenna þeim að lesa og skrifa. Það verður að gera þúsundunum, sem enn láta fyrirberast á gangstéttum borganna og í stráhýsum þorpanna, kleift að búa í húsum. Börn hins nýja Indlands verða að fá nægan mat til að ná eðlilegum þroska. Fyrst þegar menn hafa fengið a. m. k. lágmarks menntun og efnahagslegt frelsi, er tímabært að ætlast til, að menn hafi tíma og ástæður til að sinna heimspeki, bókmenntum og listum.

Þessi kynslóð og hin næsta þurfa á öllum kröftum sínum að halda í hinni þjóðfélagslegu og efnahagslegu uppbyggingu landsins. Hin þriðja kynslóð mun snúa aftur til hins forna menningararfs, — ekki sem fámennur hópur, heldur þjóðin í heild.

Á okkar tímum geta austur og vestur skipzt á stórum og dýrmætum gjöfum. Þau vísindi og þær þjóðfélagsumbætur, sem Vesturlönd hafa skapað í blóðugum fæðingahríðum nýrra tíma, má engan veginn vanmeta. Án þess að austrið þiggi þá gjöf og tileinki sér þjóðfélagsumbætur og vísindi vestursins, á austrið sér enga framtíð — engan líkama.

Ef Vesturlönd hafna gjöf austursins — framlagi þess í trú og heimspeki, verður menning þeirra hol og innantóm og maðurinn hjól í fullkomnu segulverki án anda og sálar.

Hin nýja menning framtíðarinnar rís í þessari baráttu andstæðra afla. Þessum viðskiptum lýkur hvorki með sigri austurs né vesturs. Afleiðing þeirra verður ný menning, sem stendur bæði hinni gömlu austrænu og vestrænu menningu framar.

Um aldir hafa Vesturlönd beitt öllum kröftum sínum að því hlutverki sínu að finna hinni nýju menningu framtíðarinnar hæfan líkama. Enn fleiri aldir hefur austrið einbeitt sér að þeirri köllun sinni að fá manninn til að uppgötva sál sína.

Við, sem nú lifum, sjáum umbrot og byltingar allsstaðar í kringum okkur, vegna þess að við lifum í afturelding þeirra tíma, þegar þetta tvennt skal mætast og skapa nýjan heim og nýja menningu.

*Indlandi, marz 1953.*

# RIG-VEDA

Um sömu mundir og spámenn Ísraels skráðu hin fyrstu blöð heilagrar ritningar og egypzkir prestar færðu í letur bók hinna dauðu, þá bók er vera skyldi sálum framliðinna leiðarvísir um rétta framgöngu og rétt svör við spurningum konungs dánarheima, þegar sálin var þar vegin á vogarskálum í höll hans, eftir för hennar til jarðarinnar, — um sömu mundir og þó líklega heldur fyrr var ljóðabókin Rig-Veda samin.

Skáldin, sem hana ortu, höfðu aldrei séð bók. Rig-Veda var fyrsta bók hins hvíta kynstofns (Aríanna) og er líklegast elzta bók veraldarinnar. Um hana segir hinn lærði þýzki fræðimaður, sem fróðastur er Vesturlandabúa um indverska heimspeki, prófessor Max Müller: „Meðal hinna mörgu bóka, sem geyma sögu hins ariska kynstofns, skipar Rig-Veda öndvegi um allar aldir. Hún er elzta bókin í bókhlöðu mannkynsins, eldri en Zend Avesta og Hómer."

Vafalaust má þó teljast, að skáldskapur hafi verið iðkaður öldum saman fyrir daga þessarar bókar. Í Rig-Veda hefur ljóðagyðjan þegar slitið barnsskóm sínum.

Í ljóðum þessarar bókar er ekki að finna einkenni byrjandans. Tamning máls og meðferð yrkisefna hafa þar náð þeirri fullkomnun, sem hinar fyrstu kynslóðir skáldanna hefðu ekki getað skapað. Um þessi ljóð Rig-Veda segir próf. Mac Donald m. a.: „Þessi ljóðræni skáldskapur, sem er miklu eldri öðrum bókum í sögu hins indó-evrópska kynstofns, einkennist, svo gamall sem hann þó er, af fágun og fegurð í hugsun og leikni í meðferð máls og háttar.“

En hve gamall er þá þessi elzti skáldskapur sögunnar? Aldur hans veit enginn nákvæmlega. Vissa er þó fyrir því, að bókin sjálf er ekki yngri en 3500 ára gömul, en kvæði hennar vafalaust miklu eldri. Sumir indverskir fræðimenn telja ljóðin 5000 ára gömul, aðrir allt að því 8000 ára (Tilak t. d.). Prófessor Jacobi telur þau a. m. k. 6500 ára og byggir það á stjarnfræðilegum útreikningum.

Veda-bækur eru fjórar að tölu, *Rig-Veda, Yajur-Veda* (sem skiptist í hina hvítu og hina svörtu Yajur-Veda), *Sama-Veda* og *Atharva-Veda.*

Þegar Aríar komu til Indlands, var þar fyrir þjóð, er stóð á háu menningarstigi og hafði þroskað með sér trúarhugmyndir og venjur á ýmsan hátt ólíkar þeim, sem Aríarnir fluttu með sér til hinna nýju heimkynna. Til að vega upp á móti þessum trúarhugmyndum heimaþjóðarinnar (Dravidanna) er talið að Rig-Veda hafi verið sett saman.

Yajur-Veda og Sama-Veda hafa lítið sjálfstætt gildi.

Þær eru að mestu endurómur úr Rig-Veda og voru handbækur ætlaðar til söngs, sem sunginn var við ýmsar helgiathafnir, þegar guðunum voru færðar fórnir eða þegar mjöðurinn *sóma* var búinn til drykkjar.

Atharva-Veda er framlag hins gamla Indlands til hinnar nýju menningar, sem reis með komu Aríanna. Margar fornar trúarhugmyndir lifa þar áfram í samfélagi við hina nýju guði. — Af þessum orsökum var Atharva-Veda lengi ekki viðurkennd sem Vedabók. Frá bókmenntalegu sjónarmiði stendur hún þó aðeins Rig-Veda að baki.

Hver Veda-bók skiptist í þrennt: *Mantras,* ljóð eftir ýmsa höfunda, sem sett voru saman í kvæðasafn er nefnist Samhita (sam = saman, hita = setja), *Brahmönur,* sem fjalla um boðorð og helgisiði, og loks *Uphanishada,* sem fjalla um heimspeki.

Möntrurnar eru þannig trúarljóð, samin af skáldunum. Brahmönur eru lög og kreddur trúarinnar, samin af prestunum. Uphanishadar eru andi trúarinnar, túlkaður af heimspekingum.

En í Rig-Veda eru ekki aðeins trúar- og heimspekiljóð í ætt við Völuspá og Hávamál. Þar er einnig að finna ljóð um siði og hætti Aríanna, bardagaljóð og ljóð um brúðkaup og jarðarfarir. — Skáldin yrkja um bóndann, sem erjar landið með plóg og herfi, haka og hlújárni, um akrana og vatnsveiturnar, sem notaðar voru um þurrkatímann til að bjarga uppskerunni frá eyðingu, og um nautpeninginn og brunnana, sem gáfu

honum líf eftir að áin var þornuð upp. Þau kváðu um stríðsvagna og uxakerrur og vopn, sem slegin voru úr málmi. Þau ortu lofkvæði um hreysti ættarhöfðingjans, er mætti sem fulltrúi ættsveitarinnar á „alþingi“, og um konunginn, sem þar var kosinn af þessum fulltrúum.

En framar öllu öðru ortu þau þó um guðina. Í ljóðum Rig-Veda er að finna fyrstu goðafræði heimsins og þangað sækir goðafræði Grikkja og Rómverja og norræn goðafræði drjúgan efnivið. Það er að vísu vafasamt að tala um uppruna hugmynda og enn vafasamara að fullyrða, að þær eigi sér yfirleitt nokkurt algilt upphaf. En eftir þeim bókum, sem menn verða að sækja þekkingu sína til, er ljóst, að jafnvel sjálft hugtakið guð kemur fyrst fram í þessari bók og berst þaðan vestur á bóginn frá Indlandi. — Í Rig-Veda er guð nefndur sanskrítarorðinu Deva (af div = að skína) og merkir birtu eða ljós. Í grískri goðafræði er bæði hugtakið og orðið fengið að láni og faðir guða og manna er þar kallaður Zeus (Seifur). Þegar þetta hugtak nær Rómaveldi, fær það nafnið Deus og í norrænni goðafræði nefnist það Týr.

Af þessu dæmi einu má sjá hver áhrif þessarar bókar hafa verið á vestræna menningu. Efni margra kvæða hennar eru endursögð beint eða óbeint með vestrænum þjóðum og jafnvel Edda og Rig-Veda eiga margt sameiginlegt. Nægir í því sambandi aðeins að benda á skyldleikann milli þeirrar skýringar, sem Eddukvæði

gefa á sköpun heimsins, og ljóðsins í Rig-veda, sem fjallar um sköpunina og nefnist Púrúsa (heimsandinn). Kvæðið er þannig:

Þúsundhöfðaður, þúsundeygur og þúsundfættur var Púrúsa.
Hann hélt öllum heiminum í faðmi sér.
Púrúsa er allt þetta, allt sem var og allt sem verður.
Hann er konungur eilífðarinnar.
Slík er stærð hans og meir en þetta er Púrúsa.
Fjórðúngur hans er veröldin, hitt er á himnum.
Þrír fjórðungar hans risu til himins.
Fjórðungur hans féll niður til jarðar.
Þar óx hann og varð öll veröldin,
bæði það, sem tekur til sín næringu og það sem enga fæðu tekur.
Hann er faðir Viraj.[1]
Og Viraj er móðir hans.[2]
Eftir að hann var borinn,
var hann þó að baki veraldarinnar eins og áður.
Þegar guðirnir fórnuðu Púrúsa,
sköpuðu þeir vorið úr merg hans.
Úr hita hans sköpuðu þeir sumarið.
Haustið sköpuðu þeir úr fórninni.
Sem fórn lögðu þeir Púrúsa á jörðina.
Með Púrúsa fórnuðu guðirnir Sadhyum[3] og spámönnum.
Merg hans var safnað.
Úr honum gerðu guðirnir fugla loftsins og dýr merkurinnar,
— einnig þau, sem í þorpum búa.

1) „Eva" hið gagnstæða kyn, sem síðan skapar hinn ytri heim með Púrúsa.

2) Þegar Púrúsa er endurborinn af Viraj, birtist hann í tengslum við efnisheiminn.

3) Ákveðin tegund guða.

Úr þessari fórn urðu kvæði og söngvar til,
hættir og helgiljóð.
Með henni eru fákar fæddir
og allt sem tvær raðir tanna hefur,
geitur, ær og kýr.
Þegar þeir limuðu Púrúsa sundur,
í hve marga hluta var honum skipt?
Hvað varð af munni hans og örmum hans,
lendum hans og fótum?
Brahmanar (kennimenn) urðu til úr munni hans.
Rajanyar (stjórnendur og hermenn) úr örmum hans.
Vaisyar (kaupsýslu-, iðnaðarmenn og bændur) úr lendum hans.
Sútrar (þrælar) úr fótum hans.
Tunglið varð til úr anda hans,
sólin úr auga hans,
Indra og Agni úr munni hans,
Vayu (stormurinn) úr andardrætti hans.
Úr nafla hans varð miðhiminn til.
Úr höfði hans upphiminn.
Jörðin úr fótum hans.
Þannig sköpuðu guðirnir heiminn. . .

Skáld Rig-Veda voru náttúrudýrkendur. Þau ortu um sólina, sem rís á hverjum morgni og vekur allt af svefni næturinnar. — Í fegurð morgunsins sáu þau hinn dularfulla mátt, sem vekur líf og kæti, og að baki þessarar fegurðar þóttust þau sjá guðdóminn. — Og þau sköpuðu gyðju úr fegurð morgunsólarinnar og nefndu hana Ushas, morgungyðju (Ushas er skylt Eos í grísku og Aurora í latínu). Hún var einnig nefnd dóttir himinsins. Þau kölluðu hana jafnvel móður guða og andlit

hins eilífa, og þau töluðu um hana sem tákn allra fórna.

Úr stjörnum næturinnar sköpuðu þau gyðjuna Nótt. Hún rekur svartnættið á flótta með ljósinu, sem stafar af skartklæðum hennar og gimsteinum, stjörnum og mána. Hún kallar bóndann heim af akri sínum, heim til þorpsins, og menn og dýr taka á sig náðir undir skikkju hennar. Einnig hún er dóttir himinsins og systir Morgungyðjunnar.

Úr fegurð himinsins sköpuðu þau guðinn Varuna (það orð er af mörgum talið skylt Ouranos á grísku og Ahuramazda, guð ljóssins, á persnesku). Himinninn er feldur hans, sólin er auga hans, stormurinn er andardráttur hans. Varuna verður síðar guð laga og réttar og guð refsingarinnar, sem þó er alltaf reiðubúinn að fyrirgefa þeim, er yfirbót gera. — Og hann verður einnig guð hins mikla lögmáls Rita, sem Lao Tze kallar *Tao*. Því lögmáli lýtur öll tilveran. Það heldur himintunglunum á braut sinni, það veldur komu árstíða og komu dags og nætur. Allar hinar reglubundnu hreyfingar náttúrunnar eru lög þess, og þau lög eru óhagganleg og eilíf. Fyrir þeim verða jafnvel guðirnir að beygja sig. Þegar þetta lögmál síðar var yfirfært á mannlega breytni, varð siðfræði til. Og Varuna guð lögmálsins Rita verður þess vegna einnig guð refsingarinnar, sem sér um, að hvert víxlspor af óhagganlegum brautum samræmisins verði máð út með vendi þjáningarinnar

og einstaklingurinn knúinn aftur inn á hinar réttu brautir.

Úr ljósinu, sem nátengt er himninum, sköpuðu skáld Rig-Veda guðinn Mitra. Hann er jafnan í för með Varuna.

Úr sólinni sköpuðu þau guðina Surya, Pusan og Savitr. — Surya verður síðar guðinn Visnu — ein hlið hins þríeina guðs.

Savitr er ekki aðeins sól dagsins, heldur einnig hin ósýnilega sól næturinnar. Hann er hinn hvíti ás, ljóshærður og gullineygður.

Pusan er guð búenda, verndar akra og engi og vakir yfir nautpeningnum.

Úr helgum loga altarisins, ljósum himinsins og eldingunni sköpuðu skáldin guðinn Agni. Honum var ætlað að flytja fórnina til hins æðsta máttar og vera þannig boðberi, sem flytur bænir manna til hæða.

„Ó, Agni," yrkir eitt skáldanna — „þiggðu þennan við, sem ég flyt þér, logaðu glatt og sendu úr faxi þínu helgan reyk þinn til efstu himna og lát hann renna saman við geisla sólarinnar."

Úr regninu, sem fellur niður á þyrsta jörðina og bjargar uppskerunni undan svíðandi tungum þurrksins og mannfólkinu úr greipum hungurvofunnar, sköpuðu skáldin guðinn Indra. Hann er borinn í skýjum og er einnig guð stormsins og eldingarinnar. Með eldinguna að vopni sigrar hann meinvætti þurrksins (Vritra) og blóð hans fellur til jarðar.

Indra varð stríðsguð Aríanna í baráttu þeirra við þær þjóðir, sem fyrir voru í landinu. Án hans gátu þeir ekki sigrað í orustu. Hann á einnig í höggi við guði hinna innfæddu, m. a. Krisna, sem síðar (eftir að Bagavad Gíta var rituð) verður einn helzti guð Indlands.

Hvar sem stríðsguðinn Indra fer, er vínguðinn Sóma sjaldan fjarri. Aríarnir virðast hafa verið drykkfelldir nokkuð, eins og títt er um „víkinga". Þjóðdrykkurinn var einsog vínguðinn nefndur Sóma. Skáldin kölluðu drykkinn guðaveig, því að þau álitu, að guðirnir drykkju sýnu meira en mennirnir. Þau héldu fram, að drykkurinn gerði hugann skýrari, innsæi dýpra og fyllti menn guðmóði. Sum skáldanna litu þó á vínið aðeins sem tákn guðdómsins, líkt og margir persneskir dulhyggjumenn hafa gert, og fyrir þeim hafði drykkja táknræna merkingu ekki ósvipað og vínneyzla við altarisgöngur í kristnum sið. Heimspekingurinn William James hefur á sama hátt á okkar tímum haldið fram, að vitund drukkins manns sé á vissan hátt í ætt við andlega reynslu djúphyggjumannsins. — Við verðum þó að líta svo á, að yfirleitt hafi skáldunum aðeins þótt sopinn góður og notað trúna sem afsökun fyrir drykkju sinni, líkt og Forn-Grikkir drukku í blóra við guðinn Bakkus og Persar, sem drukku full Haoma, eða þá norrænir víkingar, sem hófu gleðskap sinn með því að lyfta hornum sínum Óðni til heiðurs.

Eitt skáldanna segir svo í kvæði, sem tileinkað er vínguðnum, Sóma:

Flyt mig, ó, Sóma, til bústaða sólarinnar,
til hins eilífa heims, þar sem ljósið aldrei slokknar.
Flyt mig þangað sem yama ræður ríkjum —
til hinna leyndu bústaða himinsins,
til hinna miklu vatna,
og lát mig dveljast þar að eilífu.
Flyt mig þangað, þar sem lífið er frjálst,
til hins þriðja himins himnanna,
til hins ljósa heims,
og lát mig dveljast þar að eilífu.
Flyt mig til heims vonarinnar og draumsins,
til landsins þar sem hinn gullni bikar Sóma er drukkinn,
til landsins sem á gnótt veizlufanga, þangað sem gleðin býr,
og lát mig dveljast þar að eilífu.
Flyt mig þangað, sem hamingjan býr og gleðin ræður ríkjum,
þar sem draumur allra drauma rætist,
og ger mig þar ódauðlegan.

Þannig létu skáld Rig-Veda fák sinn geysa. Úr fyrirbrigðum náttúrunnar tókst þeim að skapa 333 guði og gyðjur.

Sumir, sem hafa aðeins yfirborðsleg kynni af þessum bókmenntum, halda, að enginn munur sé á þessari náttúrudýrkun og animisma, trúnni á stokka og steina. Aðrir halda því fram, að skáld Rig-Veda trúi á marga guði og trú þeirra sé fjölgyðistrú.

Í landi eins og Indlandi á öld Veda-bóka, þar sem ólíkir menningarstraumar mætast, er rétt að gera ráð fyrir, að margar og ólíkar trúarhugmyndir hafi dafnað

hlið við hlið með hinum mörgu trúflokkum, sem þar voru til, bæði fornum og nýjum. Í Vedabókum má þess vegna finna flest form trúarinnar. Rétt er að gera ráð fyrir, að á þeirri tíð, eins og enn í dag, hafi verið til fjöldi manna, sem trúði á persónulega guði. En því oftar sem maður les þessi kvæði, þeim mun sannfærðari verður maður um, að mörg skáld Rig-Veda trúa aðeins á einn guðdóm, þótt sá guðdómur hefði margar hliðar og gangi undir ýmsum nöfnum. Stundum er þessi æðsti máttur ávarpaður sem „Hann", stundum sem „Hún", stundum sem „Það".

Hvað þetta „Það" var, vissu þeir ekki, og skáld Rig-Veda tileinkuðu því stundum kvæði sín hinum óþekkta guði. — En náttúruna skildu þau og töldu sig skynja í henni og að baki hennar andardrátt þessa óþekkta guðs.

Náttúrufyrirbrigðin urðu þeim þannig gluggar guðdómsins, og gegnum þessa glugga töldu þau sig sjá hið bjarta ljós heimsins í og að baki allra lita. — Andann í og að baki allra veralda.

En þennan guðdóm, sem var ofar mannlegum skilningi, þekktu þau ekki, aðeins leiðirnar, sem til hans lágu; fyrirbrigði náttúrunnar. Þessi fyrirbrigði voru mörg og takmörkuð. En þau ein veittu þeim innsýn í guðdóminn. Úr hverju þeirra sköpuðu þau guð. Þess vegna urðu guðirnir eins og náttúrufyrirbrigðin margir og takmarkaðir. En í náttúrufyrirbrigðunum og að baki þeirra, í öllum hinum mörgu guðum og að baki

þeirra var guðdómurinn einn og ótakmarkanlegur: Aditi, Brahman, Atma. Takmarkaðir menn skilja aðeins hið takmarkaða. Þess vegna birtist guðdómurinn þeim í mörgum gervum, í líki margra guða.

Höfundar Rig-Veda trúa á annað líf eftir dauðann. Þar er þó að vísu ekki hægt að finna jafnnákvæmar hugmyndir um tilveru annars heims eins og síðar varð.

Aríarnir voru sigurvegarar. Þeir voru ánægðir með þennan heim og hugsuðu lítið um þann næsta eins og oft vill verða um þá, sem vel vegnar. Trúhneigð er jafnan meiri meðal fátæklinga en sigurvegara. Aríarnir voru gleðimenn og vildu njóta lífsins sem bezt þeir kunnu.. Hugmyndir þeirra um himnaríki voru líkt og hugmyndin um Valhöll bundnar jarðneskum munaði eins og þeir þekktu hann beztan.

Yama (í Zend Avesta hinni persnesku Yima) er konungur dánarheima og hinnar hnígnandi sólar. Hann var hinn fyrsti maður, sem fann leiðina til þessa lands hinna framliðnu. Þar ríkir hann sem húsbóndi og konungur og hýsir þann, sem að garði ber. Ríki hans var nefnt land feðranna. Sagt er, að þegar menn safnist til feðra sinna, liggi för þeirra yfir vatn og brú. Aðeins góðir menn komast þessa leið. Vondir menn fara til helheima, sem eru myrkir staðir og lágir.

Í Satapatha Brahmana er því haldið fram, að sálin eftir andlátið verði að ganga milli tveggja elda inn í annan heim. Sá eldur brennir vonda menn, en vinnur góðum mönnum ekki mein. Þar er því einnig

haldið fram, að pund hvers manns sé eftir dauðann vegið á vogarskálum og hljóti menn laun eða refsingu annars heims eftir verkum sínum á jörðinni. Sagt er, að á þennan hátt sé úr því skorið, hvort menn fari til himnaríkis, helheima eða verði sendir til jarðarinnar aftur.

Skáld Rig-Veda halda fram, að maðurinn hafi ódauðlega sál (Manas). Sálin er sögð aðsetursstaður hugsana og tilfinninga. Hún býr í hjarta manns. Annað orð, sem notað er um sálina, er Atman. Atman er í fyrstu hinn lifandi andardráttur manns. En skáldin eru ekki ánægð með þá skýringu. Þau víkka hugtakið og láta það einnig merkja blóðið í æðum manna, sem fóstrar og viðheldur lífinu. Loks komast þau að þeirri niðurstöðu, að Atman og sjálfur heimsandinn — innsti kjarni tilverunnar — sé eitt.

Heimspeki á sér ekkert upphaf fremur en hugmyndir yfirleitt. En þeir menn, sem halda, að upphaf lista, bókmennta og heimspeki sé að finna í bókum, munu uppgötva vöggu heimspekinnar í þessum ljóðum Rig-Veda. — Heimspeki hefst með spurningunni um uppruna og eðli tilverunnar. — Hver hefur skapað himin og jörð? Sumir svöruðu: „Guðirnir". Öðrum fannst gátan þó ekki ráðin. „Hvað eru þessir guðir og hvaðan koma þeir?" „Veit nokkur, hver skapaði guðina eða hvernig þeir voru skapaðir?" „Var himinninn skapaður á undan jörðinni?" „Hvernig sköpuðu guðirnir himin og jörð — og úr hverju?" — Sumir svöruðu, að

guðirnir hefðu byggt allt þetta líkt og smiðir reisa hús úr viði. En þeir, sem voru heimspekilega sinnaðir, voru heldur ekki ánægðir með þessa skýringu. „Hvar óx það tré," ortu þeir, „er guðirnir notuðu sem efnivið í slíka byggingu?"!

Á þennan hátt hófst leit þeirra að hinni fyrstu orsök, sem setti veröldina á hreyfingu. Eða var hún sett á hreyfingu? Getur nokkuð valdið hreyfingu, nema hreyfingin sjálf? Hefur algjör kyrrstaða nokkurn tíma verið til, oge r nokkur ástæða til að leita hinnar fyrstu orsakar, upphafs hreyfingarinnar? Getur hreyfingin ekki verið eilíf? Og var nokkur sköpun til?" Var ekki sköpunin, tilveran, líka eilíf?" „Tilveran hlýtur að hafa átt sér upphaf," sögðu aðrir. En þeir voru óðara spurðir: „Hvað var áður en tilveran varð til, — var það tóm, ginnungagap — eða?"

Og þegar hér var komið, þraut orðaforða þeirra um stund, því að enn var ekkert orð til yfir hið ótakmarkanlega. Skáldin sáu, að óskynsamlegt var að segja, að tilveran hafi verið sköpuð úr engu. Hins vegar vildu sum skáldanna trúa því, að hún hafi verið sköpuð af guðunum og fyrir daga þeirrar sköpunar gat því þessi tilvera ekki verið til! Hvaða lausn fundu þau þá á gátu sköpunarinnar? Eitt skáldanna kemst endanlega að þeirri niðurstöðu, að í „upphafi" hafi hvorki verið til þessi veröld — né heldur tóm eða ginnungagap. Þá voru aðeins hin miklu vötn. Eitthvað utar og ofar mannlegu hugmyndaflugi, eitthvað sem skynsemi manna nær ekki til.

Skáldið efast jafnvel um, að sjálfur guð þekki þennan leyndardóm sköpunarinnar. Það kveður:

Þá var hvorki það sem er, né það sem er ekki.
Þá var hvorki loft né himinn að baki þess.
Hvað var? Hvar? Stjórnað af hverjum?
Var vatnið hið mikla djúp?
Þá var hvorki dauði né eilífð.
Engin skil voru dags og nætur.
„Það“ andaði án andardráttar.
Handan þess var ekkert.
Sjálft myrkrið var myrkri hulið.
Allt var sær án ljóss.
„Það“ duldist í tóminu
og fæddist í líki þessarar tilveru
fyrir tilstyrk hitans.
Ástin kom til þess.
Hún var grein af meiði hjartans.
Skáld, sem leituðu vizku hjartans,
fundu takmörk þess, sem er
í því, sem er ekki.
Ofinn var strengur úr geislum.
Var nokkuð fyrir ofan? Var nokkuð fyrir neðan?
Til var sköpun og til voru öfl.
Kraftur hið neðra. Vilji hið efra.
Hver veit þá, hver hefur skapað þetta,
hvaðan þessi veröld hefur komið?
Guðirnir eru yngri en þessi sköpun.
Hver veit þá, hvaðan hún er komin?
— Hann, sem allt þetta er komið frá,
hvort sem hann skapaði það eða skapaði það ekki
— hinn hæsti andi á hinum hæsta himni —
— hann veit, — — — eða veit hann það ekki?

Skáld Rig-Veda leituðu ekki aðeins að hinni fyrstu orsök heimsins, — ef hún var þá til — heldur einnig að þeirri lind guðdómsins, sem allir guðirnir eru runnir frá. Þau tóku að skipta hinum mörgu guðum í stærri og stærri flokka — í guði jarðarinnar, í guði sólarinnar, í guði loftsins og guði hinna æðstu himna. Loks kváðu þau upp úr um það, að til væri aðeins einn guð. Eitt skáldanna segir:

Þeir kalla hann Indra, Mitra, Varúna,
Agni og hinn vængstyrka Garutman.
Því, sem er eitt (ekam santam), gefa vitrir menn mörg nöfn.
Þeir kalla það Agni,Y ama, Matarisvan."

Forn-Egyptar og spámenn Ísraels komust að sömu niðurstöðu: „Drottinn skapari þinn er einn.“ En í Palestínu var þessum skilningi náð eftir blóðug stríð við aðra guði, valdbeitingar og ofsóknir. Á Indlandi varð þessi þróun aftur á móti árekstralaus. Hinir mörgu guðir höfðu þar aldrei verið annað en mismunandi tákn hins eina, og skáld Rig-Veda voru upp úr því vaxin að deila um, hvert hinna mörgu nafna guðdómsins væri hið eina rétta. En hinn eini guðdómur skálda Rig-Veda var ekki karlmaður eins og guð Ísraels. Hann var ekki einu sinni í mannsmynd. — Um þetta segir próf. Max Müller: „Áður en söfnun Rig-Veda Samhita lýkur, hefur sú sannfæring skapazt, að til væri aðeins einn guð, hvorki karlkyns né kvenkyns, — guð ofar eiginleikum og persónuleika mannlegrar náttúru, en engu

að síður var í raun og veru átt við þennan guð með nöfnum slíkum sem Indra, Agni, Matarisvan ... Í sannleika sagt höfðu skáld Rig-Veda sett fram sömu hugmynd um guðdóminn og nokkrir kristnir heimspekingar í Alexandríu báru fram síðar, en er jafnvel í dag ofar skilningi margra þeirra, sem kalla sig kristna.“

Loks með hugmyndinni um hinn eina guð eignuðust skáldin orð um hugmynd, sem lengi hafði vakað óljóst fyrir þeim, en þau aldrei getað fyllilega mótað. Þau eignuðust orð, hið fyrsta orð allra tungumála um hið ótakmarkanlega og eilífa; hið *absoluta*. Þetta orð var *aditi*:

Aditi er upphiminn. Aditi er miðhiminn.
Aditi er faðir, móðir og sonur.
Aditi eru allir guðirnir, allir kynþættir manna,
allt sem er, og allt sem verður.

Og í ljósi þessa skilnings sköpuðu skáldin nýtt guðaheiti — Hiranyagarbha (síðan Brahma) — hinn gullna frjóanga, sem er kjarni allrar tilveru. Eitt þeirra kvæður:

Eins og gullinn frjóangi reis hann í upphafi;
hinn eini guð allrar tilveru.
Hann skapaði jörðina og himininn.
Hvaða guð eigum við að tilbiðja með fórn okkar?
Hann gefur okkur anda, hann gefur okkur styrk.
Allt lýtur orði hans, jafnvel guðirnir.
Skuggi hans er dauðinn og eilífðin.

— Hvaða guð eigum við að tilbiðja með fórn okkar?
Hann er hinn eini konungur veraldarinnar,
alls, sem anda dregur, alls sem vakir og sefur.
Hann er hinn eilífi guð alls, bæði manna og dýra.
— Hvaða guð eigum við að tilbiðja með fórn okkar?
Tign hans og veldi sýna þessi snævi þöktu fjöll,
hafið og hinir djúpu og duldu straumar.
Hönd hans eru þessar víðu lendur.
— Hvaða guð eigum við að tilbiðja með fórn okkar?
Hann gerði himnana bjarta og jörðina trausta.
Hann skapaði hinn efsta himin.
Hann skapaði geiminn.
— Hvaða guð eigum við að tilbiðja með fórn okkar?
Þegar hin miklu ágústvötn komu
með frjóanga tilverunnar í faðmi
kviknaði loginn og lifandi guðanna varð til.
— Hvaða guð eigum við að tilbiðja með fórn okkar?

Ljóð Rig-Veda eru þannig upphaf hinnar skráðu heimspeki Indlands. Í þeim er að finna upphaf allra grundvallarhugmynda hennar í sinni frumstæðustu mynd:

Í þessum ljóðum reyndu skáldin að öðlast innri trúarlega reynslu með bæninni og með söngvum, sem þau ortu til hinnar rísandi sólar, til sólsetursins og til dagsins, þegar sól fór hæst. — Þessi leit inn á við þróast síðar upp í þá heimspeki, sem almennt er kölluð yoga.

Fórnarljóð Rig-Veda vaxa smám saman og verða hin viðurkennda guðfræði prestastéttarinnar. Ljóðið um hinn gullna frjóanga Hiranyagarbha verður upphaf heimspekinnar um samband guðs við veröldina.

Kenningin um Rita, lögmál samræmisins, sem heldur öllum hlutum á braut sinni, þróast síðar upp í karmaheimspekina og hún leiðir aftur á vissan hátt til kenningarinnar um hringferðir mannssálarinnar um hinar þrjár veraldir, kenningarinnar um dauða og endurfæðingu.

Með þessum ljóðum eru fyrstu sporin á leið lífsskilningsins stigin. Það hvílir ferskur morgunsvali yfir vötnunum. Skáldin eru frjáls. Þau eru ekki beygð af valdboði neins harðstjóra. Þau lúta ekki einokun neinna trúarbragða. Vald prestanna var þá ekki til. Ekkert goðalíkneski né hof hafði verið reist. Þau óttast ekkert vald, hvorki á himni né jörðu. Engin yrkisefni og engar hugmyndir eru þeim tabú, sem ekki má ræða.

Meistarinn frá Nazaret var ekki borinn í kristnum söfnuði og játaði engin trúarbrögð, heldur sat hann við sjálfa uppsprettu trúarinnar og nam þar lærdóm sinn. Sú uppspretta og hann sjálfur var eitt. Einmitt vegna þessa frelsis gat hann orðið höfundur trúarbragða og kennt mönnum hin æðstu lífssannindi.

Meistari Búdda játaði engin trúarbrögð, en nam lífspeki hinnar sömu uppsprettu trúarinnar í einveru Uruvelaskóga. Einmitt vegna þess að hann eins og Kristur þekkti anda trúarinnar og var ófjötraður af hinum dauða bókstaf prestanna og ritninganna, gat hann vísað mönnum leiðina til fullkomnunar.

Lao Tze og Múhammeð urðu trúarbragðahöfundar vegna þess, að þeir játuðust ekki undir nein trúarbrögð

og voru frjálsir til að leita hins sanna guðdóms ófjötraðir af trúarkreddum, misskildum erfðakenningum og helgisiðum.

Skáld Rig-Veda áttu sér einnig þetta sama lýsigull, sem var og er hyrningarsteinninn í öllum hinum háreistu musterum aldanna. — Þau áttu sér andlegt og veraldlegt frelsi.

# UPANISHADAR

LOKAKAFLI hverrar Vedabókar er kallaður *upanishad.* Bókstaflega þýðir það að „setjast niður nálægt" (Upa ni sat). — Enn í dag má sjá á Indlandi hóp lærisveina í görðum, götum og á torgum sitja í hvirfingu kringum fræðara sinn og hlýða á það, sem hann hefur fram að færa. Upanishad þýðir þannig þau fræði og sú heimspeki, sem kennd var í hinum forna indverska skóla.

Þessar bækur eru sagðar 108 að tölu. Þær eru skráðar af mörgum og ólíkum höfundum. Hinar elztu þeirra eru um það bil 3000 ára gamlar og því skráðar fyrir daga Búdda. Hinar yngstu eru frá þriðju öldinni fyrir Krists burð.

Um nöfn og ævi höfundanna vita menn næsta lítið. Á sama hátt og höfundar Íslendingasagna láta þeir ekki nafn síns getið, en tileinkuðu verk sín guðunum.

Með upanishödum og með kenningu og bókmenntum Búddismans nær indversk heimspeki hátindi sínum. Þær eru þó ekki ný stefna í indverskri heimspeki, heldur framhald þeirrar þróunar, sem hefst með Vedabókum. Samhengið helzt órofið. Höfundar upanishad-

anna lögðu þó meiri áherzlu á að kenna mönnum rétta breytni, en skeggræða trúarsetningar gamalla ritninga.

Trúarþulur og gamlar bænir töldu þeir haldlitlar og óvænlegar til skilnings og þroska. Og þeir virðast ekki heldur hafa borið neina sérstaka virðingu fyrir hinni þjónandi klerkastétt sinna tíma. „Þeir, sem iðka messugerðir, halda að þeir séu menn lærðir og gáfaðir, en skjögra þó raunar áfram í ráðaleysi líkt og blindur leiði blindan." — Stundum eiga þeir til að skopast góðlátlega að prestunum fyrir að gera sér trúna að atvinnu og afla sér á þann hátt matar og drykkjar. Þó eru þeir engir uppreisnarmenn í trúmálum. Persónulega trúa þeir að vísu ekki á hina gömlu guði. Samt ráðast þeir aldrei gegn þeim né afneita þeim.

Þeir líta á sig sem fræðara. Hæfur fræðari kannar fyrst hæfni og þroska nemenda sinna og hagar síðan fræðslu sinni eftir getu þeirra. Ef hann vill leiða þá til dýpri og hærri lífsskilnings, verður hann fyrst að stíga niður til þeirra eigin hugmynda og nota þær og aðra þekkingu þeirra og reynslu við útskýringar sínar og fræðslu um hinn æðri veruleika. Aðeins á þann hátt er honum unnt að koma nemandanum í skilning um óhlutstæða heimspeki. Það er tilgangslaust að bera á borð fyrir menn meiri þekkingu en þeir eru færir um að tileinka sér.

Hugmyndirnar um hina gömlu guði voru fornar og rótgrónar í vitund manna. Það, sem höfundar upanishadanna vildu kenna mönnum, var, að til væri aðeins

einn sannur guð, sem væri kjarni allrar tilverunnar og hinn innri veruleiki í lífi hvers manns. Sjálfsþekking var því hið sama og að skilja hinn eina guð. Þeirra hlutverk var að vísa mönnum leiðina til sjálfsþekkingar, sem ein veitir friðlausum anda mannsins fullkomið frelsi og jafnvægi. En nemandinn á erfitt með að tileinka sér óhlutstæðar hugmyndir. — Hann vill trúa á eitthvað áþreifanlegt, a. m. k. eitthvað nógu líkt honum sjálfum til að hann fái skilið.

Fræðarar upanishadanna gera sér fulla grein fyrir þessu. Þegar þeir vilja koma nemanda sínum í skilning um, að til sé aðeins einn raunverulegur guð (á sanskrít Brahman), sem allir hlutir eru komnir frá, reyna þeir ekki þegar í stað að brjóta niður hugmyndir hans um hina mörgu guði, heldur segja þeir honum. að Brahman sé faðir guðanna, að frá honum séu allir guðirnir komnir, að Brahman og allir hinir mörgu guðir og allt annað í tilverunni sé hinn sami guðdómur. Þannig hyggjast þeir smám saman leiða nemandann frá hugmynd hans um marga guði til hins eina.

Meðan þessum skilningi er ekki náð, eru menn látnir í friði með að dýrka þann guð, sem þeim geðjast persónulega bezt að og er í mestu samræmi við þroska þeirra.

Frumstætt náttúrubarn, sem á líf sitt og afkomu undir náð og miskunn náttúruaflanna og óttast storminn, sem tætir strákofa þess sundur og feykir jafnvel öllu þorpinu burt, eldinguna, sem dauðinn heldur í

hendi sér, — myrkur næturinnar fullt af galdri og illum öndum, villidýrum og ógnir skógarins, sem leynast í kræklóttum greinum, sem andsetnar eru af dísum og nornum. Þetta frumstæða náttúrubarn er látið í friði með að tilbiðja slönguguð, eða þá fljót eða tré, mánann eða sólina. Aðrir eru á sama hátt látnir í friði með að tilbiðja Visnu, Agni og Indra.

En smátt og smátt reyna fræðarar upanishadanna að snúa mönnum frá hinum mörgu guðum og með einföldum orðum og líkingum að leiða menn til skilnings á sjálfum sér og hinum sanna guði, eða eins og þeir orða það, — „frá hinu óraunverulega til veruleikans, frá myrkri til ljóss, frá dauða til eilífðar."

Írlendingur nokkur, sem beðinn var að skilgreina ómælisgeiminn, svaraði því til, að ómælisgeimurinn væri tómur kassi — eftir að lokið hefði verið tekið af, botninn sleginn úr og hliðarnar brotnar niður. Líkt og loftið í kassanum er takmarkað frá öðru lofti er maðurinn skilinn frá uppruna sínum og hinu rétta eðli: guðdómnum. — Að taka lokið af, slá botninn úr og brjóta niður hliðar hinnar takmörkuðu tilveru sinnar, er sú leið, sem manninum er boðuð til að öðlast frelsi og endurheimta sitt rétta ótakmarkaða eðli.

Þennan samruna við guðdóminn, sem sálin hefur raunar alltaf verið hluti af, telja höfundar upanishadanna hina æðstu hamingju lífsins.

Ef maðurinn keppir að einhverju öðru lægra takmarki en þessu, veitir það honum aðeins stundarfrið.

Mannleg fullkomnun verður að lokum takmark hvers einasta manns. En sú fullkomnun er ekki þróun frá hinu „lægsta til hins hæsta“, þó svo kunni að virðast. Eins og guð er fullkominn, þannig hefur kjarni mannsins, sjálf hans, alltaf verið fullkominn. En þó þessi guðlegi neisti búi í hverjum manni, er hann þar ekki einráður. Hann vekur aðeins eilífðarþrá mannsins og bendir honum upp á við til hins háa takmarks. En remma moldarinnar er í blóði mannsins og gerir hann að hálfu dýr, hálfu mann og hálfu guð. Áður en maðurinn getur birzt, verður dýrið að vera algjörlega tamið og láta að stjórn hans. Áður en guðinn birtist, verður maðurinn að játast að fullu undir stjórn hans.

Skynsemin getur ekki lyft manninum upp yfir stig dýrsins, því eins og hinn frægi þýzki heimspekingur Kant segir: „Það, að maðurinn hefur skynsemi, getur á engan hátt lyft honum upp yfir dýrið, ef hann beitir skynsemi sinni á sama hátt og dýrið beitir eðlishvöt sinni.“

Á vissu stigi þróunar sinnar leita menn aðeins hins „veraldlega“. — Í Chandogya upanishad segir: — „Og Virocana hélt til Asuranna til þess að boða þeim þá kenningu, að dýrka skyldi aðeins holdið, því að þeim, sem dýrkar holdið og þjónar því, mun vel líða þessa heims og annars.“

En andi mannsins finnur þar enga varanlega hamingju. Hann stefnir hærra og sættir sig ekki við að öðlast aðeins hverful gæði fjármuna og hóglífis: „Dauðinn

mælti: — „Gott er eitt — þægilegt er annað ... Þeim, sem halda sig við hið góða, mun vel farnast, sá, sem kýs hið þægilega, nær ekki marki sínu.“

„Fjármunir gera engan hamingjusaman. Hygginn maður, sem þekkir eðli hins ódauðlega, leitar ekki neins varanlegs í heimi hverfulleikans.“ ... „En þú, Nachiketas, ... þú hefur ekki gengið auðbraut veraldarinnar, þar sem svo margir menn týnast“ (Kata upanishad).

Meðan maðurinn vinnur verk sín í eigingjörnum tilgangi, veitist honum engin hamingja. Leiðin til sjálfsþekkingar og lífshamingju er rétt breytni, og rétt breytni er að lifa öðrum, en ekki sjálfum sér.

Á þann hátt eru takmarkanir manna smám saman brotnar niður og heimur þeirra verður víðari og bjartari.

Í sumum hinna yngri upanishada er því haldið fram að hægt sé að ná þessu marki með meinlætalifnaði, en það er í andstöðu við anda og kenningu hinna gömlu upanishada: Ástæður meinlætamannsins eru oft sjúklegs eðlis, eða þegar bezt lætur af eigingjörnum toga spunnar. Hann afneitar heiminum og tekur engan þátt í þjáningum og lífi annarra manna. Hann hjálpar engum og er framvindu mannkynsins gagnslaus, en reynir að öðlast *mukti* (lausn) sér einum til handa. — Í öðru lagi nær hann ekki því marki eftir þessari leið, og þó að því jafnvel stundum kunni að virðast náð, er það

ekki varanlegt, því að markinu verður aðeins náð í samfélagi og samstarfi við aðra menn.

En þó upanishadar hafi yfirleitt ekki trú á meinlætalifnaði, verða menn að losa sig við illar tilhneigingar. Menn mega ekki taka líf annars manns undir neinum kringumstæðum. Þeir mega ekki heldur stela, ekki heldur gefa sig á vald reiði eða illgirni, ekki haturs eða fégræðgi. — Upanishadar fordæma ekki kynhvötina. Henni er þar gefin víðtækari merking en almennt er gert. Á Vesturlöndum er hún af ýmsum siðferðispostulum talin „óhrein" og rót „syndarinnar". Vitanlega er þessi kenning um „óhreinleika og synd" ekkert annað en afbrýðisemi og bældar hvatir, sem stíga í stólinn dulbúnar hempu vandlætingarinnar og hylja hið rétta andlit sitt sem vandlegast undir grímu trúarinnar. Fræðarar upanishadanna líta á kynhvötina í öðru ljósi. Hún er miklu víðtækari en svo, að hægt sé að binda hana við eðlun mannfólksins eingöngu. Í raun og veru er hún hinn rauði þráður allrar tilverunnar, hinar tvær andstæður, sem skapa allt líf. Hana er að finna frá hinu lægsta til hins hæsta. Hún er ekki synd, hún er hrein eins og sjálfur guðdómurinn. Og í innsta eðli sínu er hún ein af birtingum hans — hið skapandi afl, sem nær jafnt til hvatanna, tilfinninga hjartans og andans. Þetta skapandi afl er eitt og hið sama, þó að það birtist á ýmsum stigum. Það, sem hinir gömlu lærifeður kalla ást, á sér þrjú stig ólík að

vísu, en er þó sama aflið. Þessi þrjú stig ástarinnar eiga sér líffærafræðilegar samstæður — kynfæri, hjarta og heila. Þessi stig verka að sjálfsögðu hvert á annað, en eitt þeirra verður þó ráðandi í manneðlinu á hverjum tíma. Hið fyrsta stig ástarinnar er eingöngu að fullnægja girndinni (kama). Þetta stig kenna fræðarar upanishada, að menn eigi að umskapa og nota orku þess til að byggja upp hið næsta, sem nefna mætti stig djúpra tilfinninga, stig fórnfúsrar ástar, stig hjartans.

Þegar það stig nær yfirtökum, brýtur hin djúpa hamingja þess niður alla eigingirni og sérhyggju, — og manneskjan lifir ekki lengur sjálfri sér.

En þetta er ekki hæsta stig hennar. Það er venjulega bundið við konu, mann eða barn, en nær ekki nema að litlu leyti til veraldarinnar utan þess hrings.

Hið þriðja og æðsta stig hennar er hugræns eðlis: góðvild og samúð, sem þekkir engin takmörk og nær til alls. Á þessu stigi kennir hún bezt skyldleika síns við guðdóminn.

Þetta, sem gengur undir mörgum nöfnum á Vesturlöndum, kalla fræðarar upanishadanna eitt.

Sú krossfesting holdsins, sem boðuð hefur verið af ýmsum góðum mönnum í anda grískrar siðfræði, á litlum vinsældum að fagna hjá hinum merkari upanishödum. Ástin, þetta volduga afl allrar sköpunar, er allt of djúpstæð í tilverunni til þess, að hún verði „upprætt“, jafnvel á sínu lægsta stigi. Að reyna að uppræta hana jafnvel á fyrsta stigi sínu úr eðli manna, er því

næsta brosleg tilraun í þeirra augum. Án hins fyrsta stigs hennar getur annað stig hennar ekki birzt. Á sama hátt geta menn aðeins vegna reynslu hins annars stigs hennar, komizt upp til hins þriðja. Þannig kenna upanishadar, að „lífshvötin“ sé ein — og hún er guðlegs eðlis, — andstæðan, sem sameinast í nýju lífi, hinn rauði þráður allrar sköpunar, allrar tilveru.

Ástin er sterkasta aflið í heiminum og hún leiðir mennina til þess guðdóms, sem fræðarar upanishadanna segja, að bíði okkar að lokum.

Þekking og vísdómur er einnig í hávegum haft en án kærleika, réttrar breytni og fórnarstarfs í þágu annarra manna geta engar bækur veraldarinnar nokkurn tíma leitt neinn til hamingjunnar.

Til að gefa mönnum kost á að kynna sér að einhverju leyti anda þessara bókmennta, *upanishadanna,* skulu hér til færðir þrír stuttir kaflar teknir upp úr Chandogya upanishad, sem sýna á einfaldan hátt kenningu upanishadanna um manninn og guðdóminn.

## HINN SANNI GUÐ

Allt þetta er guð. Lát manninn taka til íhugunar hina sýnilegu tilveru, þar sem hann fæðist, deyr og lifir í henni.

Maðurinn hefur vilja. Það, sem hann vill í þessu lífi, verður hann í hinu næsta. Lát hann því hafa vilja sinn og trú.

Atman, þú, sem veizt, líkami þinn er andi, gervi þitt

ljós, eðli þitt orka. Þú gefur öllu líf, lætur allt þrá, gefur öllu ilman. Þú ert allt þetta. Þú talar aldrei og þig undrar aldrei neitt.

Þú ert sjálfið í djúpi vitundar minnar, smærri en mustarðsfræ. Þú ert sjálfið í djúpi hjarta míns, stærra en jörðin, hærri en himinninn, meiri en allar þessar veraldir.

Þú, sem ert allt þetta, ert hið sanna, guð. Þegar ég hverf úr þessum heimi, verð ég og það eitt. — Sá, sem hefur þessa trú, efast ekki. Þannig mælti Sandilya, já þannig mælti hann.

## HINN INNRI VERULEIKI

„Þessi fljót, sonur minn, renna til austurs og vesturs. Þau renna frá hafi til hafs. Þau verða sær. Og þegar þessi fljót verða sær, vita þau ekki meir hvaða fljót þau eru."

„Á sama hátt, sonur minn, þegar öll þessi dýr snúa aftur frá veruleikanum vita þau ekki meir, að þau komu frá veruleikanum. Hvað sem þessi dýr kunna að vera hér, ljón eða úlfur, göltur, ormur eða mýfluga — það hið sama verða þau aftur og aftur."

„Allt, sem lifir á rætur sínar í veruleikanum, hinum innri veruleika. Hann er sjálfið, og einnig þú, Svetaketu, ert hann."

„Herra, seg mér fleira," sagði sonurinn.

„Sem þú vilt, barn mitt," svaraði faðirinn. „Ef einhver hyggi að rót þessa trés þarna, mundi trénu blæða,

en þó lifa. Ef hann hyggi að krónu þess, mundi því blæða, en þó lifa. Ef hann hyggi að stofni þess, myndi því blæða, en þó lifa. Vegna hins lifandi sjálfs, sem í því býr, stendur það stöðugt, drekkur næringu og fagnar tilveru sinni.

Ef hið lifandi sjálf yfirgefur eina grein þess, visnar hún. Ef það yfirgefur aðra grein visnar hún einnig, og ef það yfirgefur hina þriðju grein visnar sú gr ein á sama hátt. Ef það yfirgefur allt tréð — visnar það allt."

„Nákvæmlega á sama hátt, sonur minn, skaltu leggja þér þetta á hjarta." — Og faðirinn hélt áfram: „Þessi líkami visnar og deyr, þegar hið lifandi sjálf hefur yfirgefið hann. Hið lifandi sjálf deyr aldrei. — Allt, sem lifir, á rætur sínar í veruleikanum, hinum innri veruleika. Hann er sjálfið, — og einnig þú, Svetaketu, ert hann."

„Herra, seg mér fleira," sagði sonurinn.

„Svo skal vera, barn mitt," svaraði faðirinn. „Færðu mér aldin þessa nyagrodha-trés barna."

„Það er hér, herra."

„Kljúfðu það."

„Það er klofið, herra."

„Hvað sér þú þar?"

„Ekkert, herra."

Þá sagði faðirinn: „Þessi ósýnilegi kjarni, sem þú getur ekki greint, er sjálfur kjarni hins mikla nyagrodhatrés, sem það er sprottið af."

„Trú þú mér sonur minn. — Allt, sem lifir, á rætur

sínar í veruleikanum, hinum innri veruleika. Hann er sjálfið, — og einnig þú, Svetaketu, ert hann."

„Herra, seg mér ennþá fleira," sagði sonurinn.

„Sem þú vilt, barn mitt," svaraði faðirinn.

„Settu þetta salt í vatnskerið þarna, og bíddu mín hér á morgun."

Næsta dag sagði faðirinn: „Færðu mér saltið, sem þú settir í vatnið í gær."

Sonurinn fann það auðvitað ekki, því að saltið hafði samlagazt vatninu.

Faðirinn sagði þá:

„Hvaða bragð er af þessu vatni á yfirborðinu?"

„Það er salt," sagði sonurinn.

„Hvaða bragð er af því í miðju þess?"

„Það er salt," sagði sonurinn.

„Hvaða bragð er af því við botninn?"

„Það er salt," sagði sonurinn.

„Helltu því niður," sagði faðirinn, „og bíddu mín hér á morgun.

Hann gerði svo og fann þar þá aftur saltið, sem hann hafði sett í vatnið, því að salti verður ekki eytt. — Og faðirinn mælti: „Ekki heldur hér í þessum líkama skynjar þú andann, sonur minn, en hann er þar þó, því að allt, sem lifir, á rætur sínar í veruleikanum, hinum innri veruleika. Hann er sjálfið, — einnig þú, Svetaketu, ert hann."

„Herra, seg mér fleira," sagði sonurinn.

„Svo skal vera, barn mitt," sagði faðirinn.

## BORG GUÐS

Hari, om. — Þetta er borg guðs (líkaminn) og í henni er kóngshöllin (hjartað). Og í höllinni er hinn hvíti lótus (hin æðri vitund) og á lótusblóminu er perla ljóssins (Atman). Hennar skulum við leita — og reyna að skilja hana. Og ef einhver skyldi spyrja: „Hver er þessi borg? Hver er þessi höll? Hvað er lótus hjartans og perla ljóssins, sem við eigum að leita að og skilja?“ — Þá svörum vér: „Í perlu ljóssins í hjarta þér rúmast allir heimar. Í henni hvíla bæði himinn og jörð, bæði eldurinn og loftið, bæði sólin og máninn, bæði eldingin og stjörnurnar.“ — Og ef einhver skyldi spyrja: „Ef öll tilveran er í þessari borg, hvað verður þá eftir, þegar elli og dauði fara herför til borgarinnar og brjóta hana niður?“ — þá svörum vér: „Þótt líkaminn hrörni, verður perla ljóssins ekki gömul. Líkaminn deyr — ekki perlan. Hún er hin sanna borgg uðs. Hún er sjálfið, laust við elli og dauða, laust við sorgir, hungur og þorsta, þráir aðeins hið góða, þekkir aðeins hið sanna. Allur veraldarauður, sem menn afla sér á jörðinni, hverfur. Einnig það, semm enn hafa lagt í sjóð framtíðarhamingju sinnar með fórnum og góðum verkum á jörðinni, eyðist að lokum.

Þeir, sem hverfa frá þessum heimi án þess að hafa uppgötvað sjálfið — hið sanna líf, — fyrir þá er ekki til neitt frelsi í nokkrum heimi. En þeir, sem hverfa héðan eftir að hafa uppgötvað sjálfið — hið sanna líf — þeirra bíður frelsi í öllum veröldum.

# KENNINGIN UM FORTILVERU OG ENDURHOLDGUN

Hvað bíður okkar handan grafar og dauða? Er það eilíf myrk nótt gleymskunnar eða önnur og ný tilvera? Hver er sá, sem ekki hefur spurt þessarar spurningar og leitazt við að svara henni?

Öll trúarbrögð kenna, að við lifum eftir dauðann. Kristnir menn trúa á annað líf vegna heilagrar ritningar. Ekki svo að skilja, að öllum höfundum hennar beri saman um þetta atriði. — Sá spaki Salómon segir t. d.: „Haltu leiðar þinnar, et glaður brauð þitt og drekk vín þitt með glöðu hjarta . . .því það er ekkert starf, né hugsun, né þekking né vizka í gröfinni, sem bíður þín.“ — Prédikarinn tekur í sama streng og kveðst heldur vilja vera lifandi hundur en dautt ljón!

Fyrst eftir5 36 fyrir Krists burð, þegar Ísrael var hernumið af Persum, komust Gyðingar í kynni við þjóð, sem þróað hafði með sér trúna á upprisu eftir dauðann, á laun og refsingu annars heims og dóm á efsta degi.

Viss hópur manna meðal Gyðinga tileinkaði sér þessar hugmyndir Persanna, aðrir voru þeim mótfallnir.

Saddúkear t. d., sem fylgdu hinum gamla gyðinglega rétttrúnaði, trúðu ekki á hina persnesku kenningu um upprisuna.

Fylgjendur Zorostra í Persíu trúa því, að sál hins látna yfirgefi líkamann að þrem nóttum liðnum og hverfi til annars heims um óttubil hinnar þriðju náttar. Réttlátir fara til himnaríkis, ranglátir niður á við. Þar bíða hinir ranglátu til dómsdags. Á þeim degi er Ahriman (óvinur sálnanna) veginn og sálir hinna ranglátu eru hreinsaðar af syndum sínum og beint á veg eilífs þroska.

Þetta er hin persneska kenning. Því er að vísu ekki trúað, að um upprisu holdsins geti verið að ræða, en andinn eða sálin er sögð lifa áfram. Ahura Mazda biður menn að meðtaka þetta sem trú, því að ekki sé hægt að gefa mönnum neina sönnun fyrir þessu, og fyrirbrigðið er heldur ekki útskýrt — aðeins kallað kraftaverk.

Kristnir menn nú á dögum kenna, að okkar bíði eilíft líf eftir dauðann. Hins vegar halda þeir því fram flestir hverjir, að fæðing mannsins á jörðinni sé upphaf tilveru hans — að sálin sé jafngömul líkamanum og sköpuð á sama tíma.

Indverjum þykir sú hugmynd heldur óheimspekileg. Ef sálin ætti sér upphaf, hlyti hún líka að eiga sér endi að þeirra dómi. Ef sálin er sköpuð með líkamanum, hví skyldi hún þá ekki deyja með honum einnig? Þeir geta ekki fallizt á, að sálin geti skyndilega orðið til úr

engu. Hvorki efni eða andi verður skapað úr engu. Ef maðurinn eða sál hans er eilíf, hvernig getur hún þá átt takmörk í tíma? Hið raunverulega getur ekki byrjað að vera til, því að þá er það ekki eilíft.

Indverjar halda fram, að sál mannsins sé ódauðleg og eigi því ekki takmark í tíma, byrji ekki að vera til og líði ekki undir lok.

Í annan stað eru Indverjar mótfallnir þeirri hugmynd, að maðurinn fari eftir andlátið annað hvort til himnaríkis eða heljar og dveljist þar um alla eilífð. Náttúran getur ekki staðið kyrr, segja þeir. Kyrrstaða er sama og dauði. Líf er til vegna þess, að allt í tilverunni er á hreyfingu. Manninum er því ómögulegt að dveljast alla eilífð á einhverjum ákveðnum stað. Lífið verður alltaf að yngja sig upp og aðferð þess er fæðing og dauði.

Endurfæðingarkenningin (reinkarnation) verður því niðurstaða Indverjans.

Plato, hinn gríski heimspekingur, þekkti vel þessa kenningu og vísar til hennar, þegar hann segir: „Sálin er eldri en líkaminn. Ótal sinnum fæðist sálin inn í þennan heim.“

En kenning Platos er þó ekki sama og hin indverska kenning. Plato trúði því, að menn gætu fæðzt í ótal gervum manna og dýra. Sú kenning hefur verið nefnd kenningin um sálnaflakk (transmigration). Þessum tveim kenningum er venjulega ruglað saman, eins ólíkar og þær þó eru. Kenningin um sálnaflakk var þekkt

um öll lönd hins gamla heims og þó bezt í Grikklandi og á Egyptalandi. Í bók sinni Phædrus lýsir Plato hvernig sálin fæðist aftur og aftur til jarðarinnar, ýmist sem maður eða dýr:

Seifur faðir guða og manna og dýra ekur vængjuðum vagni sínum um himininn og fylgist með öllum hlutum á himni og jörð. — Fylking guða og sálna fylgir honum og hver þeirra vinnur sitt ætlunarverk. — Eftir hringför sína um jörðina heldur fylkingin á bratta himinhvelfingarinnar til hinnar dýrðlegu veizlu, sem henni er búin á himnum.

Hervagnar guðanna fljúga léttilega upp himinbogann. Aðrir fylgja með erfiðismunum, því að fákurinn, sem vagninn dregur, er viðsjáll gripur, og ef sá, sem á taumunum heldur, handleikur þá ekki öruggri og styrkri hendi, rennur hann niður til jarðarinnar aftur, þar sem sálin tekur á sig klafa þrælkunarinnar.

Sálir guðanna ná tindinum, stíga niður úr vögnum sínum og ganga til fullsælu hins æðsta himins. — Slíkt er líf guðanna. Þeir, sem bezt fylgja, komast aðeins nógu langt til að skyggnast inn í eilífðina og sjá þar í sjónhendingu leiftur hins æðsta sannleika. Síðan setjast þær að á hinum lægri himnum. Hinar sálirnar, sem þrá hinn æðri heim, en skortir þrótt til að fylgja vögnum guðanna, hrapa niður í djúpin, þær brjótast þar um og troða hver á annarri. Margar brjóta vængi sína og örmagnast. Þegar sálin er þannig orðin ófær um að sjá hina háu sýn eilífðarinnar, reikar hún um í myrkri

gleymsku og spillingar. Sálin missir vængi sína og hrapar til jarðarinnar og þar fæðist hún mörgum sinnum í gervi manns eða dýrs. Tíu þúsund ár hljóta að líða áður en sálin fær snúið aftur til ættlands síns, því að á skemmri tíma vaxa sálinni ekki vængir.

Þannig kennir Plato í bók sinni Phædrus. Pyþagoras hafði svipaðar skoðanir. Hann kenndi, að sálin færi fyrst eftir andlátið til dánarheima, en sneri síðan aftur til jarðarinnar og fæddist þar aftur sem maður eða dýr. Fyrst eftir að sálin er orðin algjörlega flekklaus, hverfur hún aftur til hinnar eilífu uppsprettu sinnar.

Forn-Egyptar álitu, að sálin eftir viðskilnað sinn við líkamann færi úr einu gervi í annað um þúsundir ára til þess að afla sér reynslu og þekkingar á öllum sviðum lífsins. Herodotus segir: „Egyptar halda fram þeirri kenningu, að sálin sé ódauðleg. Þegar líkaminn deyr, hverfur hún í annað gervi, sem henni er búið."

En þessar hugmyndir um sálnaflakk eru ekki hin indverska kenning um endurfæðingu. Helztu heimspekingar Indlands halda fram, að kenningin um sálnaflakk hafi aldrei verið kennd í indverskri heimspeki. Jafnvel þegar á stöku stað í Vedabókum er talað um, að menn endurfæðist sem hundar, kettir, slöngur, fílar eða ljón, beri ekki að skilja það í bókstaflegri merkingu, heldur séu þessi orð notuð sem líkingar til að lýsa mismunandi manneðli. Stundum virðist að vísu sem manninum miði aftur á bak eitthvert ákveðið tíma-

bil og hann getur jafnvel orðið að siðlausum villimanni, en aldrei endurfæðzt sem dýr.

Kenningin um fortilveru sálarinnar og endurfæðingu hennar til jarðarinnar er sameiginleg allri indverskri heimspeki og trúarbrögðum, og þaðan hefur hún borizt um lönd og álfur.

Alexander mikli tileinkaði sér hana í austurför sinni. Eftir það varð hún Persum vel kunn. Gyðingar kynntust henni m. a. vegna persneskra áhrifa og vistar sinnar í Babýlon. Grikkjum barst hún eftir sömu leiðum. Philo, heimspekingur frá Alexandríu, prédikaði um fortilveru og endurfæðingu meðal Gyðinga á dögum Krists. Annars var Gyðingum hún vel kunn áður. Jóhannes skírari er m. a. sagður vera Elíjah endurborinn. Í Talmúd er sál Abels sögð hafa endurfæðzt sem Sath og síðar sem Moses. Kristur sjálfur talar einnig um fortilveru sína, áður en hann var sendur til jarðarinnar sem sjálfsagðan hlut.

Það er því sízt að undra, þó kristnir menn á fyrstu og beztu öldum kristninnar tryðu einnig á þessa kenningu um endurfæðingu. Origen og aðrir kirkjufeður trúðu henni einnig og breiddu hana út um allan hinn vestræna og kristna heim.

En Justinian trúði henni ekki og sjónarmið hans urðu lög trúarinnar. Á ráðstefnu, sem haldin var í Konstantinopel 538 eftir Krists burð, lét Justinian semja sérstök lög, þar sem svo var fyrirmælt, að hver

sem aðhylltist eða boðaði þessa kenningu, skyldi kallaður trúvillingur og bannfærast. Margir voru síðan pyntaðir og af lífi teknir af þessum sökum.

Eftir þessar aðfarir vissi næstum allur hinn kristni heimur, að kenningin um fortilveru sálarinnar og endurholdgun var villa ein. Þrátt fyrir þetta aðhyllist þó meiri hluti mannkynsins þessa kenningu. Jafnvel á Vesturlöndum á hún sína fulltrúa. Heimspekingar eins og Kant, Schopenhauer, Lessing, Leibnitz, Fichte og jafnvel David Hume veita henni stuðning. Sömuleiðis vísindamenn eins og Huxley og Flammarion og skáld eins og Emerson, Walt Whitman, Tennyson og Goethe.

En eins og áður er sagt, þó ýmsir góðir menn á Vesturlöndum séu kenningunni hlynntir, eru miklu fleiri þar henni mótsnúnir. Og þeir hafa sín rök fram að færa. Margir eru þeirrar skoðunar, að tilvera mannsins hljóti einhvers staðar að hafa byrjað og spyrja: Hvar og hvenær var hin fyrsta fæðing? Síðan glíma þeir við gátuna gömlu um, hvort fyrr hafi verið skapað eggið eða hænan! — Kom efnið fyrst og skapaðist andinn síðan vegna vissra eiginleika þess? Eða varð andinn fyrst til og kom hann síðan til jarðarinnar?

En þessar spurningar eru rangar vegna þess, að spyrjandinn slær því föstu án þess að sanna það, að efnið eða andinn hafi orðið til — eða að til sé algjört (absolut) upphaf nokkurs hlutar. Að áliti Indverja getur hvorki efni né andi byrjað að vera til. Það er eilíft. Sál

manna, sem hlýtur alltaf að vera í tengslum við einhverja tegund af efni eða orku, sem er eitt og hið sama fyrirbrigði, á sér heldur ekkert upphaf. Ef hún ætti sér upphaf, væri hún ekki raunveruleg, því að þá væri hún ekki eilíf. Það, sem byrjar og endar, kemur og fer, svo aðeins hið eilífa er raunverulegt í þeim skilningi. Við segjum, að guð sé eilífur. Hann er hin mikla sól alverunnar. Geislar þessarar sólar eru tilveran. Sál mannsins er einn þessara geisla. Ef þessi sól er eilíf, hljóta geislar hennar líka að vera eilífir, því að sólin er sól vegna geisla sinna.

Til eru aðrir menn, sem segja, að kenningin um fortilveru hljóti að vera röng, því að ef við hefðum lifað í fyrri tilverum mundum við muna eitthvert brot þeirra. Þessi gagnrýni virðist hafa nokkuð til síns máls, því að hvað kemur okkur við fortilvera, sem er eilíflega gleymd og grafin? Ef við munum hana ekki, sannar það, að samhengi einstaklingsvitundarinnar er rofið og að rjúfa það jafngildir dauða. „Því fer fjarri," svara hinir gömlu lærifeður. — Í fyrsta lagi halda eiginleikar einstaklingsins, tilhneigingar hans og þroski áfram í rökréttu samhengi og framhaldi af hinni gleymdu fortilveru, líkt og maður, sem missir minni sitt, skiptir ekki um persónuleika. Í öðru lagi, segja hinir gömlu lærifeður, höfum við alls ekki gleymt fortilveru okkar, heldur munum við hana!

Næstum allt minni okkar frá liðnum dögum í þessu lífi er dulvitað minni. Minningin frá fyrri tilveru er á

sama hátt ekki glötuð, heldur dulvituð. Viss hluti vitundarinnar man. Þegar vissu stigi í þroska mannsins er náð, verður hann sér meðvitandi um fortíð sína. Raja-Yoga kennir mönnum, hvernig þeir geta jafnvel í þessu lífi endurheimt minni sitt og sannreynt sjálfir þessa kenningu.

Þriðja og algengasta mótbáran gegn þessari kenningu er þó það, sem nútímavísindi hafa að segja um erfðir. Ef við erfum eiginleika foreldra okkar og forfeðra, hvernig getum við þá fæðzt inn í þennan heim og samt haft persónuleika í beinu og rökréttu framhaldi af fortilveru okkar? — Þetta er skýrt á þann veg, að einstaklingurinn dragist að öllu því, sem honum er skyldast.

Erfðafræðin kennir, að menn erfi ekki aðeins eiginleika foreldra sinna, heldur sé hægt að erfa alla eiginleika alls kynstofnsins. Hún kennir, að hending ein ráði, hvernig erfðir tengjast í einstökum atriðum.

Í indverskri heimspeki eru tilviljanir ekki viðurkenndar. Allir hlutir hljóta að eiga sér orsök, jafnvel þó sú orsök sé vísindunum ekki kunn! — Þar er því haldið fram, að þessi tengsl gerist í samræmi við persónuleika og karma hins óborna. Vísindamenn, sem kynnt hafa sér þessa kenningu um fortilveru og endurholdgun og hafa einnig náin kynni af því, sem nútímavísindi hafa að segja um erfðir, munu því hika við að fullyrða, að þessar tvær kenningar séu í andstöðu hvor við aðra. Huxley, einn þekktasti vísindamaður þessar-

ar aldar, segir m. a. í riti sínu *Evolution and Ethics* (Þróun og siðfræði): „Engir aðrir en grunnfærir menn munu neita henni (kenningunni um fortilveru sálarinnar og endurfæðingu) sem fjarstæðu á grundvelli erfðafræðinnar. Eins og kenningin um sjálfa framþróunina á hún rætur sínar í heimi veruleikans.“

En ef indverskum djúphyggjumönnum hefur í raun og veru tekizt að komast að þessum hlutum með innsæi sínu, hljótum við að gera þær kröfur til þeirra, að þeir geti sagt okkur, hvað það er, sem raunverulega gerist, þegar maður deyr. Um hvaða veraldir leggur maðurinn þá för sína? Hver er tilgangur þeirrar farar? — Við þessum spurningum er þar einnig að finna greið svör, þótt það kunni að koma okkur að óvörum.

Hugsum okkur mann, sem liggur í rúmi sínu og er að yfirgefa þennan heim. Líkamsstarfsemin hættir smám saman, hin ytri skynfæri sljóvgast og hugarstarfsemin tekur kynlegum breytingum. Á þessum síðustu augnablikum kemur venjulega liðin ævi upp í huga mannsins. Hver myndin rekur aðra. Margt, sem áður virtist án tilgangs, skynjar maðurinn í nýju ljósi. Margt, sem áður var gáta, er nú leyst. Ósjálfrátt gerir maðurinn upp ævi sína á þessum miklu vegamótum, og tilgangur þessa lífs hans verður honum ljós. Af þessum orsökum eru menn beðnir að vera hljóðir í návist deyjandi manns og lofa honum að fara í friði, svo að sál hans geti unnið sem bezt úr þeim boðskap, sem liðin ævi hefur að flytja henni.

Hinum deyjandi manni virðist hann byrja að síga niður, falla lengra og lengra niður í eitthvert hyldýpi. Dauðinn nálgast hann.

Skyndilega verður hann var við, að hann liggur í lárettu ástandi í loftinu upp yfir sínum eigin líkama, sem í rúminu liggur. Þetta ástand hans vekur hjá honum undrun. Hvað hefur gerzt? Hvernig má það vera, að hann liggur þarna niðri í rúminu og er þó á sama tíma hér í öðrum líkama? Hann veit, að þetta er ekki draumur, því að vitund hans er skýr eins og í vöku, jafnvel skýrari en nokkru sinni fyrr. — Hann veitir athygli, að milli hinna tveggja líkama, þess sem í rúminu liggur og þess, sem hann skynjar nú sem „ég sjálfur“, liggur mjór silfurgrár strengur, sem tengir þá saman. Fyrst þegar þessi þráður slitnar, er maðurinn örendur. Hvaða skýring er gefin á þessu fyrirbrigði?

Í indverskri heimspeki er því haldið fram, að maðurinn hafi ekki einn, heldur þrjá líkama, sem fléttast hver inn í annan og liggja allir í sama rúmtaki. — Hugmyndin virðist okkur hreinasta fjarstæða. Hvernig er hægt að hafa þrjá líkama, sem eru allir úr efni í einum? Í augum nútíma vísindamanns, sem þekkir efnafræði nægilega vel, er þetta þó ekki svo fjarstæðukennt. — Hvað er efni? — Til skamms tíma var okkur kennt, að til væri eitthvað, sem kallað var „smæsta efnisögn“. — Okkur var kennt, að það væri hinn fasti grundvöllur efnisins. Sagt var, að efnið væri byggt upp af mólekúlum og mólekúlin úr atómum, atómið aftur úr elektr-

ónum, prótónum og nevtrónum. En langmestur hluti þessa atóms var þó viðurkennt, að væri tóm, þannig að hið „hreina efni“ þess var hverfandi lítið brot af rúmtaki atómsins. Svo lítið, sögðu vísindin, að þetta „hreina efni“ væri, að ef hægt væri að taka allt hið „hreina efni“ líkamans saman í eitt þannig, að hvergi væri tóm eða „loft“ á milli, mundi vera hægt að setja þetta efni í lófa manns og þar yrði það aðeins séð með smásjá.

En jafnvel þessa litlu ögn, sem hér er eftir af hreinu efni, hafa vísindi síðustu ára ekki látið í friði. — Því hefur verið breytt í orku, og orkunni er aftur hægt að breyta í efni. Þetta þýðir, að vísindi síðustu ára eru farin að viðurkenna hina ævafornu indversku kenningu um, að efni og orka sé sama fyrirbrigði.

Af þessu má sjá, að efnisins vegna er ekkert því til fyrirstöðu, að þrír líkamar geti rúmazt í því rúmtaki, sem takmarkast af útlínum líkamans. Ekki svo að skilja, að hinir tveir innri líkamar verði rannsakaðir efnafræðilega enn sem komið er a. m. k. Ástæðan til þess er sú, að þeir eru úr annarri og fíngerðari tegund af efni en „okkar efnisheimur“ og óskynjanlegir flestum mönnum á sama hátt og þessi efnisheimur, en skynjaðir sem skuggi og jafnvel tóm frá astralheimum og hinum hærri veröldum.

Kennt er, að för mannsins liggi um þrjár veraldir: *Efnisheima* eða jörðina, *geðheima* og *ljósheima*. Þessa flokkaskiptingu má þó ekki taka of bókstaflega, þar

sem í veruleikanum er um fjölda mörg og ólík tilverustig að ræða, bæði í astralheimum og æðri heimum sumum, sem liggja langt ofar mannlegri þróun. En þessi skipting er hagkvæm til að átta sig á höfuðatriðum þessa boðskapar og er henni því haldið hér.

Þessir þrír líkamar mannsins hvíla allir (í jarðvist manna) í sama rúmtaki líkt og ljósgeislar, hitageislar og rafurmagn geta fyllt hið sama herbergi. Efni þessara þriggja líkama svarar nákvæmlega til þess efnis, sem þessir þrír heimar, sem getið hefur verið um, eru myndaðir úr. Efnislíkaminn er gerður úr sömu tegund af efni og þessi jörð okkar eða „efnisheimurinn", geðlíkaminn úr sömu tegund af efni og geðheimar, ljóslíkaminn úr sömu tegund af efni og ljósheimar.

Og nú getum við aftur horfið til hins deyjandi manns og skilið, á hverju þessi reynsla hans byggist.

Þráðurinn hefur slitnað og líkamarnir tveir (sem maðurinn skynjar enn aðeins sem einn, eins og hann gerði á jörðinni, meðan þeir voru þrír) og allir hinir æðri eðlisþættir mannsins hafa skilið við líkamann. Hann er örendur, og borinn til grafar. Þó getur jafnvel líkaminn ekki dáið, því að dauði er hvergi til. Frumur hins örenda líkama sundrast og hver þeirra fer með sinn hlut af prönu hans eða lífsorku. Þessa orku flytja þær með sér út í náttúruna og taka með henni þátt í lífi annars líkama, manns, dýrs eða jurtar. En þessi líkami er manninum að sjálfsögðu eilíflega glataður.

Maðurinn er nú kominn til astralheima eða geð-

heima. Hann er nú í astrallíkama sínum. En sá líkami er líka dauðlegur. Eftir að maðurinn hefur dvalizt um stund í hinu nýja umhverfi, sækir að honum svefn og hann „deyr“ öðru sinni. Sá dauði gerist á sama hátt og sá fyrri, að astrallíkaminn losnar úr sambandi við hina æðri eðlishætti mannsins. Lík þessa líkama er stundum kallað astralskel. Vegna hins nána sambands, sem var milli líkamanna tveggja, dregst þetta lík til hins fyrra. Skyggnir menn sjá því venjulega mikið af þessum fyrirbrigðum í kirkjugörðum og öðrum grafreitum. Fáfróðir menn hafa haldið að þessi astralskel væri sál hins framliðna. Hún er aðeins lík án vitundar og sálar — sem þó getur enn verið á reiki nokkra stund vegna prönu sinnar. Að „vekja upp draug“ eða „senda sendingu“ er að sögn í því fólgið að leiða vissa orkustrauma (prönu) inn í hina viljalausu og vitundarlausu astralskel og magna hana þannig og gefa henni ákveðinn vilja, sem skapaður er af sterkri utanaðkomandi hugsun, til að framkvæma það verk, sem gjörningamaðurinn ætlar henni. Mörg fyrirbrigði svarta galdurs eru skýrð með þessu.

Meðan á þessum svefni eða draumamóki mannsins stendur á astralsviðinu, losar hann sig við fleira en astrallíkamann. Hann losar sig um leið við hina lægri eðlisþætti að svo miklu leyti sem hann getur eða vill.

Vanþroskaðar sálir liggja stutt í þessum dvala, því að þær hafa fátt af sér að fella. Að skilja við astralskelina eina tekur lítinn tíma. Þroskaðar sálir liggja oft

lengi í þessum dvala áður en þær vakna aftur, vegna þess að meðan á þessum dvala stendur skilja þær við alla hina lægri eðlisþætti og birtast síðan í nýju gervi, þar sem hið innra ljóseðli þeirra er ríkjandi.

Vegna þessa dvala sálarinnar, sem tekur við venjulega stutt eftir andlátið, er brýnt fyrir mönnum að „gefa dauðum ró". Sterkar hugsanir geta vakið manninn upp af dvala sínum áður en umskiptin hafa að fullu farið fram. Hann heldur niður til jarðarinnar til að svara kalli hennar án þess þó að vera til fulls vaknaður til hins nýja lífs. Á þennan hátt tefst hann í þróun sinni og þolir oft óþarfar þjáningar. Þessir menn eru algengir á miðilsfundum og eru þá stundum eins og milli vita.

Aðrir menn, sem eiga oft erfitt með að átta sig á hinum nýja heimi, eru þeir sem farast skyndilega af slysförum. Fyrir þeim er allt svo líkt, að þeir sjá og heyra allt eins og það er á jörðinni og geta ekki áttað sig á, hvernig komið sé. Vegna þessara manna eru starfandi hjálparsveitir, sem annast hvern mann, sem á hjálp þarf að halda, — og smám saman er þessum mönnum „komið í ró", svo að hinn síðari viðskilnaður geti farið fram.

Eftir að maðurinn vaknar upp af svefni sínum eða draumum, er hann ekki eins og allur þorri manna virðist gera sér í hugarlund „andi" eða „sál", — eitthvert þokukennt efnisvana fyrirbrigði utan og ofan við alla hlutlæga tilveru. Hann skynjar þvert á móti hinn nýja

líkama sinn alveg jafn „þéttan“ og hann gerði á jörðinni. Hinn nýi líkami er á sama þéttleikastigi og hið nýja umhverfi. Þess vegna er honum allt jafn „raunverulegt“ og „áþreifanlegt“ og það var á jörðinni. Jörðina aftur á móti skynjar hann sem skuggaveröld byggða lifandi líkum.

Verk manna í fyrri jarðvist, tilhneigingar og þrár þeirra í lífinu, verða hér segulaflið, sem dregur þá til þeirra nýju heimkynna. Hver maður dregst að þeim hlutum og því umhverfi, sem honum er skyldast, og hann hverfur til þeirra sviða, sem eru í beztu samræmi við þroska hans.

Skáldið Rabindra Nath Tagore kemst einhvers staðar svo að orði, að för manna um veröldina sé líkt og sjóferð, þar sem allir ferðast á sama skipi, en þegar í höfn er komið fer hver til síns heima. Eins og fiskurinn getur ekki yfirgefið sjóinn og gengið á land, og eins og landdýrið getur ekki flogið um himininn, eins kemst enginn maður ofar en eðli hans leyfir.

Þeir, sem ekki klæðast úr hinum lægri eðlisþáttum, eru enn hér á valdi lágra hvata og gista svið, sem eru nátengd jörðinni og liggja henni jafnvel neðar. Þeir reyna enn hér að uppfylla allar langanir Kama Rupa, dýrsálarinnar. Þeir taka sáralitlum framförum og fæðast jafnan skjótt til jarðarinnar aftur, því að hún hefur sterkast aðdráttarafl á þessar sálir.

Aðrir hópar manna lifa á hærri sviðum, í himnaríkjum, þar sem góðvild og hamingja ræður ríkjum og ósk-

ir og draumar manna verða að veruleika. Þangað sækja þeir aukinn þroska og byggja þar upp listræna hæfileika á ýmsum sviðum.

Ofar þessum stigum eru önnur, „ljósheimar", þar sem sagt er, að hinir stærstu andar mannkynsins búi. Þar er vitundin líkari heimsvitund en vitund manna á jörðinni. Fortíð og framtíð eru skynjaðar eins og nútíðin og markmið og leiðir liggja ljóst fyrir.

Þessir menn eru þarna lengi, oft öldum eða jafnvel áraþúsundum saman áður en þeir endurfæðast. En einnig þeir fá loks löngun til að hverfa til jarðarinnar og framkvæma þar ákveðin verk í þágu framvindunnar.

Á sama hátt og maðurinn hélt upp („upp" og „niður" er hér að sjálfsögðu notað í táknrænni merkingu) verður hann aftur að fara niður hinar þrjár veraldir. Á þeirri leið tekur hann í sig aftur þá eðlisþætti og þá líkama, sem svara til þessara veralda. „Dauðinn" niður á við er kölluð fæðing. Þannig haldast fæðing og dauði alls staðar í hendur. Það getur ekkert dáið án þess að það fæðist um leið. Sú hlið, sem snýr að þeim heimi, sem maðurinn kveður, kallast dauði, sú hlið, sem snýr að þeim heimi, sem hann kemur til, nefnist fæðing.

Með fæðingu sinni til jarðarinnar tekur maðurinn aftur á sig þriðja líkamann, efnislíkamann, sem síðan eyðist í dauðanum og maðurinn heldur á ný upp til geðheima. Þannig heldur hringferð mannsins áfram um aldaraðir.

Á sama hátt og maðurinn hefur þrjá líkama, hefur

hann þrjár vitundir, sem svara nákvæmlega til hinna þriggja líkama og hinna þriggja heima. Skynfæri, taugakerfi og skynsemi mynda hina jarðnesku vitund mannsins. Þau eru tæki til að skynja þann veruleika, sem ríkir á þessu sviði.

En þar sem hinir æðri heimar eru byggðir upp á öðrum grundvelli, yrði hin jarðneska vitund mannsins blind þar. Þess vegna verða hin æðri vitundarsvið mannsins að koma þar upp á yfirborðið til að skynja hina nýju og ólíku tilveru. Á jörðinni hefur maðurinn einnig hinar tvær æðri vitundir sínar, en þær eru þar dulvitaðar og bíða birtingar sinnar líkt og líkamar hans, þar til komið er til þeirra eigin sviðs.

Þessar vitundir eru aldrei óvirkar, þótt þær séu dulvitaðar, heldur vinna þær hver á sínu sviði og safna reynslu og þekkingu um árþúsundir.

En hefur þessi för tilgang?Okkur er sagt, að markmið hennar sé mannleg fullkomnun. En áður en henni er náð, verður einstaklingurinn að hafa aflað sér fullkominnar þekkingar á öllum fyrirbrigðum mannlífsins. Öll sú reynsla og þekking, sem maðurinn aflar sér, glatast ekki, heldur geymist dulvituð í vitundum hans, og þegar marki hans er náð, verður hún eign hans.

Skóli mannsins er langur og harður. Því hærra takmark, sem manninum er sett, þeim mun erfiðari er ganga hans. Skólinn er langur, harður og strangur vegna hinnar háu köllunar og hins mikla hlutverks, sem mannsins bíður að námi loknu.

# KARMA-HEIMSPEKIN

ÞAÐ ER ÖLLUM KUNNUGT, að hvarvetna í efnisheiminum ríkja lögmál orsaka og afleiðinga, jafnvægis og samræmis. Alda getur ekki risið án þess að hún falli nákvæmlega jafndjúpt niður á við og öldutoppurinn rís upp á við. Alda rís ekki af sjálfu sér. Hún á sér alltaf einhverja orsök, sem vekur hana. Og eftir að aldan er mynduð, hlýtur hún að eiga sér afleiðingar venjulega meiri og lengri en séð verði fyrir endann á.

Sú heimspeki, sem kennir að þessi sömu lögmál orsaka og afleiðinga séu einnig algild í hinum andlega og siðferðilega heimi, er á sanskrít kölluð karma (orðið er dregið af rótinni kri: gera) og merkir orðið bæði verknað og þær afleiðingar sem hann hefur í för með sér.

Kjarni þessarar kenningar er, að öllum hlutum sé stjórnað af föstum algildum lögmálum, sem leyfa engar undantekningar eða tilviljanir.

Samkvæmt henni er því haldið fram, að hvert verk, sem við vinnum, hvert orð sem við segjum og jafnvel hver hugsun, sem um hugskot okkar líður, hljóti að hafa áhrif einhvers staðar til góðs eða ills og eiga sér því

ákveðnar afleiðingar. — Þau verk, orð og hugsanir, sem menn temja sér, verða smám saman að fastri venju.

Það, sem í upphafi var gert vitandi vits, verður mönnum loks dulvitaðar tilhneigingar, sem verða eðli þeirra, og það skapar síðan aðstæður manna og lífshamingju. Öll verk (einnig orð og hugsanir) skilja eftir mörk sín í dulvitund þess, er þau framkvæmir, og hún er raunar sá dómari, sem úthlutar mönnum forlögum þeirra.

Dulvituð sektartilfinning mun þannig t. d. alltaf sjá svo um, að eigandi hennar taki fyrr eða síðar út refsingu sína. Stundum birtist þessi dulda sektartilfinning eins og rödd, sem stöðugt hvíslar að manninum, hvert sinn sem hann nálgast eitthvað, sem hann þráir eða þegar hann langar til að afreka eitthvað, sem hann telur sér mikils virði: „Þetta á ég ekki skilið. Þetta tekst mér aldrei (vegna þess að ég á ekki skilið, að mér takist það).“ — Og honum mistekst, þó að engin ástæða virðist til, að hann nái ekki þessu marki sínu. Hættulegasti óvinur hvers manns, sem þannig er ástatt um, er hann sjálfur. — Öðrum mönnum virðist ganga allt að óskum án sýnilegra yfirburða.

Verk manns, orð og hugsanir eru á þennan hátt fræ, sem hann sáir í sinn eigin akur, og þessi fræ skjóta þar rótum, vaxa og dafna og mynda loks þann gróður, er til var sáð, — hvort sem sá gróður kann að reynast hinn hvíti lótus hamingjunnar, nytjajurtir hins glúrna bónda, eða illgresi, sem kyrkir allan vöxt.

Þannig getur maðurinn ræktað garð sinn að vild sinni. Hann á frjálsan vilja. Vilji hans verður að verkum. Hann er herra hugsana sinna. Endurteknar hugsanir verða að tilhneigingum. Þrár hans og langanir verða að hæfileikum. Reynslan verður að þekkingu. Þjáningin að samvizku.

Hugsun, orð og verk verður alltaf orsök og hefur í för með sér ákveðna afleiðingu, afleiðingu, sem fyrr eða síðar mætir þeim, er verknaðinn framdi.

Þessi kenning er ævaforn. Hana er að finna í meitluðum setningum, sem lifa á hvers manns vörum um allan heim.

Íslenzkur fornmenntabóndi gerir þessari kenningu full skil með hinu gamla máltæki sínu: Hver er sinnar gæfu smiður. New York-búi 20. aldarinnar kynni í þess stað að segja: Pósturinn hringir alltaf tvisvar. En þeir eiga báðir við það sama og hinn austræni trúarspekingur, sem kýs heldur að segja: Eins og maðurinn sáir, svo mun og uppskorið verða.

Enginn reykur er án elds. Allur ófarnaður manna er afleiðing af eigin yfirsjónum. Öll hamingja er ásköpuð með góðum verkum, orðum og hugsunum. Stundum sjáum við þessi orsakatengsl milli yfirsjóna og ófarnaðar annars vegar og góðrar breytni og lífshamingju hins vegar. En venjulega eru þau þó hulin. Þá tölum við um tilviljanir og forlög, heppni eða óheppni. Sú hugmynd, að mönnum séu búin ákveðin forlög af forsjóninni, er andstæð karma-heimspekinni. Forsjónin hefur ekki út-

hlutað einum hamingju og öðrum vansælu. Ef svo væri, ættum við ekkert frelsi, en værum algjörlega leiksoppar utanaðkomandi afla. Við gætum þá ekki heldur borið neina ábyrgð á breytni okkar, því að allt væri þá í hendi forsjónarinnar! — Samkvæmt karma-heimspekinni getum við ekki skellt okkar eigin skuldum á forsjónina eða aðrar manneskjur. Hver er sinnar gæfu smiður. Maðurinn sjálfur er höfundur allra forlaga sinna. Nútíðin er sú smiðja, þar sem maðurinn getur látið slögin falla að vild sinni og mótað sjálfur framtíð sína í þann málm sem fortíð hans fékk honum í hendur. Á sama hátt er nútíðin og þær aðstæður, sem hann á við að búa, eiginleikar hans og gifta skapaðar af honum sjálfum í gleymdri fortíð, og að áliti karmaheimspekinnar jafnvel á mörgum æviskeiðum um aldaraðir.

Líkt og allir hinir meiri háttar fræðarar þessa heims, kennir hún, að líf manna sé eilíft. Það, sem er eilíft, getur ekki byrjað að vera til, því að allt, sem á sér upphaf, á sér um leið takmörk í tíma.

Karma-heimspekin getur því ekki fallizt á, að maðurinn sem eilífðarvera hafi getað byrjað að vera til. Hún viðurkennir ekki einu sinni, að í upphafi hafi guð skapað himin og jörð.

Í fyrsta lagi getur upphaf ekki verið til að hennar dómi, þar sem eðli tímans er að vera eilífur. Og það er óhugsandi að benda á hið algjöra (absoluta) upphaf nokkurs hlutar. Hún lítur á það sem fjarstæðu, að guð hafi skapað alheiminn á einhverjum ákveðnum

tíma, sem kallast „í upphafi“ einfaldlega vegna þess að alheimurinn, allt hið þekkta og hið óþekkta, var ekki skapaður, hvorki af guði né sjálfu sér. Hann er guði jafngamall, hvorki eldri né yngri. Hann hefur alltaf verið til, eilífum breytingum undirorpinn að vísu, — en það verður ekkert til úr engu og ekkert getur orðið að engu. Þess vegna er ekki hægt að tala um algjört (absolut) upphaf né algjöran endi nokkurs hlutar.

Sú vitund, sem er líf og hinn innri veruleiki allrar tilverunnar, er einnig kjarni mannsins. En ef neisti guðdómsins er kjarni hvers manns, hlýtur maðurinn þá ekki að vera guði jafngamall án upphafs og eilífur eins og hann? Hins vegar er gervi mannsins háð endalausum breytingum. Og í þeim skilningi á hann sér bæði upphaf, það er að segja, þegar hann reis frá hinni lægri tilveru til hins mennska gervis og eins mun endir hans koma í þeim skilningi að hann mun hefja sig upp yfir þennan þróunarhring og hætta þá að vera maður, en kjarni hans er þó alltaf hinn sami.. Á þessu er kenningin um fortilveru byggð.

Jaimini Rishi, höfundur Purva Mimansa, skiptir karma í þrjá flokka: *Nisheda karma* eða ill verk, *samkam* eða góð verk og *niskam*, góðverk framkvæmd á fullkominn hátt aðeins vegna þeirra sjálfra án vonar um endurgjald.

Karma er þannig sú grein indverskrar heimspeki, sem öðrum fremur fjallar um rétta breytni.

„En hvað er sannleikur?“ sagði Pílatus forðum, og fleiri en honum hefur reynzt næsta erfitt að finna nokkurn algildan mælikvarða á, hvað sé rétt og hvað sé rangt, hvað sé gott og hvað sé illt. Hafa ekki jafnvel trúarbrögð og heimspeki hin sundurleitustu svör við þessum spurningum?

Höfundar karma-heimspekinnar svara því til, að það sé samvizkan í brjósti manna, sem sé hinn eini leiðarvísir um rétta breytni.

En hverju erum við nær fyrir það svar? Ef til er gott og rétt, verður það að vera algilt. Hið sama í dag og á morgun, gott og rétt bæði við Faxaflóa og á Gullströndinni. Ef raunveruleg samvizka er til, ætti hún að vera hin sama hjá öllum mönnum um allan heim. Og ef hún kennir mönnum, hvað sé rétt og gott, ætti enginn ágreiningur að geta risið í þessum efnum. En er þessu þannig farið? Er samvizka mín og þín nokkuð annað en það, sem við heyrðum fyrir okkur í bernsku og æsku og foreldrar okkar og samfélag lagði okkur á hjarta og kenndi, að væri gott og rétt? Er hyrningarsteinninn að samvizku barns, sem alið er upp í kristnum sið, nokkuð annað en hin tíu boðorð Móse?

Öðru barni, sem alið er upp undir handarjaðri galdraprests inni í myrkviðum Afríku, er innrætt, að hægt sé að öðlast eiginleika látins manns með því að éta lík hans. Það verður því hluti af samvizku þessa barns, að því beri siðferðileg skylda til að éta föður sinn í virðingarskyni. Og það er gert án alls samvizkubits. Ef son-

urinn neitaði þessu, mundi hann hljóta fyrir það fyrirlitningu og ávítur samfélagsins og mundi sennilega þá fá samvizkubit. Samvizku kristinna manna ofbýður þessar aðfarir og telur þær hámark alls siðleysis og rangrar breytni.

Ef samvizkan er hið eina leiðarljós um rétta breytni og ef hugtök eins og gott og rétt eru algild, hvers vegna hafa menn þá mismunandi samvizkur?

Til eru kristnir menn, sem halda því fram, að þeirra samvizka sé hin eina rétta samvizka. Hið sama segja Múhammeðstrúarmenn og fylgjendur Zoroaster t. d.

En getum við verið viss um, að sú samvizka, sem samanstendur af hinum tíu boðorðum Móse, sé hinn fullkomni mælikvarði á breytni manna? Ef til vill eru þau rödd guðs. Aðrir kalla þau aðeins rödd ríkra og eigingjarnra öldunga. Þeir segja, að þau séu samin í nafni trúarinnar til verndar veraldlegum hagsmunum þeirra og girndum. Ef til vill lætur guð sér aðeins annt um gamla menn og ríka, ef til vill lætur hann sér jafn annt um allar manneskjur. En þessi boðorð, sem samin eru af ríkum öldungum, virðist sumum ekki taka mikið tillit til fátæklinga eða ungra manna, né heldur kvenna. Konan er þar, segja þeir, aðeins talin upp meðal þeirra gripa, sem manninum tilheyra, — í sömu andrá og asni hans og aðrar eigur. Ríkur maður og gamall í austurlöndum átti sér og á sér víða enn eins margar konur og hann hefur efni á. — Og þar sem afbrýðisemi og hégómadýrð eru elztu og verstu hvatir manna, virð-

ist ekki fjarri sanni að álíta, að hinum gömlu mönnum hafi fundizt alveg sérstök ástæða til að tryggja með ákveðnu boðorði, að konur þeirra leituðu sér ekki annars manns, sem þó eðlilegt mætti teljast. Þannig varð það ungum mönnum og konum dauðasynd að lifa saman eðlilegu lífi, nema konan væri lögleg eign mannsins. Til verndar öðrum eignum sínum settu öldungarnir, þessi höfuð ættanna sem fjárins gættu, hið sjálfsagða boðorð um, að menn mættu ekki stela, en gleymdu að setja þar nokkur fyrirmæli um, að sá sem tvo kyrtla hefði, gæfi þeim sem engan ætti. — Og sá sem flutti þá kenningu síðar meir, var gerður höfðinu styttri.

Þegar við höfum lokið við að kanna boðorð Móse í þessu ljósi, undrar það okkur ekki lengur, segja þeir, að meistarinn frá Nazaret átti alltaf til vingjarnleg orð handa þeim, sem brotlegir gerðust við lögmálið, en kallaði fulltrúa þess hræsnara og líkti þeim við grafir, hvítkalkaðar hið ytra, en að innan fullar af dauðra manna beinum.

Svo þegar öllu er á botninn hvolft, er það kannski álitamál, hvort hin tíu boðorð Móse séu hin fullkomna samvizka. —

Í Kóraninum, biblíu Múhammeðstrúarmanna, má lesa: „Fylgdu kenningum Múhammeðs. Í því er öll skylda mannsins fólgin.“ — En spámaðurinn leyfir t. d. fjölkvæni og átti sjálfur átján konur. Zoroastra aftur á móti býður okkur að hlýða kenningu Zend Avesta og

boðorðum Ahura Mazda. Að eiga tvær konur er þar t. d. talin synd.

Hvernig getur nú samvizkan verið hinn öruggi leiðarvísir á vegi réttrar breytni? Höfundar karma-heimspekinnar svara öllu þessu og segja, að trúarbrögð, siðalærdómar og lagabálkar þjóðfélagsins séu ekki hin raunverulega samvizka og geti aldrei komið fullkomlega í hennar stað. Þeir kenna, að kjarni mannsins, hin æðri vitund hans, sé sjálfur guðdómurinn. Hann býr því í hverjum manni. En meðan hann er hulinn í myrkri hins lægra eðlis er maðurinn siðferðilega blindur og gervisamvizka svo sem refsingalög ríkisins og utanaðkomandi siðalærdómar geta aldrei orðið hið sanna leiðarljós, heldur aðeins hrævareldur um nótt. — Fyrst þegar maðurinn heyrir rödd hinnar æðri vitundar, þekkir hann full skil á réttu og röngu, góðu og illu. Ef henni er hlýtt, eykst styrkur hennar og manninum miðar fram á við. En þegar henni er ekki hlýtt, verður hún veikari og veikari, unz hún heyrist naumast lengur í háreysti hinna lægri hvata. Og þar sem þær eins og allt annað í náttúrunni leitast við að endurnýja sig og margfaldast, verður maðurinn loks ofurseldur illum hugsunum, orðum og verkum — og geigvænlegum forlögum, sem bíða hans.

Hvatir manna og hugsanir, sem birtast síðan í orðum þeirra og verkum, eru sjaldnast að öllu leyti góðar eða að öllu leyti illar. Þær eru bæði góðar og vondar.

Samt sem áður er mikill stigsmunur á lífsviðhorfi manna og breytni.

Sá, sem að dómi karma-heimspekinnar stendur á lægstu tröppu lífsskilningsins, er sá sem engu ann nema sjálfum sér og kemur næstum hvergi fram til góðs. Hið eðlilega takmark hans eins og allra annarra, er að öðlast lífshamingju. Hann lítur svo á, að hennar verði aflað með því að hrifsa til sín sem mest af veraldlegum gæðum. Fjársöfnun er venjulega höfuðeintak lífs hans, og hann hirðir aldrei um, hvaðan né á hvern hátt fjárins er aflað, né hverra þjáninga framferði hans kann að valda. Með fé sínu reynir hann að kaupa sér lífshamingju. Og ef hann skyldi vakna upp um miðja nótt og fyllast kynlegum ótta við það, sem kann að bíða hans í dauðanum og að baki hans, — ef það er þá nokkuð; fer hann e. t. v. daginn eftir á fund einhvers guðsmannsins og reynir á sama hátt að kaupa sér aðgöngumiða að hinum gullnu hliðum paradísar með því að gefa fé til kirkju hans og safnaðar.

Lífið er honum að vísu innantómt en ekki beint óþægilegt. Rödd samvizkunnar ónáðar hann ekki lengur. Sjálfur Jaimini Rishi mundi að líkindum ekki geta kennt honum neitt. — Árangurslaust mundi hann biðja hann að semja skrá yfir sínar skaðlegu venjur og reyna síðan að sigrast á þeim einni af annarri. Hann mundi brýna fyrir honum að nota hvern dag til einhverra góðra og nytsamlegra athafna. (Orð og hugsanir eru einnig taldar athafnir samkvæmt karma-heimspek-

inni.) Á þann hátt gæti hann hindrað illar hugsanir í að ná tökum á sér. Hann mundi ráðleggja honum að umgangast aðeins sér betri menn, og loks gæti hann sagt honum fyrir hin myrku forlög hans sem hann sjálfur skapar sér með framferði sínu. — En árangurslaust. Lífsvenjur hans eru honum of sterkar og hann hefur engan innri leiðarvísir meir um hvernig hann geti lifað í sátt og í samræmi við hin óskráðu lög allrar tilveru. Hann brýtur þau og heldur áfram að brjóta þau og valda umhverfi sínu þjáningar.

En þar sem getu heimsfræðarans þrýtur, tekur lífið sjálft við. Hinn skilningsdaufi og vanþroskaði maður brýtur lögmál lífshamingjunnar vegna fáfræði sinnar og skammsýni. Afleiðing þessara afbrota hlýtur samkvæmt þessum fræðum að hitta hann sjálfan fyrr eða síðar og valda honum hinnar sömu þjáningar og hann olli öðrum. En þessar þjáningar, sem óhjákvæmilega bíða hans, eru ekki refsingar reiðrar forsjónar, heldur eitt af töfrabrögðum framþróunarinnar. Aðeins vegna þessara þjáninga er honum unnt að læra hið fyrsta stafróf þess lífsskilnings, sem er lykillinn að dyrum hamingjunnar. En Róm var ekki reist á einum degi. Jafnvel eftir aldaraðir kemst hann hægt og hægt upp á næsta stig hinnar miklu leitar að hamingjunni.

Þjáningarnar hafa kennt honum að hafa samúð með þeim, sem eiga við sams konar aðstæður að búa og hann sjálfur, og því sem honum er skyldast.

Enn er hans eigin persóna miðdepill alheimsins. —

Góðvild hans er bundin við þröngan hóp vina og vandamanna. — Fyrst kemur hann sjálfur, því næst fjölskylda hans, þá sókn og sýsla. Hann eignast sinn stjórnmálaflokk, sinn söfnuð, sitt íþróttafélag og sína stétt. Allt þetta nýtur samúðar hans, vegna þess að hans eigin persóna er hluti þess.

Ekkert, sem stendur utan þess hrings, sem hann kallar *sig* og *sitt*, kemur honum við. Hann er oft illviljaður í garð óvina sinna og á í sífellum erjum við pólitíska andstæðinga sína, eða þá, sem tilheyra annarri sókn og söfnuði.

Karma hans er því bæði gott og illt, hamingja hans er hverful og í molum, en á sér þó sínar björtu hliðar.

Loks eftir langa og erfiða reynslu lærist honum, að leyndardómur lífshamingjunnar er ekki að taka, heldur að gefa.

Allt, sem hann vann fyrir sjálfan sig í eigingjörnum tilgangi, varð honum að engu. Aðeins það, sem honum tókst að gefa öðrum, varð honum eign, sem hvorki mölur né ryð fengu eytt.

Að gefa er að öðlast. — Þegar hann hefur gert sér fulla grein fyrir þessum sannindum, breytist öll afstaða hans til umhverfis síns og samfélags. — Í stað þess að safna peningum sjálfum sér til handa, lærist honum að verja þeim viturlega til styrktar öðrum mönnum og þjóðfélagi sínu til góðs.

En peningar eru það fátæklegasta, sem hægt er að

gefa. — Betra er að gefa öðrum mönnum þekkingu og lífsskilning, og þó bezt að gefa þeim góðvild og samúð. Honum hefur skilizt, að þetta er leiðin til hinnar sönnu hamingju. Þegar hann vinnur fyrir aðra, er hann í raun og veru að vinna fyrir sjálfan sig. Segja má því út frá vissu sjónarmiði, að hann sé ennþá eigingjarn. En í þessum skilningi er rétt að vera eigingjarn. Hver einstaklingur ber fyrst og fremst ábyrgð á sínum eigin þroska. Ef honum tekst að eignast sanna andlega fjársjóði, sem gera hann að betri og hamingjusamari manni, hefur honum um leið tekizt að lyfta þróun alls mannkynsins, því að hann er hluti þess. Og þótt skerfur hans kunni að vera smár, er hann kornið, sem að lokum fyllir mælinn.

Eigingirni í þessum skilningi er rétt, því að bæði fyrir einstaklinginn og mannkynið í heild er hún spor fram á við til hærra og betra lífs.

Karma manns, sem öðlazt hefur þennan lífsskilning, verður því gott og öll gæði lífsins taka smám saman að berast til hans, að því er virðist fyrirhafnarlaust. Framtíð hans er heið og björt, og hann nýtur mikillar hamingju bæði í þessu lífi og þó einkum í hinu næsta eftir dauða sinn. Þetta er þó ekki hið æðsta stig, sem karmaheimspekin talar um.

Í raun og veru nær karma aðeins til hinnar lægri náttúru mannsins, en ekki til hins innri manns, sjálfsins. Sjálf mannsins er máttugra karma. Það er algjörlega frjálst og óháð.

Endatakmark karma-heimspekinnar eins og allrar annarrar indverskrar heimspeki er sjálfsþekkingin.

Með fullkomnum athöfnum er hægt að ná þessu marki. Hin æðsta tegund karma er algjörlega óeigingjarnt starf í þjónustu mannkynsins.

Þeir, sem færir eru um að framkvæma hinn fullkomna verknað, verða að vera ósnortnir af þjáningum sjálfra sín og annarra, en þó um leið fúsir að fórna öllu, jafnvel lífinu mönnum til hjálpar, líkt og móðir, sem hjálpar börnum sínum og huggar þau, án þess sjálf að verða snortin af þeirra smáu sorgum. Þeir hafa öðlazt skilning á mannlífinu og vegna reynslu sinnar og innsæis kæra þeir sig e. t. v. ekki um að höggva af greinar þjáninganna, heldur leitast þeir við að skera á rætur þeirra.

Þeir vita, að hver maður verður að vinna að sinni eigin sáluhjálp. — Því að eins og maðurinn sáir, svo mun og uppskorið verða.

# MAYA-HEIMSPEKIN

VERÖLDINA eins og hún birtist okkur gegnum marglituð gler skynseminnar kallar Indverjinn Maya.

Hvað er þessi heimur okkar og þetta líf eins og það kemur okkur fyrir sjónir? Er það nokkuð annað en flöktandi skuggar, sem líða um leiksvið vitundarinnar og hverfa, þegar tjaldið fellur og sjónleiknum er lokið? Eða á þessi heimur okkar og þetta líf rætur sínar í hinum innri veruleika eilífðarinnar? Hvert er eðli tímans og rúmsins? Hver er uppruni lífsins og veraldarinnar? — Í hvaða sambandi stendur lífið við dauðann, hið óraunverulega við hið verulega, veröldin við guð?

Heimspeki varð til vegna þess, að maðurinn gerði sig ekki ánægðan með að sjá, heyra og finna til. Hann krefst einnig skilnings. Skilningsgleðin er fyrsta og dýpsta gleði hvers manns.

Kornbarnið í vöggunni hefur fyrst í stað ekki yfir neinu að kætast. Dögum saman hefur það augu til að sjá með og eyru til að heyra með — en skilningur þess sefur. Dögum saman halda myndir, sem augað sér, raddir, sem eyrað nemur, og snerting mjúkra handa

áfram að berja að dyrum skilningsins, unz hann loks vaknar. — Barnið þekkir móður sína og brosir þá í fyrsta skipti. — Og það tekur að líta stórum augum á hlutina í kringum sig, „himin, haf og jörð", og undrast stórum yfir veröldinni. Þegar því vex fiskur um hrygg, tekur það að spyrja hina fullorðnu um eðli og orsakir allra hluta. „Hvað er" og „af hverju" eru algengustu orð þess. Það uppgötvar löngu seinna, að hinir fullorðnu hafa líka verið börn og spurth inna sömu spurninga, og vita þetta varla enn.

„Spurðu ekki of mikils, barnið gott," er haft eftir einum fræðara upanishadanna. Skilningur okkar er takmarkaður. Látum skynsemina glíma við þau viðfangsefni, sem hún er sköpuð fyrir, því að hún kemst aldrei út fyrir takmörk sín. Þar sem getu hennar lýkur, verðum við að nema staðar, nema önnur og æðri vitund geti þar tekið við.

Gátur skynseminnar eru ekki heldur sagðar hafa mikla þýðingu fyrir þann, sem öðlazt hefur sjálfsþekkingu og séð, að þær eins og mörg önnur vandamál eru búnar til af okkur sjálfum, byggðar á röngum forsendum og hverfa af sjálfu sér, þegar hin æðri vitund leysir skynsemina af hólmi. Í hans augum kann allt að vera ótakmarkanlegt, nema mannleg skynjun og skynsemi. Og vegna þess að hún er takmörkuð, krefst hún þess að fá skilgreiningu á takmörkunum hins ótakmarkanlega!

Við rangri spurningu er ekki til neitt rétt svar. Að spyrja réttrar spurningar er hyrningarsteinn réttrar

hugsunar. Áður en við reynum að svara spurningu, verðum við fyrst að ganga úr skugga um, að spurningin sé rétt: Hvert hverfur hnefi manns t. d. þegar lófinn er opnaður? — Hvers vegna léttist villigæs um 10%, þegar hún er skotin? — Hvers vegna snýst sólin kringum jörðina? — Í fljótfærni okkar kynnum við að svara, að hnefinn hverfi út í loftið, að gæsin verði 10% léttari vegna blóðmissis, að sólin snúist um jörðina, vegna þess að hún, eins og hver maður getur séð, kemur upp á morgnana, hreyfist um himininn og sezt á kvöldin.

Þeir, sem varkárari eru, gagnrýna fyrst spurningarnar, áður en þeir reyna að svara. Með fyrstu spurningunni er því slegið föstu, að hnefinn hverfi til einhvers staðar, en hvert getur hann horfið? Höndin, sem hnefann myndar, er á sama stað, aðeins form hennar hefur breytzt. Spurningin er því röng og við henni er ekki til neitt rétt svar. Áður en við svörum næstu spurningu, verðum við að rannsaka, hvort rétt sé að gæsin léttist 10%, og þegar við að þeirri rannsókn lokinni sjáum, að svo er ekki, gefum við spurninguna frá okkur, vegna þess að hún er röng.

Á sama hátt leiðir rannsókn í ljós, að sólin snýst ekki um jörðina, heldur snýst jörðin um sólina. Spurningin er því röng og við rangri spurningu er ekki til neitt rétt svar.

Sömu afstöðu verðum við að taka til allra heimspekilegra spurninga. Ef einhver skyldi t. d. spyrja: „Hvenær skapaði guð alheiminn?“ verðum við fyrst að rann-

saka, hvort spurningin sé rétt spurning. Með þessari spurningu hefur spyrjandinn slegið föstum fjórum atriðum a. m. k.: 1) að alheimurinn sé skapaður, 2) að alheimurinn hafi verið skapaður á einhverjum ákveðnum tíma (og spyrjandinn vill hér fá sem nákvæmast ártal!), 3) að guð sé til og 4) að guð hafi skapað alheiminn.

Ef spyrjandinn nú getur sannað þessi fjögur atriði, er spurningin vísindaleg. Ef þessi fjögur atriði eru rétt, er spurningin rétt. Ef við með rökréttri hugsun getum leitt líkur að þessum atriðum, þá á spurningin rétt á sér. En ef eitthvert þessara fjögurra atriða er rangt, er spurningin röng og við henni ekki til neitt rétt svar.

Því er haldið fram, að frá sjónarhóli hinnar æðri vitundar séu flestar spurningar skynseminnar rangar spurningar og falli því niður af sjálfu sér. — En við hin, sem þekkjum enga vitund æðri skynseminni, höldum rökræðunum áfram.

Hér á eftir skal leitazt við að sýna, hvaða afstöðu indversk heimspeki tekur til þessara spurninga, sem vikið var að í upphafi og tengdar eru Maya, — hinni ytri veröld.

Það fyrsta, sem öll trúarbrögð og heimspeki reyna að gefa skýringu á, er upphaf lífsins og veraldarinnar. Heimspeki og nútíma vísindi jafnt glíma við gátuna um, hvaðan lífið sé komið. Þau hafa ekki svarað spurningunni enn sem komið er, og það er ef til vill ekki heldur rétt að vænta neins svars.

Venjulega hugsum við okkur, að til séu tvær aðskiljanlegar náttúrur: hið lifandi og hið dauða. Dýra- og jurtaríkið köllum við það lifandi, steinaríkið hið dauða. Vissir vísindamenn hafa síðan reynt að skýra, hvernig umhverfi og aðstæður töfra lífið fram úr því, sem þeir kalla „hið dauða efni".

Hinir gömlu fræðarar líta svo á aftur á móti, að allt í tilverunni sé líf á vissu stigi og að lífið sé án upphafs. Einnig vísindin viðurkenna, að allt lifandi hljóti að vera af lífi fætt. Augljóst er, að á þessari jörð er hin svonefnda „dauða náttúra" (steinaríkið) upprunalegri en hin lifandi. Þess vegna hlýtur hið lifandi að vera komið frá „hinu dauða", en það er ekki hægt, nema hið dauða hafi í sér einhverja frjóanga til lífs, sé með öðrum orðum líf á vissu stigi.

Sumir reyna að koma sér út úr þessari sjálfheldu náttúruvísindanna með því að kenna, að lífið sé aðflutt utan úr geimnum, en það skýrir ekki neitt, því að ef við litum svo á, að skipta beri náttúrunni í lifandi og dautt, hlýtur þá ekki hið dauða að vera upprunalegra alls staðar hvar sem er í tilverunni, því að vissulega getur hið lifandi ekki fætt af sér hið dauða. Þess vegna verðum við annað hvort að vera þeirrar skoðunar, að lífið sé komið út úr dauðanum, sem þó er andstætt einni af grundvallarsetningum náttúruvísindanna (líf er af lífi fætt) og allri rökréttri hugsun, eða viðurkenna, að ekkert sé til nema líf, á mismunandi stigum að vísu.

Hvernig menn komast að þeirri niðurstöðu, að náttúran skiptist í lifandi og dautt, skýrir heimspekin á þann hátt, að hérg eri maðurinn sig enn einu sinni sekan um að skoða eigin takmörk sín sem takmörk lífsins í heild. — Fyrst hugsar hann sem svo: „Ég er lifandi.“ Síðan spyr hann: „Hvernig veit ég, að ég er lifandi!“ Og nú tekur hann að sundurliða þá eiginleika, sem líf hans einkenna.

Hann skynjar, hugsar, andar, hreyfist, tekur til sín næringu, fæðist, vex, hrörnar, deyr. — Og þegar hann hefur lokið þessari líkkrufningu sinni á eðli lífsins, telur hann sig hafa fundið þar ákveðna hluti, sem hann kallar t. d. hin fimm einkenni lífsins. — Síðan slær hann því föstu, að allt, sem hefur þessi einkenni, sé lifandi og það, sem hefur ekkert þeirra, sé dautt. Hann lítur síðan í kringum sig og sér, að dýr og plöntur hafa þessi einkenni, steinar og málmar ekki. Og síðan veit hann, hvað er lifandi og hvað er dautt!

En er nokkur ástæða til að ætla, að einkenni mannsins séu hin algilda mælistika lífsins. — Enginn getur sannað, að lífseinkenni mannsins séu meira en sentimetrinn á metramáli allífsins, bæði hins þekkta og óþekkta. Þennan hundraðshluta kallar hann líf, það sem utan hans liggur, dauða, vegna þess að þar lýkur öllum skyldleika við hans eigin persónu: — Það er engin markalína milli hins lifandi og dauða. — Aðeins líf er til.

Hver er uppruni veraldarinnar? Er hún takmörkuð

eða ótakmörkuð? — Þetta eru hinar næstu spurningar í sambandi við Maya. Samkvæmt indverskri heimspeki er fyrri spurningin röng, vegna þess að enginn hlutur á sér algjört upphaf. — Sköpun og eyðing eru eilíf fyrirbrigði, sem eiga sér engin takmörk í tíma. Tilveran getur ekki staðið kyrr, verið sett á hreyfingu eða stöðvuð: Það er erfitt að hugsa sér, hvernig menn geta bæði trúað á eilífan guð og um leið á sköpun, sem hefst á einhverjum ákveðnum tíma, sem kallast „í upphafi". Þeir viðurkenna, að guð sé eilífur og hafi því aldrei byrjað að vera til.

Öll tilveran er sköpun hans líkt ogg eisli, sem sólin sendir frá sér. Á sama hátt og sólin er sól vegna geisla sinna, er guð guð vegna sköpunar sinnar. Ef sólin sendir hvorki frá sér birtu né yl, er hún engin sól. Ef guð er algjörlega óvirkur, erh ann enginn guð. Ef tilveran hefur byrjað að vera til, hlýtur þá ekki guð að hafa orðið til á sama tíma? — Eða á hinn bóginn, ef menn trúa á eilífan guð, verða þeir að viðurkenna, að tilveran sé líka eilíf. Hvernig geta menn haldið, að guð hafi verið algjörlega óvirkur og áhrifalaus „frá eilífð" (sem er mótsögn í sjálfu sér), en vaknað „einn morgun snemma", skapað alla hluti í skyndingu og lagzt síðan til svefns aftur?

Sköpun er eilíf. Hún hefur alltaf verið og hún endar aldrei. Maðurinn fæðist og deyr, himintungl koma og hverfa. Hvert einstakt fyrirbrigði tilverunnar á sér á vissan hátt upphaf og endi. — Tilveran í heild er eilíf.

Er veröldin (alheimurinn) takmörkuð eða ótakmörkuð? — Á miðöldum var það haft fyrir satt á Vesturlöndum, að jörðin væri alheimurinn. — Hún var flöt. Himinninn var aðeins hálfkúla úr málmi, sem kölluð var festing. Undir jörðinni var sær og kringum hana var sær á alla vegu.

Eftir langa vist í formyrkvun blindrar trúar, sem hefti öldum saman þroska mannsandans, tókst nokkrum brautryðjendum loks að sprengja af sér fjötrana og tóku að hugsa frjálst. Þeir komust að raun um, að jörðin var hnöttótt, að festingin væri himingeimur, fullur af öðrum hnöttum. Og menn uppgötvuðu, að jörðin var aðeins hluti af ákveðnu kerfi, sólkerfinu. Þeir sáu líka, að sólkerfi okkar var aðeins hluti af öðru kerfi — ákveðnum stjarnheimi, sem við nefnum Vetrarbraut. Og nú þekkja menn þúsundir slíkra stjarnheima. Á þessari víðáttumiklu þekkingu byggja menn hugmynd sína um „ómælisgeim stjarnanna“. — Þekking okkar er enn sem komið er allt of lítil til þess að hún réttlæti nokkra hugmynd um eðli veraldarinnar í heild. „Ómælisgeimur stjarnanna“ er að líkindum aðeins takmarkað fyrirbrigði, jafnvel þótt við uppgötvum aldrei takmörk hans.

Rúmið aftur á móti og veröldin (allt sem er bæði þekkt og óþekkt) í heild hlýtur að vera ótakmarkanlegt. — Ef við t. d. drögum hring og segjum, að rúmið takmarkist af þessum hring, hljótum við að spyrja: „Hvað er utan þessa hrings?“ Og þeir, sem trúa, að

rúmið sé takmarkað, verða þá að svara: „Ekkert.“ — En það er ekkert svar, heldur aðeins undanbrögð til að komast hjá að viðurkenna, að þekking þeirra er takmörkuð. Þetta sannar þó ekki, að fyrirbrigðið stjörnur og loft, sem menn kalla sennilega ranglega „alheim“, sé ekki takmarkað. Það er jafnvel skynsamlegt að gera ráð fyrir, að svo sé, en utan hans taka þá við önnur og ólík fyrirbrigði. — Við könnum rúmið út frá jörð okkar.

Hugsum okkur í þess stað, að við værum íbúar á elektrónu í vetnisatómi í miðju Atlantshafsins. Hugsum okkur, að hlutfallið milli stærðar okkar og þessarar elektrónu væri hið sama og hlutfallið milli stærðar okkar og jarðarinnar. — Vísindi okkar, sem kannað hafa rúmið af elju og dugnaði, þekkja nú veröld, sem er að þvermáli yfir hundrað milljón ljósár.

Hverfum nú með alla þessa þekkingu okkar niður til hinna nýju heimkynna okkar á elektrónunni. Samkvæmt stærðarhlutfallinu milli elektrónunnar og jarðarinnar svarar hún til þess, að við þekktum um það bil einn sentimetra af rúmi Atlantshafsins. — Og þó þessi þekking okkar tvöfaldaðist eða þúsundfaldaðist, mundum við ekki komast til neinnar strandar og þekkja aðeins þetta eina fyrirbrigði, vatn. Ekki svo að skilja, að mismunur lands og sjávar yrði jafnmikill séð frá veröld elektrónanna eins og hann er í okkar augum, en þar yrði þó um annað fyrirbrigði að ræða. — Þannig mundu vísindi okkar iðkuð frá þessari rannsóknarstöð

í vetnisatóminu aldrei fá neitt hugboð um land,h imin eða eld t. d. — Þannig getum við yfirfært þekkingu okkar til þúsund ólíkra rannsóknarstöðva í tilverunni og komizt á sama hátt að raun um, að niðurstöður okkar, sem við mundum þá komast að, t. d.: alheimurinn er vatn, alheimurinn er eldur, alheimurinn er grjót, væru allar rangar. Við, sem á jörðinni búum, vitum það með vísindum okkar, sem við með þessum sömu eða hliðstæðum vísindum mundum ekki vita, ef við værum íbúar elektrónu í vatni, eldi eða kletti, að alheimurinn er meira en vatn, meira en eldur, meira en grjót. En er þá sjálfsagður hlutur, að þessi rannsóknarstöð okkar sé sá eini rétti punktur í tilverunni, þar sem hægt er að fá rétta niðurstöðu um alheiminn? Við verðum, þegar við hugsum okkur um, að viðurkenna, að það er engu auðveldara fyrir okkur hér á jörðinni að þekkja rúm, sem á sér engin takmörk, en það mundi vera frá elektrónu sem miðpunkti. — Þess vegna getum við verið næsta örugg um, að niðurstaða þessarar rannsóknarstöðvar, stjörnur og loft, sé líka takmörkuð niðurstaða, sem nær ekki yfir eðli alheimsins, heldur aðeins örsmátt brot hans. — Það kann því svo að fara, að menn í framtíðinni a. m. k. segi skilið við hugmynd sína um „ómælisgeim stjarnanna“. Hann er aðeins fyrirbrigði, og það er eðli fyrirbrigðisins að vera takmarkað. Þessi fyrirbrigði („takmarkaðir alheimar“) kunna að vera eins mörg og ólík og gróður jarðarinnar, — en moldin, sem fóstrar þetta allt og tekur það til sín aftur,

er ein. Rúmið sjálft er ótakmarkanlegt. Öldurnar, sem rísa á sæ ómælisins, eru takmarkaðar og óendanlega margar. Þær koma og hverfa, en vatnið, sem myndar þær, hverfur ekki, því að undir þeim öllum er djúpið, sem skapar þær og tekur þær til sín aftur. — Sá sær er ótakmarkanlegur og eilífur — guð.

En í hvaða sambandi stendur þá hið ytra við hið innra — tilveran við guð?

Til eru þeir heimspekingar, sem halda, að hin ytri tilvera sé aðeins „eins og sýning skuggamynda á tjaldi," — ekki raunveruleg í sjálfu sér. Þeir segja, að guð einn sé raunverulegur, en veröldin og tilveran í heild óraunverulegur skuggi hans. Þeir segja, að ekkert sé til nema andinn og þær hugmyndir, sem hann fóstrar. Vissir heimspekingar á Vesturlöndum, sem sjálfir boðuðu, að veröldin væri sjónvilla og efnisheimurinn ekki til, bera ábyrgð á því, að hið indverska hugtak, maya, er yfirleitt á Vesturlöndum túlkað sem heimsblekking. Schopenhauer og lærisveinn hans, Deussen, hafa þannig þýtt hina austrænu kenningu í samræmi við sína eigin „Weltanschauung" (heimsskoðun).

Deussen t. d. útskýrir kenningu Upanishadanna um Maya í ljósi Kantismans og Kant í ljósi Upanishadanna með þeim afleiðingum, að kenningu beggja er misþyrmt. En bæði Upanishadana og Kant notar hann til stuðnings sínu eigin sjónarmiði, að veröldin sé blekking. — Kenningin um Maya á þó ekkert skylt við þær hugmyndir um sjónvillu og heimsblekkingu, sem

menn á Vesturlöndum hafa eignað henni vegna rangrar túlkunar, einkum Schopenhauers og Deussens.

Þessa kenningu er að finna í elztu bók hins aríska kynstofns, Rig-Veda. — Þar þýðir Maya aðeins ákveðinn eiginleika til að skapa hið takmarkaða úr hinu ótakmarkaða, og þessi merking hefur raunar aldrei breytzt. *Maya* er komið af sögninni *mama*, en rót hennar þýðir að mæla eða takmarka. Í tveim setningum í Rig-Veda má finna Maya notað með mamam og mane (sem bæði eru af sömu rót) til að gefa Maya aukna áherzlu og undirstrika sem skýrast, að Maya merki þetta og ekki annað. Maya þýðir aðeins eiginleikann, sem guðirnir eru sagðir hafa til að skapa hið mælanlega, hið afmarkaða, og þessi heimur hins takmarkaða — hin ytri veröld mannsins — var síðan nefnd Maya.

Á sama hátt er guðinn Krisna í Bagavad Gita kallaður Maya-vin, þ. e. a. s. sá, sem hefur vald til að skapa Maya, sem síðan birtist sem Visayar: hlutir, sem brotnað hafa sundur eða verið greindir frá heild sinni. Þannig þýðir Maya hið stundlega og takmarkaða. — Schopenhauer heldur því fram, að fyrst Maya sé stundleg og takmörkuð, hljóti Maya að þýða blekking, því að í Upanishödum er því haldið fram, að guð sé hinn eini veruleiki, og guð er hvorki stundlegur né takmarkaður. Þess vegna hljóti veröldin að vera óraunveruleg. — En kenning Upanishadanna réttlætir ekki þessa skoðun. Þessi röksemdafærsla er röng vegna þess, að samkvæmt henni þýðir hið stundlega sama og hið

„ekki eilífa" og hið takmarkaða sama og hið „ekki ótakmarkaða". Hvergi í Upanishödum er því haldið fram, að hið stundlega sé utan hins eilífa og hið takmarkaða sé utan hins ótakmarkaða.

Og þó því sé þar haldið fram, að guð sé hinn eini raunveruleiki, er því þó bætt við, að veröldin, Maya, eigi rætur sínar í þessum veruleika og eigi þar með hlutdeild í veruleikanum, en sé ekki sýning skuggamynda eða tómur draumur. „Hið takmarkaða er í hinu ótakmarkaða," má lesa í Upanishödum. Tunglið t. d. er ekki alheimurinn. En það þýðir ekki, að tunglið sé utan hans. Maya er ekki (allur) veruleikinn, en það þýðir ekki, að Maya sé utan hans. Hið takmarkaða er hluti hins ótakmarkaða — en ekki andstæða þess, tóm eða blekking. — Þannig þýðir þetta indverska hugtak Maya, veruleiki, þó að hún sé ekki hinn innsti veruleiki — en fær á Vesturlöndum merkinguna heimsblekking vegna mistúlkunar ýmissa heimspekinga og fræðimanna, sem kynntu sér hugmyndina aðeins til hálfs.

Guð og veröldin eru eitt og veröldin er ekki skuggi hans, heldur ljós hans. Hinn innri veruleiki birtist alls staðar í hinni ytri tilveru, en er henni þó ekki háður.

Hann er eins og sólin, sem með skini sínu byggir upp náttúruríkin, án þess að hún eyðist við það. — Jörðin er háð sólskininu, en sólin er óháð sköpun sinni á jörðinni.

Þannig er samkvæmt hinni indversku kenningu allt í tilverunni raunverulegt og ekki sjónhverfing.

Maya er veruleiki, hluti hins órjúfandi samræmis og slær í takt við hljómfall hins eilífa. — Að afneita veröldinni er að afneita guði.

# YOGA-HEIMSPEKIN

Vedabækur kenna, að í djúpi vitundar hvers manns búi sami andi og sá, er snýr hjólum allrar tilveru. Þær kenna, að djúpt í eðli hvers manns sé hulinn fjársjóður: demant fylltur ljósi hinnar sönnu þekkingar, óskasteinn hinnar æðstu hamingju, sem lætur alla drauma rætast, og perla hreinleikans, sem aldrei flekkast, þó að veröldin haldi henni í greipum sér.

En hjá venjulegum mönnum er þessi fjársjóður hulinn að baki þrefaldra tjalda. Yzt þessara tjalda er mannslíkaminn og þær þarfir og hvatir, sem náttúran ljær honum til sóknar, varnar og sjálfsviðhalds. Innan þeirra tjalda taka við hulur skilningarvitanna. Hinar sömu takmarkanir, sem settar eru skynfærum okkar, takmarka einnig hugmyndir okkar og skoðanir. Skilningarvitin skynja því aðeins sína eigin heima, en skynja ekki hinn innri veruleika, nema í umbreyttri mynd. Þriðja hulan er hugurinn (cittą). Þessar þrjár hulur eru ekki okkar sanni innri maður, heldur tæki hans, háð sífelldum breytingum, fæðingu og dauða.

Hinn innri maður okkar (atman, purusa) fæðist aldr-

ei og deyr aldrei, því að hann er brot af bergi hins eilífa. — Hann er fullkominn, því að hann er hluti hins innsta veruleika, sem trúarbrögðin nefna guðdóm.

Þessar þrjár hulur skilja því manninn frá uppruna sínum og hinu sanna eðli, svo að hann lifir í útlegð í heimi villunnar. Þessi aðskilnaður er að dómi Indverjans orsök allrar fáfræði og fylgiliðs hennar yfirsjóna og þjáninga.

Til þess að losna úr útlegðinni, verður maðurinn að þekkja sjálfan sig og lyfta tjöldunum þremur, sem hylja hinn dýra fjársjóð. — Öld eftir öld reyndi hinn indverski andi að finna leið að þessu marki, og á sanskrít og pali sköpuðust fleiri sálfræðileg hugtök en í dag eru til á öllum tungum veraldarinnar samanlagt.

Dr. Jung, einn af helztu brautryðjendum vestrænnar sálfræði, segir m. a.: „Sálgreiningin sjálf og þau vísindi, sem hún er vísir að, er aðeins tilraun byrjandans samanborið við hina ódauðlegu list austursins.“ Nafnlausir djúphyggjumenn kenndu mönnum leiðina og vísindi þeirra voru iðkuð, könnuð og sett í kerfi, og niðurstaða þessarar miklu leitar er heimspeki, sem kölluð er yoga. Iðkandi hennar nefnist yogi.

Yoga er þannig leitin að þeirri fullkomnun, sem er hinn duldi kjarni mannsins. Með sjálfsþekkingu sinni verður yoginn sér meðvitandi um hlutdeild sína í heimsvitundinni.

En þessarar sjálfsþekkingar verður ekki aflað með heimspekilegum vangaveltum né fræðikenningum ein-

um saman. Skynsemin er aðeins hið lægsta svið skilningsins, og aðeins með því að lægja öldur hugans og friða starfsemi hans er hægt að láta ljós heimsins, sem býr hið innra með hverjum manni, skína niður gegnum hina lægri himna vitundarinnar og rjúfa skýjaþykknið milli þess og vors daglega lífs.

Leiðin til sjálfsþekkingar er engum auðrötuð. — Patanjali, sem fyrstur manna er sagður hafa bundið yoga-heimspekina í kerfi, skiptir leiðinni til fullkomnunar í átta áfanga, sem sigrast verður á áður lokatakmarki er náð.

Hinn fyrsta áfanga þessa vegar kallar yoga-heimspeki Patanjalis *yama.*

Á þessu fyrsta stigi er yoga-iðkandanum ætlað að treysta sem bezt hinn siðræna grundvöll sinn, því að án hans er tilgangslaust að iðka yoga. Mannkostir manna eru grunnur hins nýja musteris, og ef hann er ekki traustur má víst teljast, að hin háreistu hvolf þess hrynji fyrr eða síðar til grunna.

Yama er í því fólgið, að nemandinn tileinkar sér fimm boðorð, sem öll lúta að breytni hans við meðbræður sína.

Fyrsta boðorðið staðfestir friðhelgi mannlífsins — „Þú skalt ekki lífi eyða.“ Það boðorð er afdráttarlaust og leyfir engar undantekningar. Þjóðhöfðinginn og hermaðurinn, sem brjóta þetta boðorð í nafni föðurlandsins, eru jafn réttlausir og páfinn, trúarofstækismaðurinn og krossriddarinn, sem brjóta það í nafni

guðs og trúar sinnar eða uppreisnarmaðurinn sem brýtur það í nafni síns pólitíska átrúnaðar.

Að beita ofbeldi er mönnum ósamboðið, að eyða lífi er óréttlætanlegt. — Jafnvel í sjálfsvörn er manninum ekki leyfilegt að drepa náunga sinn. — Sá, sem eyðir lífi, hvort sem ástæða hans er ágirnd,r eiði eða heimska, formyrkvar vitund sína og bindur sig við klafa stórrar þjáningar.

Með því að rækta með sér góðvild til manna og dýra, lífsgleði og alúðlegt viðmót, skilning og samúð með öllum mönnum, góðum og vondum, tekst nemandanum að lokum með návist sinni einni saman að eyða allri óvináttu.

Næst þessu kemur boðorðið um að vera einlægur, sannorður og trúr sjálfum sér og öðrum. — Með því að koma jafnan til dyranna eins og hann er klæddur, halda sig við sannleikann og forðast bakmælgi, tekst nemandanum að afla sér jafnvægis og andlegrar heilbrigði.

Heiðarleiki er hið þriðja boðorð yama-stigsins. Með því að ástunda hann og útrýma allri öfundsýki, veitist nemandanum allur sannur auður. — Hófsemi er hið fjórða. Með henni eykur nemandinn styrk sinn og lífsþrótt. — Loks er brýnt fyrir nemandanum að forðast auðsöfnun. Honum er ætlað að taka þátt í þjáningum annarra og verja fé sínu til að hjálpa samfélagi sínu eftir fremsta megni.

Á þennan hátt ræktar nemandinn með sér góðvild og eykur lífshamingju sína.

Þessi fimm boðorð eru að dómi yoga-heimspekinnar fyrsti áfanginn á leið hins áttfalda vegar, sem liggur til sjálfsþekkingar.

*Niyama* er annað stig yoga-heimspekinnar og miðar að því sama og yama, — að styrkja sem b ezt hinn siðræna grunn, sem hin hærri stigin byggjast á.

Niyama eru fimm atriði til viðbótar, sem nemandanum er ætlað að tileinka sér. Hið fyrsta þeirra er hreinleiki, en sú hreinsun, sem nemandanum er ætlað að framkvæma, nær ekki eingöngu til hugarfarsins. — Yama-heimspekin aðhyllist ekki hugmyndina um krossfestingu holdsins. Að dómi yogans er líkaminn hluti hins andlega vandamáls. — Hinn innri maður okkar (sjálfið) er hulinn að baki forgengilegs holds og friðlauss hugar og verður því hvort tveggja að takast til meðferðar jöfnum höndum.

Líkaminn er ekki vél, sem hugurinn er tengdur við á dularfullan hátt og er honum að mestu leyti óviðkomandi, heldur eru líffæri manna fiðlustrengir og hljómur þeirra er hugarstarfsemin.

Þetta tvennt, líkamann og hugarstarfsemina, er nemandanum ætlað að taka til meðferðar sem eitt og hið sama fyrirbrigði. — A f þessum orsökum verður t. d. þetta boðorð um hreinleika að ná til líffæranna engu síður en hugarfarsins. Líkamanum verður að halda hreinum hið ytra með tíðum böðum og hreinlæti og

hið innra með skynsamlegu og hollu mataræði, og með því að forðast nautn eiturlyfja. Hugann verður á sama hátt að hreinsa af öllum myrkum og skuggalegum hugrenningum, unz nemandinn öðlast það léttlyndi, jafnaðargeð og rósemi, sem auðveldar honum að beina hug sínum inn á við til sjálfskönnunar. —

Hin önnur fjögur atriði niyama eru nægjusemi, sjálfsafneitun, lærdómur og trúarhollusta. — Með því að vinna bug á ágirnd sinni og rækta með sér nægjusemi, öðlast nemandinn sannari hamingju en þá, sem keypt verður eða seld. Með sjálfsafneitun er honum ætlað að vinna bug á munaðargirni sinni og auka líkamsþrótt sinn. — Meinlætalifnaður á þó litlum vinsældum að fagna hjá hinum meiri spámönnum yogaheimspekinnar.

Með því að afla sér lærdóms og þekkingar úr bókum greiðir nemandinn fyrir birtingu hinnar sönnu þekkingar, sem kemur innan að. — Og með því að beina vitund sinni til hins æðsta máttar finnur hann að lokum sjálfan sig og endurheimtir hina týndu paradís.

Þessar fimm reglur niyama eru taldar yoganemandanum nytsamlegar, en þó er hverjum einstaklingi í sjálfsvald sett, á hvern hátt og að hve miklu leyti hann tileinkar sér þær.

Hinna fimm boðorða yama er aftur á móti krafizt af öllum mönnum, líka þeim, sem ekki tileinka sér hin hærri stigin.

Jafnvel nú eftir að nemandinn hefur tryggt hinn sið-

ræna grundvöll sinn, er enn ekki tímabært að leggja stund á hið raunverulega yoga.

Þrjú næstu stig eru einnig undirbúningur, þar sem nemandanum er ætlað að læra að ná valdi yfir líkamsstellingum og ná valdi yfir andardrætti og skynfærum.

*Asana* nefnist þriðja stig hins áttfalda vegar. Nú á dögum hefur asana verið gert að sérstöku íþróttakerfi, þar sem mönnum er ætlað að sitja tímum saman í hinum ólíkustu stellingum. Með því hyggjast menn styrkja taugakerfið, efla líkamshreysti og fegurð og þó sérstaklega að útrýma þreytu og hrörnun líffæranna. Íþróttakerfi Vesturlanda og hollar lífsvenjur gera þó að vissu leyti sama gagn. — Patanjali, hinn gamli meistari yogaheimspekinnar, leggur þó ekki eins mikla áherzlu á asana og síðar var gert, eftir að það þróaðist upp í sjálfstætt kerfi. Hann leggur aðeins áherzlu á, að líkamsstaðan verði að vera stöðug og þægileg meðan á hugleiðslunni stendur, svo að hægt sé að gleyma algjörlega tilveru líkamans.

*Pranayama* er að ná valdi yfir andardrættinum. Eins og áður er sagt, er rósemi hugans frumskilyrði fyrir allri hugleiðslu. Nemandinn verður því að læra að lægja líffærastarfsemi sína og róa hugann, áður en hugleiðsla er framkvæmanleg. — Patanjali kennir, að hægt sé að öðlast slíka rósemi hugans bæði með yama (ástundun góðra hugsana og verka) og pranayama (öndunaræfingum). Hvort nemandinn tekur upp öndunaræfingar í þessu skyni eða ekki, er honum því í sjálfs-

vald sett. — En menn eru sérstaklega varaðir við að taka upp slíkar æfingar án öruggs kennara, því að ef ranglega er með farið, geta þær reynzt heilsu manna skaðlegar og jafnvel verið andlegri heilbrigði bein hætta.

En þeir, sem gagnkunnugir eru yoga-Vidya — vísindum pranayama —, telja þau vel til þess fallin að þroska dulspekileg öfl með mönnum og hafa róandi áhrif á hugarstarfsemina. Djúp innöndun og útöndun í 3—5 mínútur eru þó öllum taldar heilsusamlegar og styrkjandi fyrir taugakerfi og hjarta. (Sbr. Dr. Weber: *The Means for Prolongation of Life*).

*Pratyahara* er síðast þessara þriggja undirbúningsstiga, sem eiga að kenna mönnum að ná tökum á líffærastarfseminni og undirbúa sig á þann hátt undir hið raunverulega yoga: hugleiðsluna. — Tilgangurinn með pratyahara er að „svæfa“ skynfærin um stund, svo að engar nýjar myndir berist til hugans utan að, sem valdið geti þar umróti. Lao Tze, höfundur Bókarinnar um veginn spyr einhvers staðar: „Hvernig er hægt að gera gruggugt vatn hreint?“ — Og hann svarar sjálfur spurningunni: „Láttu það í friði og það verður hreint af sjálfu sér.“ Þetta er einmitt það, sem hinn verðandi yogi leitast við að gera á þessu stigi. — Hann gerir skynfæri sín ónæm fyrir umheiminum og hverfur inn í sitt innra virki.

Þessi fimm stig, sem nú hafa verið talin, eru aðeins

undirbúningur undir meginviðfangsefni yogans: að öðlast sanna þekkingu, sem leiðir til lausnar frá hinni lægri tilveru manna til æðra og betra lífs. Þessarar þekkingar verður aðeins aflað með innsæi og aðferðin til að þroska það er fasthygli og síðar hugleiðsla.

Gamansamur Vesturlandabúi, sem virðir fyrir sér yoga í hugleiðsluástandi, skoðar hann jafnan sem kynlegan náunga, sem horfir dægurlangt á nafla sinn og ímyndar sér, að þar sé gáta allífsins falin! En yoginn sér ekki einu sinni nafla sinn. Augu hans eru blind. Skynfæri hans starfa ekki lengur (pratyahara). Ástand þetta er þó ekki líkt og svefn eða meðvitundarleysi. Honum er þetta ástand hið mikla ævintýri, sem lyftir mannsandanum út fyrir allt, sem áður var þekkt og skynjað. Ný vitund. Nýr heimur.

Viðfangsefni hinna þriggja síðustu stiga er sjálfskönnunin. Fyrst þegar yoganum tekst að greina hugann frá hinum innra manni, sjálfinu, öðlast hann sanna þekkingu og veit, að starf hans hefur borið árangur. Sjálfið (atman) er eilíft og óumbreytanlegur veruleiki, kjarni hvers einstaklings. — Hugurinn (citta) er stundlegur, því að hann er sífelldum breytingum undirorpinn. Hann skapast og eyðist. Eins og lag á ekki upphaf sitt í hljómi fiðlustrengjanna — heldur í sál fiðlarans, sem strengina snertir, eins er hugurinn í sjálfu sér án vitundar, en fær vitund aðeins vegna sjálfsins, sem notar hann sem tæki sitt. —

Þannig getum við skoðað líffærin sem fiðlustrengi,

hugann sem hljóm þeirra og sjálfið sem hinn mikla fiðlara. Hugur kornbarnsins er í fyrstu tómur og auður líkt og óskrifað blað. — Skynfæri barnsins skrá þar hið fyrsta stafróf og skynsemi og reynsla skipa þessum stöfum í orð og setningar, eftir því sem þroski barnsins vex. Hugurinn, sem fær er um að skynja að vissu marki orsakir og afleiðingar, kemur smám saman auga á hið óhagganlega samhengi hlutanna og öðlast hæfileika, sem við köllum rökrétta hugsun. Og þekkingu köllum við síðan þann eiginleika hugans að stafla upp í safnhúsi minninganna sprekum, sem við tíndum upp úr bókum og viðræðum við aðra menn. Þannig verða hugmyndir til. Þær eru háðar skynfærunum, hæfileikanum til rökréttrar hugsunar og þekkingu, sem aflað er úr bókum eða með viðræðum við aðra menn. Allt, sem til hugans berst frá umheiminum, er litað og ummyndað af áhrifum hinna þriggja *guna,* ljóss, ástríðna og myrkurs. Reynsluþekking manna, sem þannig er sköpuð af blönduðum straumum skynfæranna, skynsemi og hinnar æðri vitundar, er því ekki algjörlega sönn að áliti yoga-heimspekinnar. Hugurinn, sem einnig er orustuvöllur andstæðra hvata og tilfinninga, er því ekki hin ódauðlega vitund mannsins, heldur aðeins tæki hennar. Hugurinn er friðlaus og aldrei fullkomlega ánægður, vegna þess að hann skynjar hið stundlega í stað hins eilífa, moldviðri sléttunnar er hlutskipti hans, en ekki heiðríkja fjallsins. Hann seilist því í munað, sem er ekki hamingja og er haldinn lífsþorsta og ótta

við dauðann. Hann fer villur vegar og er móttækilegur fyrir allar þjáningar heimsins. Tilgangur yogans er þó ekki að binda enda á starfsemi hugans, heldur að láta sjálfið lýsa hann upp og eyða þannig myrkri hans og villu. Hugurinn er fyrirbrigði, sem yoginn verður að taka til alvarlegrar meðferðar, áður en lengra er haldið. Stundum er hugurinn friðlaus og hvarflar úr einu í annað. Stundum er hann blindur, fullur drunga og liggur í svefnmóki, stundum hlaðinn áhyggjum og hrakinn af veðri og vindum. Aðrar hindranir, sem yoginn verður að sigrast á, eru sjúkdómar, ótti og óvissa, munaðargirni, þrár og efi, rangsnúnar hugmyndir, getuleysi til að einbeita huga sínum og óstöðugleiki, jafnvel eftir að það hefur tekizt.

Þegar yoginn hefur sigrazt á öllum þessum hindrunum, hefjast lokaáfangar þessarar farar. Þau eru *dharana* (fasthygli), *dhyana* (hugleiðsla) og *samadhi* (hið æðsta innsæi). Dharana er í því fólgið, að yoginn tekur til meðferðar ákveðið íhugunarefni og festir hugann við það eitt. Tilgangurinn með því er að róa hugann og láta hann hætta að hvarfla úr einu í annað. En flestum er það um megn nema stutta stund. Um leið lokar yoginn skynfærum sínum fyrir umheiminum. Þessi rósemi og kyrrð líffæranna og hugans, sem dharana skapar, leiðir hægt og hægt yfir til næsta stigs, dhyana. Ný öfl losna þá úr læðingi, og nýtt svið vitundarinnar birtist. Hugurinn er fullur friðar. Hann er algjörlega einþættur, og þar kemst ekkert að annað en það, sem yog-

inn hefur kosið að taka til meðferðar. Í þessu ástandi næst fullkomin þekking á því, sem huganum er beint að. Skynjun og hið skynjaða verða þar eitt. Hámark dhyana eða hugleiðslunnar er samadhi, hið æðsta innsæi.

Vitundin beinist þá að því ljósi, sem er ofar öllum áhyggjum og sorgum. Hugarstarfsemin virðist stöðvast og ný vitund tekur við. Yoginn skynjar sinn innri veruleika, sjálfið, og hið sanna eðli lífsins. Í þessu ástandi er vitundin skýrust og víðtækust. Það einkennist af hugljómun, voldugri máttartilfinningu og hamingju, sem á sér enga ytri orsök.

Ávextir þess eru djúpur, ójarðneskur friður og leiftur þess innsæis, sem veita yoganum sanna þekkingu. Veraldleg hamingja verður honum næsta fátækleg og fölnar eins og morgunmáni í skini nýrrar sólar.

Eftir að þessu stigi er náð, er veröldin honum fangelsi, sem aðskilur hann frá hinum miklu víðáttum, því að fullkomna lausn fær hann ekki fyrr en í dauðanum. Eftir það hverfur hann til annarra veralda, nema hann hafi ákveðið verk að vinna í þágu framvindunnar.

Þegar yoginn hefur náð hinum þrem síðustu stigum sínum, öðlast hann yfirskilvitlega þekkingu og vald til að gera „kraftaverk“.

Með því að beina vitund sinni að *udana* (taugum, sem stjórna lungum og öllum efri hluta líkamans), upphefur yoginn þyngd sína og getur gengið á vatni eða þyrnum og sofið á spjótsoddum. Hann getur öðlazt

fullkomna innsæisþekkingu á hverju því máli, sem hann kýs að leita lausnar á. Hann getur gert sig óháðan veðráttu, svo sem hita og kulda. Ef honum býður svo hugur við að horfa, getur hann setið nakinn uppi á jökultindi í frosthörku og illum veðrum. — Að vaða eld er honum leikur einn. Hann getur tekið vizkusteininn í hönd sér og séð inn í dulheima annarrar tilveru. Hugsanir manna verða honum opin bók. Hann getur kannað fortíð og framtíð og séð fyrir dauða sinn og annarra. Hann getur gert líkama sinn ósýnilegan, gengið um lokaðar dyr og farið hamförum. Hann getur kannað rúmið, sólkerfi og himintungl. Hann getur náð valdi á líffærastarfsemi sinni — stöðvað andardráttinn og hjartslátt sinn og jafnvel látið grafa sig lifandi í loftþéttu hylki vikum saman án þess að verða meint af. Hann getur gefið vöðvum sínum styrkleika fílsins eða látið ljósblik leiftra frá líkama sínum, og margir fleiri hlutir eru sagðir honum í sjálfsvald settir.

Patanjali kennir, að sá, sem náð hefur samadhi og er fær um að greina milli sjálfsins og hinnar ytri tilveru, nái valdi yfir öllum sviðum tilverunnar og öðlist vitund, sem kalla mætti alvizku.

Frá okkar sjónarmiði virðast allir þessir hlutir ótrúlegir og ef sannir reyndust, yfirnáttúrlegir. En yogaheimspekin álítur þá eðlilega og útskýrir hvert einstakt fyrirbrigði, hvernig það er framkvæmt. Frá sjónarmiði hennar er ekkert til, sem kallazt getur yfirnáttúrulegt. Allt lýtur föstum ákveðnum lögmálum.

En aðeins lítil brot þessara eðlilegu lögmála náttúrunnar eru mönnum kunn.

Yoginn lítur því á undrun manna yfir þessum fyrirbrigðum svipuðum augum og faglærðir nútímamenn líta á undrun frumskógarmanns, sem kemur fyrsta sinn til stórborgar og horfir á kvikmynd, talar í síma, hlustar á útvarp eða sér bifreið, flugvél eða gufuskip. Í augum náttúrubarnsins er nútímatækni Vesturlanda engu smærri galdur en hin fornu vísindi austursins.

En allir þessir furðulegu hlutir eru þó yoganum aukaatriði. Þeir eru blóm, sem gróa utan brautar við leið hans til fullkomnunar. Hann getur beygt sig niður og lesið þessi blóm, ef hann vill, en sá, sem yfirgefur veginn vegna þessa gróðurs, hverfur fljótlega niður á við aftur og verður að hefja för sína að nýju.

Yoginn er því varaður við að beita kunnáttu sinni um of, sízt af öllu í hégómlegum og eigingjörnum tilgangi.

Einkum hér á hinum efstu stigum reynir á siðferðisstyrk yogans og þess vegna var lögð svo rík áherzla á hið fyrsta stig hans, yama, því að ef siðferðilega vanþroskaður maður öðlast mátt yogans, verður sá máttur honum eins og mistilteinninn í hendi blindingjans.

Jafnvel samadhi, æðsta stig hins áttfalda vegar, verður yoginn að hefja sig upp yfir. Ef hann gerir sig ánægðan með þau fríðindi, sem honum hafa þegar hlotnazt og sættir sig við að verða aðeins goði í fullsælu hinna æðstu himna, — lifir hann þar um árþúsundir,

en þegar karmaforða hans er eytt, hlýtur hann að falla aftur niður til mannlegra forlaga og hefja göngu sína á ný.

Lokatakmark yogaheimspekinnar er að hefja manninn algjörlega út fyrir öll takmörk mannlegrar reynslu og leysa öll bönd, sem binda hann við mannheima hinna þriggja veralda.

Fyrst þegar honum hefur tekizt að hefja sig upp yfir og segja skilið við samadhi birtist *atman* (hinn innri maður) einrátt í sínu eilífa eðli.

Þá er hring hinnar mannlegu þróunar lokið og ný tilvera tekur við.

# LJÓS ASÍU

*(Búddisminn)*

Í BORGINNI KAPILAVASTU, norður við rætur Himalajafjalla, fæddist fyrir meir en tvö þúsund og fimm hundruð árum spámaður, sem kallaður hefur verið „ljós Asíu". — Nafn hans var Siddhartha. — Síðar var hann kallaður Gautama Búdda. Köllun hans var að losa mannfólkið undan oki þjáninga sinna og vísa því veginn til betra og hærra lífs.

Í héraði hans (lítið eitt norður af Bihar) bjó bændaþjóð. Þessir bændur voru örsnauðir menn, þeir fátækustu af hinum fátæku á Indlandi. Undir brennandi sól gengu þeir berum fótum eftir viðarplóg sínum og erjuðu landið. — Þeir ræktuðu rís og sykurreyr. — Baðmullarklút, sem þeir vöfðu um lendar sér, áttu þeir einan fata. Þeir bjuggu í kofum, sem fléttaðir voru saman úr strái eða reyr og þéttaðir með leir og mykju. Sofið var á gólfinu. Rúm, borð eða stól þekktu þeir ekki. Sitjandi á gólfinu með krosslagða fætur neyttu þeir matar síns og notuðu aðeins guðsgafflana. Þegar vel áraði og hvorki flóð né þurrkar eyddu uppskerunni, gat

þetta fólk leyft sér að eta næstum fylli sína af sykurreyr, rís, grænmeti — og salti.

Þessir fábrotnu réttir voru stundum kryddaðir með gömlum þurrkuðum fiski, sem lyktað var af á máltíðum — að éta hann hafði almenningur ekki ráð á. — En þegar illa áraði og uppskeran brást, og það var næstum eins algengt og hitt, barði hungurvofan að dyrum og mannfólkið féll úr hor.

Það þekkti heldur enga vörn við mörgum og illkynjuðum sjúkdómum, sem hrjáðu þessar byggðir, nema þulur töframannsins. Dag og nótt brunnu líkeldarnir við fljótið, sem skolaði af náð sinni ösku þessara vesalinga til hafs.

En í þessum héruðum á Indlandi, þar sem mannfólkið jafnvel enn í dag á við sárustu örbirgð að búa, hefur landið fóstrað hina ríkustu menn. Bændurnir áttu ekki landið. Það var eign fárra manna og þessir fáu menn leigðu það bændunum og tóku í rentu helming eða þriðjung uppskerunnar, sem þeir síðan söfnuðu í sínar hlöður. Þessir auðugu landeigendur voru kallaðir *raja* eða *maharaja*, er þýðir konungur. Þeir eins og brahmanarnir, prestarnir, þeir æðstu af hinum fjórum stéttum hins gamla indverska þjóðfélags, voru vel efnum búnir og lifðu í allsnægtum og munaði.

Faðir Gautama var einn þessara auðugu landeigenda maha-raja („mikli konungur").

En unglingnum, sem reikaði undir greinum mangótrjánna í aldingarði föður síns og hlaut í vöggugjöf all-

an veraldlegan auð og hamingju, leið þó ekki vel. — Hann hafði séð bændurna vinna á ekrum föður síns, séð þá, konur þeirra og börn deyja hungurdauða, séð farsóttir hertaka byggðina og umkomulaus gamalmenni, sem enginn sinnti, ganga milli manna og betla sér mat, unz dauðinn batt enda á sult þeirra. Hann hafði séð ágirnd og hræsni prestanna, brahmananna, sem þóttust kenna fólkinu lífspeki, en tóku aðeins brauð þess. Hann hafði séð mannlegt umkomuleysi í þúsund myndum og í dekkri litum en Vesturlandabúann grunar, að hægt sé að finna á þessari jörð. Þess vegna hafa Vesturlönd e. t. v. aldrei skilið Gautama Búdda til fulls, hvað hann átti við, þegar hann talaði um þjáninguna.

Hinn ægilegi veruleiki þessa mannlífs lét unglinginn Gautama aldrei í friði, þótt hann ætti sjálfur við allsnægtir að búa. Þjáning þessa fólks fylgdi honum eins og vofa hvert sem hann sneri. — Stundum var andlit hennar ásakandi: Gautama, hvaða rétt hefur þú til að lifa í sællífi á nægtum þess brauðs, sem aðrir öfluðu og aðra skortir? — Ef aðrir voru dæmdir til hlutskiptis almúgamannsins, hví skyldi hann þá tilheyra yfirstétt, sem aðeins þyngdi byrðar þeirra? — En oftast var þó svipur hennar biðjandi: Gautama, hjálpa þú okkur. Gautama, er engin leið frá hörmungum okkar til betra lífs? Gautama . . .

Og Gautama yfirgaf kóngshöllina og aldingarðinn, einnig konu sína og barn. Hann var þá 29 ára að aldri.

Mannfólkið þjáðist. Hann varð að hjálpa því. Hin skrautlegu klæði sín gaf hann betlara, sem á vegi hans varð og klæddist sjálfur bómullarklút almúgamannsins. — Síðan hélt Gautama út í miskunnarlausa veröld fátæklingsins til þess að frelsa heiminn og losa manninn undan oki þjáninga sinna.

Hann leitaði fyrst á fund fræðimanna og spekinga, sem söfnuðu um sig hóp lærisveina og glímdu við gátuna um eðli hins yfirskilvitlega: Er veröldin eilíf? Er hún stundleg? Er hún ótakmarkanleg? Er sálin sama og líkaminn? Er hún annað en líkaminn? Lifir sá, sem þekkir Vedabækur, eftir dauðann? Er hann bæði dauður og lifandi eftir dauðann? Er hann hvorki dauður né lifandi eftir dauðann? Hinir vísu menn skeggræddu um allt þetta fram og aftur. Hver hélt fram sinni skoðun og hver studdist við sína fræðibók. Gautama hlustaði vandlega á tal allra þessara manna og kynntist í þaula öllum hinum margbreytilegu skoðunum og skoðanamun þeirra. — Síðan yfirgaf hann þá. Mannfólkið þjáðist, og köllun hans var að hjálpa því til betra lífs. Þessi heilabrot hjálpuðu engum. Auk þess komst hann að þeirri niðurstöðu, að tilgangslaust væri fyrir skynsemina að glíma við gátu hins yfirskilvitlega. Það þarf eyru til að heyra með! Ekkert annað líffæri getur komið í þeirra stað og skynjað hljóð. Á sama hátt þarf yfirskilvitlega andlega sýn til þess að kanna hið yfirskilvitlega. — Skynsemin getur ekki komið í hennar stað.

Allir þessir vísu og skriftlærðu menn minntu hann á

söguna um gömlu blindu mennina, sem deildu um sköpulag fílsins.

Og Gautama yfirgaf heimspekingana og hélt til Uruvelaskóga til að ígrunda þar í einverunni, hvaða leið væri til undan oki þjáninganna.

Á þessum eyðilegu slóðum lenti Gautama í hópi flóttamanna frá heimi veruleikans. Þetta voru næmgeðja menn, sem séð höfðu ömurleika og vonleysi mannlífsins og hugðust geta sloppið undan því yfir í annan og betri heim. Þeir höfðu krufið mannsálina og kannað starfsemi hennar. Niðurstaða þeirra var, að stormar mannlegra hvata og girnda sneru vindmyllum lífs og dauða og hjóli endurfæðinganna. Með því að lægja þessa storma og sigrast á hvötum sínum og girndum með meinlætalifnaði hugðust þeir fá frið, lausn undan oki þjáninganna og öðlast nirvana, sem í þeirra augum var eilíf paradís.

Gautama tileinkaði sér kenningar og reynslu meinlætamannanna og kynntist hugmyndum þeirra og vísindum nákvæmlega. Síðan varpaði hann því öllu fyrir borð. — Gautama var ekki á flótta frá veruleikanum. Hann var í sókn. Þessir menn hugsuðu aðeins um betri tilveru sjálfum sér til handa. Ef Gautama leitaði aðeins eigin hamingju, hefði hann aldrei yfirgefið hóglífi föðurhúsanna. Ef hann leitaði aðeins eigin hamingju, hefði hann ekki snúið aftur eftir að hann öðlaðist nirvana.

Tilgangur Gautama var ekki að frelsa sjálfan sig,

heldur meðbræður sína. Mannfólkið þjáðist og köllun hans var að vísa því veginn til betra lífs, en ekki að leita sinnar eigin hamingju og yfirgefa það síðan.

Eftir sex ára dvöl í Uruvelaskógum hélt Gautama til byggða. Hann var nú þrjátíu og fimm ára að aldri. Hann hafði gengið í gegnum mannlega reynslu, vaxið upp úr heimspeki og þrautkannað sjálfstamningu og vísindi meinlætamannsins. Hann hafði vaxið frá einfaldleika hins venjulega manns upp til margbreytileika heimsins — og síðan aftur vaxið upp úr honum upp til einfaldleikans aftur, að þessu sinni einfaldleika djúphyggjumannsins, hins sanna meistara.

Enn hafði Gautama að vísu ekki fundið veginn til hamingjunnar, en fylling tímans var í nánd. — Gautama át og drakk og endurheimti líkamshreysti sína, eftir þrautir meinlætalifnaðarins, sem næstum höfðu kostað hann lífið.

Hann settist að undir tré einu, sem síðan var kallað Bodhinanda. Hann sneri andliti sínu til austurs, þar sem sólin reis hvern morgun og strengdi þess heit að rísa ekki úr sæti, fyrr en hann hefði öðlazt sjálfsþekkingu.

Í sjö vikur sat Gautama undir greinum Bodhinanda og einbeitti hug sínum til hins æðsta máttar. Dagarnir komu og fóru og hver þeirra virtist færa hann litlu nær marki. En eins og skýjaþykkni, sem hylur sólarsýn, greiðist smám saman fyrir rísandi sól, unz geislar hennar brjótast skyndilega í gegn — eins brauzt sól hinnar

æðstu vitundar skyndilega í gegnum skýjaflóka hinnar lægri náttúru og Gautama varð uppljómaður af hinum innri veruleika. Hann varð Búdda. Hinn áttundi Búdda, sem gist hefur þessa jörð. Hann sá alla tilveruna og mannlífið í nýju ljósi. Allar hinar gömlu ráðgátur hugans hurfu og virtust meiningarlausar. Hér ríktu engar sorgir meir. Lífið var óumræðilega einfalt og gott og þó svo fjarskylt hinni gömlu veröld skynfæra og skynsemi. Þessi nýi veruleiki var fullur hamingju og friðar í stað stríðs og þjáningar. — Og vegurinn til þessa lífs var hverjum manni fær. Þessi hamingja gat orðið hvers manns eign.

Og Búdda lokaði til hálfs hliðum hinnar nýfundnu paradísar og hvarf aftur til jarðneskrar þjáningar til þess að vísa mannfólkinu inn á braut lífshamingjunnar.

Hann hélt fyrst til Uruvelaskóga til þess að hitta aftur félaga sína, meinlætamennina. Þegar þeir sáu hann nálgast, ræddu þeir um það sín á milli, að Gautama væri ekki lengur helgur maður, heldur hefði hann rofið eiða sína sem meinlætari og gefið sig á vald veraldlegs munaðar og óhófs í mat og drykk. — Þeir komu sér saman um að heilsa honum ekki og taka hann ekki aftur í sinn hóp. En þegar hann kom til þeirra, urðu þeir snortnir þeim mildu töfrum, sem honum fylgdu, og öll andúð þeirra hvarf. Þeir stóðu upp og fögnuðu honum sem gömlum vini.

Búdda skýrði þeim frá reynslu sinni, að hann hefði

fundið veginn til frelsunar. Með því að ástunda góðvild til alls hins skapaða, boðaði hann, hef ég öðlazt lausn. Það er vegurinn, sem liggur frá þjáningu til hamingju.

Og Budda talaði til þeirra hlýlega og tók að útskýra fyrir þeim villu og fánýti meinlætalifnaðarins. — Hinn uppljómaði, sagði hann, leitar ekki lausnar í meinlætalifnaði. Hann lifir ekki heldur í veraldlegum munaði. Hinn uppljómaði fer hinn gullna meðalveg, sem liggur milli öfganna tveggja, meinlætalifnaðar og gjálífis. Meinlætalifnaður skapar aðeins auknar þjáningar, en leiðir ekki til andlegs vaxtar. — Að hætta við kjöt og fisk, eða ganga nakinn eða krúnuraka höfuð sitt eða klæðast tötrum, eða bera ösku á líkama sinn eða færa guðinum Agni fórnir mun ekki hreinsa nokkurn mann, sem haldinn er fáfræði og villu.

Að lesa ritningarnar, færa prestunum gjafir og guðunum fórnir eða leggja á sig sjálfspyntingar eða öll þessi yfirbótaverk, sem unnin eru í sérhagsmunaskyni og von um endurgjald á himnum, getur ekki hreinsað manninn meðan hann er haldinn fáfræði og villu.

Reiði, ofdrykkja, þrjózka, trúhræsni, bakmælgi, öfundgirni, blekkingar, hroki og illvild gera manninn óhreinan, — ekki það að eta kjöt. Hinn gullni meðalvegur liggur milli hinna tveggja öfga. Sá vegur opnar augu manna, veitir skilning og frið. Hann leiðir til æðri þekkingar, til uppljómunar hugans — til nirvana.

Sá, sem fyllir lampa sinn með vatni, sér ekkert ljós.

Sá, sem reynir að kveikja eld úr fúaviði, nær engum árangri. Röng breytni leiðir ekki til farsældar. Aðeins sá, sem ekki er lengur í ánauð illra tilhneiginga, fullnægir þörfum sínum án þess að flekka hendur sínar. Það er skylda hvers manns að hirða vel um líkama sinn, efla hreysti hans og heilbrigði, því að án þess er torvelt að tendra lampa hinnar sönnu þekkingar og halda huganum sterkum og hreinum. Vatnið flýtur allt í kringum hinn hvíta lótus, en vætir ekki blöð hans. — Þetta er hinn gullni meðalvegur, sem liggur milli öfganna tveggja, meinlætalifnaðar og gjálífis.

Og Búdda tók að ræða við þá um þjáninguna og hvernig henni verður útrýmt með réttlæti, góðvild og friði. — Þjáninguna þekktu þeir allir vel og höfðu séð, hvernig allt nýtt líf er fætt blóðugt og með þrautum inn í þennan heim, hvernig dauðinn er fullur ógna og sársauka, hvernig elli og hrörleiki, sjúkdómar og skortur hrjá mannfólkið, og hvernig sorgir, örvænting og draumar, sem aldrei rætast, blanda sársauka í lífsbikar sérhvers manns.

En þjáningar mannfólksins eiga sér orsakir. Búdda, sem séð hafði hinn innsta veruleika, hafði einnig séð leiðina til að útrýma orsökum þeirra og þannig hefja manninn upp til nýrrar og fullkomnari tilveru.

Hinir fyrstu áfangar þessarar leiðar voru rétt hugsun, rétt tal og breytni. Hinir síðustu voru könnun hins innsta leyndardóms, sjálfsþekkingin. En bæði fyrstu og síðustu áfangar þessa vegar eru góðvild. Samúð með

mönnum og dýrum er fyrsta og síðasta orð í boðskap Búdda. Þessi samúð náði ekki til ákveðinni stétta eða hópa eingöngu, heldur til allra jafnt. Hún var það leiðarljós, sem eitt gat lýst manninum til hins fyrirheitna lands sannrar hamingju.

Hann skipti veginum í tíu áfanga. Eftir hinn tíunda er maðurinn orðinn Búdda.

Strax á hinu fyrsta stigi vinnur bodhisattvann (svo nefnist nemandi hins áttfalda vegar) eið að því að falla ekki eftir áttunda stigið fyrir freistingum himnaríkis og fullsælunnar, heldur halda áfram að taka þátt í baráttu mannkynsins og bera áfram sem stærstan skerf af hinum þungu örlögum heimsins, unz mannkynið allt hefur öðlazt lausn. Á þessu fyrsta stigi er nemandanum ætlað að slaka á böndum sérhyggju sinnar og auka samúð sína og skilning. Á næsta stigi, vimala (hreinleiki) vinnur hann jöfnum höndum að því að afla sér þekkingar og efla siðferðilegan styrkleika sinn. Á hinu þriðja stigi gerir hann alvarlega tilraun til að grafa upp sjálfur rætur síngirni sinnar, haturs og yfirsjóna og útrýma þeim einni af annarri. Allar eigingjarnar hvatir verða að víkja og samúð hans verður dýpri og víðtækari. Á þessu stigi vinnur hann sérstaklega að eflingu skynseminnar og rökréttrar hugsunar.

Fyrst á hinu fjórða stigi er nemandanum ráðlagt að nema stafróf hugleiðslunnar og hann heldur því námi áfram á hinu fimmta og sjötta.

Á hinu sjöunda stigi einbeitir hann sér að námi

þeirra fræða, sem gera hann sjálfan sem hæfastan fræðara til að vísa mannkyninu leiðina til lausnar, því að það er einkenni bodishattvans, að hann leitast við að bjarga öðrum jafnvel áður en honum er borgið sjálfum. Á áttunda stigi verður hann arhat og er fært að hverfa inn í fullsælu himnanna án þess að snúa aftur til hringrásar lífs og dauða. En hinn sanni bodhisattva sezt þar ekki að vegna hins forna eiðs síns, en snýr í þess stað til þeirra, sem verr eru settir, og tekst á hendur fórnarstarf í þágu framvindunnar. Á þessu stigi skynjar hann veruleikann, eða veröldina í sínu rétta eðli.

En ofar þessu eru tvö stig önnur, og eftir hið síðasta er lokatakmarkinu náð og bodhisattvann er orðinn *búdda*. Einnig eftir það stig verður hann að halda starfi sínu áfram fyrir veröldina. Þess vegna er í sannleika ekki til neitt nirvana fyrir bodhisattva eða *búdda*.

Eitthvað á þessa leið voru viðræður meistarans við meinlætamennina í Uruvelaskógum. Þeir gerðust fyrstu nemendur hans og fylgdu honum. — Og þessi kynlegi hópur yfirgaf einveru skógarins og hélt til byggða til þess að hefja upp raust sína gegn hinni gömlu stéttaskiptingu, sem gerði mannfólkið að herrum og þjónum, ríkum og fátækum, forréttindamönnum og umkomulausum vesalingum — og kenna mönnum rétta breytni, sem leiddi frá þjáningu til hamingju.

Þannig hófust trúarbrögð, sem síðan fóru sigurför um allan hinn austræna heim og eru enn í dag að nafninu til fjölmennustu trúarbrögð veraldarinnar.

Hina bókstaflegu kenningu Gautama Búdda þekkir enginn. Fræðsla hans var munnleg og skráð af nemendum hans löngu eftir hans dag.

Bókmenntir búddismans sem samdar eru af mörgum og ólíkum höfundum túlka kenningu Gautama á mismunandi vegu og stangast á í einstökum atriðum, þó að kjarni þessara bókmennta kunni að vera sá sami.

Talið er, að andi búddismans sé bezt túlkaður í tveim ritum, bókinni Dhammapada, sem fjallar um siðfræði búddismans, og Surangama Sutra, sem fjallar um heimspeki hans.

Búdda, sem sjálfur var, eins og áður er sagt, andvígur ófrjóum heimspekilegum rökræðum, hafði þar lítið til málanna að leggja. Það kom þó ekki að sök, því að aðrir urðu þar til að fylla í eyðurnar. — Á Indlandi spruttu upp margir heimspekiskólar, sem allir voru sagðir byggjast á kenningu Búdda. Og utan Indlands hafa vestrænir prófessorar í heimspeki gert eljusamar tilraunir til að útskýra það, sem þeir kalla heimspeki Gautama Búdda. Eins og vænta mátti hefur það aftur leitt til hinna sundurlausustu skoðana, einkum á eðli nirvana, hugmyndinni um guð og mannssálina. — Af virðingu bæði fyrir prófessorunum og meistaranum skal rökræðum þeirra sleppt hér. — Í þess stað skulu hér aðeins tilfærðir nokkrir staðir úr ritinu Dhammapada og veita þeir e. t. v. bezta innsýn inn í eðli hins sanna búddisma.

— — —

Allt, sem við erum, er afleiðing þess, sem við höfum hugsað. Það er byggt á hugsunum og byggt úr hugsunum. Ef maðurinn talar og breytir af illum hug, fylgir þjáningin honum eins og hjólið, sem fylgir fæti uxans, sem vagninn dregur.

Allt sem við erum, er afleiðing þess, sem við höfum hugsað. Það er byggt á hugsunum okkar og það er byggt úr hugsunum okkar. Ef maður talar og breytir af góðum hug, fylgir hamingjan honum eins og skuggi manns, og yfirgefur hann aldrei.

„Hann móðgaði mig.“ — „Hann barði mig.“ — „Hann beitti mig brögðum.“ — „Hann rændi mig.“ — Frá þeim, sem fóstrar ekki þessar hugsanir, hverfur hatrið. Hatur verður ekki sigrað með hatri, heldur með góðvild. — Þetta eru gömul sannindi. Heimurinn veit ekki, að við hljótum öll að mætast að lokum. Þeir, sem það vita, hætta nöldri sínu.

Sá sem leitar aðeins gjálífis og hefur ekki taum á geði sínu, kann sér ekki hófs og er latur og veiklundaður, fellur vissulega fyrir Mara (freistaranum) eins og fúið tré fellur í stormi.

Sá sem lifir ekki í gjálífi, hefur taum á geði sínu, kann sér hófs og er einlægur og sterkur, fellur ekki fyrir Mara frekar en fjallið, sem stendur af sér storminn.

Sá, sem leitar ekki gjálífis, hefur taum á geði sínu, gætir hófs og er einlægur og sterkur, hann getur Mara ekki brotið niður frekar en stormurinn getur brotið bergið.

Sá, sem klæðist hinu gula klæði án þess að hafa hætt meingjörðum sínum, hefur ekki taum á geði sínu og ber ekki virðingu fyrir sannleikanum, — hann er ekki verður hins gula klæðis. (Hempu prestsins í búddiskum sið.)

En, sá sem hefur hætt meingjörðum, stendur föstum fótum á vegi manndáða, hefur taum á geði sínu og virðir sannleikann, hann er verður hins gula klæðis.

Sá, sem heldur sannleikann ósannindi og sér svart í hvítu, kemst ekki til sannleikans, en fylgir sínum eigin hégóma.

Sá, sem kennir sannleikann, þegar hann mætir honum, og kann skil á svörtu og hvítu, kemst til sannleikans og fylgir hinni háu köllun.

Eins og regnið drepur gegnum illa tyrfðan kofa seitla illar ástríður inn í reikulan huga.

Eins og regnið fellur af traustu þaki, komast illar ástríður ekki að í huga þess, sem elur góðar hugsanir.

Meingjörðamaðurinn mun þjást í þessum heimi. Hann mun þjást í þeim næsta. Hann mun þjást bæði þessa heims og annars. Hann þjáist, þegar afleiðingar verka hans sækja hann heim.

Góðum manni mun vel farnast í þessum heimi. Hamingjan bíður hans í þeim næsta. Hamingjan fylgir honum bæði þessa heims og annars. Hann öðlast hamingju, þegar hann uppsker ávexti verka sinna.

Meingjörðamaðurinn þjáist í þessum heimi og hann mun þjást í þeim næsta. Hann þjáist, þegar hann hugs-

ar um hið illa, sem hann hefur gert. Hann þjáist, þegar hann gengur hinn myrka veg.

Góður maður er hamingjusamur þessa heims og annars. Hann er hamingjusamur, þegar hann hugsar um hið góða, sem hann hefur gert, og hann er hamingjusamur, þegar hann gengur inn til hins mikla fagnaðar.

Hirðulaus maður, sem kann ritningar, en breytir ekki eftir þeim, á enga hlutdeild í bræðralagi okkar. Hann er eins og smali, sem telur annars manns fé.

Sá, sem fylgir lögmáli lífshamingjunnar, jafnvel þó að hann þekki ekki bókstaf hennar, er laus undan illum ástríðum, hatri og fégræðgi, á sanna þekkingu og einlægni hjartans. Sá, sem á engar síngjarnar óskir þessa heims eða annars, hann á hlutdeild í þessu bræðralagi.

— — —

Hver mun sigra heiminn? Hver mun sigra dánarheima og konung þeirra? Hver mun sigra veröld guðanna? Hver mun finna Veginn og lesa hið rétta blóm? Nemandi hins áttfalda vegar skal sigra allt þetta, finna Veginn og lesa hið rétta blóm.

Dauðinn skolar burt hinum veiklunduðu líkt og flóð skolar burt sofandi þorpi.

Dauðinn skolar burt hinum veiklunduðu, sem aðeins safna skrautlegum blómum, áður en munaðargirni þeirra er mettuð.

Eins og býfluga safnar hunangi og hverfur án þess að vinna blóminu mein, lit þess eða ilman, þannig skal maðurinn lifa í þessum heimi. Hann skal huga vel,

ekki að yfirsjónum annarra, heldur sínum eigin yfirsjónum.

Líkt og fögur blóm í mörgum litum eru hin fánýtu orð þess, sem ekki breytir eftir þeim.

Eins marga blómsveiga og binda má úr blómum, svo mörg góð verk getur dauðlegur maður unnið, eftir að hann er borinn inn í þennan heim. Blómailmur berst ekki móti vindi, en ilmur góðra hugsana berst á móti öllum vindum.

Sá ilmur, sem berst frá lótusblómi og sandalviði, nær skammt, en ilmur góðra hugsana nær himni guðanna og hins æðsta.

Því fólki, sem elur með sér góðar hugsanir, á einlægt hjarta og sanna þekingu, getur Mara aldrei unnið mein.

Eins og hvít lilja, sem grær á sorphaug veraldarinnar, skal nemandi hinns sanna *búdda* lifa í þessum heimi.

— — —

Það eru ekki til neinar þjáningar fyrir þá, sem lokið hafa för sinni og varpað öllum áhyggjum fyrir borð. Þeir eru frjálsir og lausir úr öllum fjötrum. Þeir verða ekki gamlir í heimabyggð sinni. Eins og svanir, sem hverfa af tjörn sinni, yfirgefa þeir hús og heimili. Þeir safna ekki veraldarauði og lifa ekki eftir neinum viðurkenndum reglum, en eiga sér hið sanna frelsi. Leiðir þeirra er jafn erfitt að skilja og fugla himinsins. Hugir þeirra eru eins og veltamdir hestar, sem stjórnast eingöngu af taumum ökumannsins (sjálfsins).

Lausir við hroka og lausir við hungur fylgja þeir köllun sinni og eru þolinmóðir eins og jörðin. Hugsun þeirra er hljóðlát, hógvær eru orð og verk þeirra, sem öðlazt hafa hina sönnu þekkingu.

— — —

Eitt orð, sem gerir þann, er á hlýðir, hljóðan, er betra en þúsund ómerk orð.

Betra en kvæði, sem gert er úr þúsund ómerkum orðum, er eitt orð, ef það gerir þann sem á hlýðir hljóðan. Þó höfð séu yfir hundrað kvæði gerð úr ómerkum orðum eru þau ekki eins góð og eitt orð hins sanna lögmáls.

Meiri sigurvegari en sá, sem sigrað hefur þúsund menn þúsund sinnum, er sá, sem sigrað hefur sjálfan sig. Að sigra sjálfan sig er meiri sigur en sigra heiminn. Betra er að sýna þeim, sem öðlazt hefur þekkingu, virðingu aðeins eina stund, en færa guðunum fórnir í hundrað ár.

Allt, sem fórnað er í þessum heimi í hagsmunaskyni, er einskis virði.

Betra er að hafa lifað einn dag sem vitur og gjörhugull maður en lifa í hundrað ár í fáfræði og hégóma.

Betra er að lifa einn virkan dag en eyða hundrað árum í leti og sinnuleysi.

Betra er að lifa einn dag og skynja eilífðina en hundrað ár án andlegrar sjónar.

— — —

Allir menn óttast refsingu. Allir menn óttast dauðann. Mundu, að þeir eru eins og þú. Taktu þess vegna ekki líf og vertu ekki valdur að dauða. Sá, sem leitar sinnar eigin hamingju, en refsar öðrum eða jafnvel er valdur að dauða þeirra, sem einnig þrá hamingju, mun ekki finna neina hamingju eftir dauðann.

Sá sem leitar eigin hamingju og refsar ekki öðrum og er ekki valdur að drápi mun finna hamingju eftir dauða sinn.

Talaðu ekki hörkulega til nokkurs manns. Þeir, sem talað er til, munu svara þér í sömu mynt. Reið orð valda sársauka. Högg fyrir högg vinna þér mein.

Ef þú svarar engu, ertu á réttri leið, því að reiðin er upprætt úr eðli þínu.

Eins og smali, sem rekur fé til réttar, smala elli og dauði mannfólkinu.

Glópurinn veit ekki, hvenær hann hefur unnið ill verk, en illvirki meingjörðamannsins brenna hann eins og eldur.

Sá, sem veldur saklausu og meinlausu fólki þjáningar, mun loks reyna eitt af þessum tíu afleiðingum þess. Hann mun reyna á sjálfum sér miklar þjáningar, missi, líkamsmeiðsli, þungbæra sorg eða hann missir vitið, ógæfu, sem kemur frá yfirvöldunum, þunga ákæru, missi ættingja sinna eða eignatjón. Eldur mun brenna hús hans, og þegar líkamanum er eytt, gistir hann lága staði.

Sá, sem grefur brunn, leiðir vatnið þangað, sem hann

vill. Járnsmiðurinn hamrar örvar sínar og trésmiðurinn beygir við sinn. Þannig móta góðir menn sjálfa sig ráða sjálfir framtíð sinni.

— — —

Við höfum fundið hamingjuna. Við hötum ekki þá, sem hata okkur. Meðal manna, sem eru fullir haturshuga, dveljumst við lausir við hatur.

Við höfum fundið hamingjuna. Lausir við ágirnd lifum við meðal hinna ágjörnu.

Við höfum fundið hamingjuna. — Við köllum ekkert eign okkar, en eins og hinir björtu guðir nærumst við á hamingjunni.

— — —

Góða menn má þekkja jafnvel úr fjarlægð eins og hinn hvíta tind jökulsins.

Vondir menn eru eins og örvar, sem skotið er út í nóttina.

— — —

Þann, sem kann að halda á taumum geðsmuna sinna, kalla ég hinn sanna ökumann. — Aðrir halda aðeins lausum taumi.

Hann mun sigra reiði með góðvild. Hann mun sigra illt með góðu. Hann mun sigra ágirnd með örlæti og ósannindamanninn með sannleika. Líkt og stríðsfíll, sem verður fyrir örvarskoti, lætur vitur maður ekki á sig fá ásakanir manna, en svarar þeim með þögn.

— — —

Maður er ekki lærður vegna þess, að hann tali mikið. Þann, sem er hófsamur, laus við hatur og ótta, hann köllum við lærðan.

Maður verður ekki brahmani (prestur) vegna hárfléttu sinnar, vegna ættar sinnar eða fæðingar. (Brahmanar tóku þennan titil að erfðum. Þeir eru æðsta stétt hins gamla indverska stétta-þjóðfélags, sem búddisminn er fyrsta uppreisnin gegn.) — Aðeins sannleiki og réttlæti gerir manninn brahmana. Kallið hann ekki brahmana vegna uppruna hans eða móður hans. — Í raun og veru er hann fullur hroka og hann er auðugur. — En fátækan mann, sem er laus við ágirnd, hann kalla ég brahmana.

— — —

Margir menn, sem hylja herðar sínar með hinu gula klæði, eru hvatvísir og ágjarnir. Slíkir menn fara til lágra staða vegna illra verka sinna.

— — —

Maður er ekki mikill, vegna þess að hann treður aðra undir hæl sínum.

Aðeins sá, sem hefur samúð með öllu sem lífsanda dregur, — aðeins sá einn er mikill.

# HVAÐ ER NIRVANA?

MEISTARI BÚDDA kennir, að hverjum manni sé í sjálfsvald sett að losna undan oki þjáninga og dauða og öðlast æðstu gæði mannlegs lífs, sem indversk heimspeki kallar *nibbana* á hinu gamla máli pali og *nirvana* á sanskrít.

Þetta ástand, *nirvana,* hefur orðið heimspekingum óþrjótandi umræðuefni og hver heldur þar fram sinni skoðun. — Sá einn, sem þöglastur er og ófúsastur að ræða þennan djúpa leyndardóm, er sá, sem þekkti hann betur öðrum mönnum, sjálfur meistarinn Búdda. Hann, sem sjálfur lifði nirvana, skildi, að tilgangslaust var að reyna að gefa blindum mönnum, sem aldrei höfðu séð neitt ljós, hugmyndir um liti, — betra að reyna að kenna þeim, hvernig þeim var sjálfum unnt að öðlast sýn —. En blindir menn sætta sig ekki við að geta ekki þekkt heim sjónarinnar með nefi sínu og eyrum!

Þegar menn heyra um eitthvað, sem liggur utan reynslu og skynjunar venjulegra manna, viðurkenna þeir ekki vanmátt sinn til að skilja hugmyndina réttilega, heldur viða þeir að sér reka úr fjörum fræða

sinna og smíða úr honum hina nýju hugmynd sína, — nákvæmlega á sama hátt og sá, sem aldrei hefur notið sjónar, reynir með tón og snertingu að skapa sér hugmyndir um hvítt og blátt.

Og vegna þess að meistarinn þagði, urðu aðrir að tala og útskýra. Svo margt hefur nú verið skrifað um nirvana, að í leit okkar í gömlum bókum og nýjum getum við a. m. k. rekizt á tuttugu mismunandi hugmyndir eða kenningar um, hvað nirvana sé.

En svo undarlegt sem það þó kann að virðast, hefur aðeins ein þessara hugmynda — sennilega sú fjarstæðasta — náð verulegri útbreiðslu á Vesturlöndum.

Schopenhauer er sagður hafa lesið Upanishada — ekki á frummálinu að vísu — heldur latneska þýðingu, sem gerð var eftir persneskri þýðingu úr frummálinu, sanskrít. — Þessi frægi og áhrifamikli heimspekingur miðlaði síðan öðrum þjóðum Vesturlanda af nægtum þekkingar sinnar á indverskri heimspeki. — Schopenhauer skildist, að nirvana þýddi dauði, útslokknun og endi allrar tilveru; að lífið væri þjáning, sem aðeins dauðinn væri lækning á. Og þennan dauða hélt Schopenhauer, að Indverjar kölluðu nirvana.

Prófessor Oldenberg leyfir sér ekki að hafa aðra skoðun en hinn frægi heimspekingur nágrannalandsins. Rhys Davids er einnig sama sinnis. Hún segir m. a.: „Nirvana búddismans merkir einfaldlega dauði." — Og Dahlke tekur í sama streng: „Aðeins samkvæmt kenningu Búdda er lausnin undan þjáningunni nei-

kvæð, en ekki jákvæð hugmynd í líki himneskrar dýrðar."

Allir þessir víðþekktu fræðimenn Vesturlanda halda og hafa kennt öðrum að halda, að nirvana væri neikvæð hugmynd, sem þýddi útslokknun lífslampans og náttmyrkur og tóm dauðans.

„Það, sem ég er ekki, það, sem er ekki kenning mín, er ég ásakaður um," er haft eftir Gautama Búdda jafnvel meðan hann sjálfur lifði, og má í þessum ummælum sjá, hve misskilningur manna á kenningu þessa meistara hefur byrjað snemma. — Hvernig gat líka Búdda, sem sjálfur *lifði* nirvana þrjátíu og fimm ára að aldri og dvaldist eftir það 45 ár á jörðinni til að fræða menn um rétta breytni, sem leiddi til hinnar æðstu hamingju, — hvernig gat hann kennt, að nirvana merkti *dauði*?

Ekki má þó halda, að allir fræðimenn Vesturlanda hafi gert sig seka um að endurtaka þennan einfalda skilning Schopenhauers.

Max Müller segir t. d. eftir kerfisbundna rannsókn og nákvæma leit í fornum bókum, sem fjalla um kenninguna um nirvana. „Þar er ekki að finna eina einustu setningu, sem réttlætir þá kenningu, að nirvana þýði dauði." — Og undir það taka þeir indverskir fræðimenn, sem handgengnastir eru þessum fræðum.

Búdda kennir, að hin lægri tilvera líði undir lok og hverfi mönnum, þegar nirvana er skynjað. Sá heimur, sem þeim opnast, er að vísu sá gamli heimur, en séður

í nýju ljósi, — heimur, sem skynsemi manna fær ekki skilið fyrr en innsæi mannsins hefur náð fullum þroska. Þannig er nirvana hvarf hinnar lægri náttúru og birting annarrar og hærri, líkt og stjörnur, sem virðast hverfa, þegar nóttinni lýkur og nýr dagur rennur. Stjörnurnar hverfa ekki í raun og veru, þegar sólin kemur upp, — við sjáum þær aðeins ekki lengur, vegna þess að annað ljós verður þeim bjartara.

Á sama hátt hverfur veröldin ekki heldur í raun og veru — hún breytist aðeins í vitund þess manns, sem lifir nirvana. — Hann skynjar þá hið sama eðli tilverunnar og lífsviðhorf hans er eilíflega breytt. En þó að Búdda á sama hátt og Upanishadar vari menn við þeirri villu að reyna að lýsa nirvana, hafa margir gerzt brotlegir við það boðorð. — Öldungurinn Nagasena segir t. d. um nirvana: „Þar hefur maðurinn engar þarfir meir, heldur engar langanir. Þar vaxa blóm hreinleikans og hins sanna lífsskilnings. Nirvana líkt og fæða viðheldur lífinu og bindur enda á hrörnun og dauða. Líkt og fæða eykur það styrk manna, og eins og fæða er lind fegurðarinnar, eins er nirvana lind hinnar himnesku fegurðar. Nirvana er óskapað eins og rúmið og eins og það hvorki eldist né deyr, hverfur né endurfæðist. Nirvana er heimurinn í sinni fullkomnustu mynd. Líkt og óskatréð uppfyllir það allar óskir manna. Það vekur gleði og er fullt birtu."

Þannig lítur öldungurinn Nagasena á nirvana. Í hans augum er það ekki útslokknun eða dauði, heldur

hið fullkomnasta stig mennskrar tilveru. Í Buddaghosa er nirvana á sama hátt lýst sem raunverulegri tilveru. Þar er aðeins bundinn endir á hatur, ótta, reiði og aðrar lægri hvatir manna og langanir, þar sem langanir eru til aðeins þar, sem menn eiga óuppfylltar óskir. — En nirvana verður aðeins lýst með neikvæðum setningum. Það er ekki þetta. Það er ekki hitt.

Í Sarvastivadin er nirvana talið hámark mannlegrar tilveru, þar sem maðurinn hefur náð fullkomnun og er laus undan löstum og þjáningum og allar þrár manna eru uppfylltar.

Sarvastivadin fjallar um hin þrjú algildu sannindi (asamskrta dharma), sem eru sögð kjarni nirvana og verða aldrei sögð með orðum, þar sem orð geta aðeins lýst hinu takmarkaða, en ekki hinu algilda. Þessi þrjú sannindi eru sögð mynda þríhyrning hins raunverulega. Þau verða aðeins skynjuð með innsæi.

Af þessum orsökum geta hugmyndir heimspekinganna aldrei gefið mönnum raunhæfan skilning á nirvana, því að þar verður að sögn hver að sjá með sínum eigin augum. Þangað til verða mönnum hlið hins dýpsta leyndardóms lokuð — og tilraun skynseminnar til að takmarka hið ótakmarkanlega, getur aldrei komið í stað sannrar þekkingar.

Loks skal hér tilfærður kafli tekinn upp úr Lankavatara Sutra, og er hann af ýmsum mönnum á Austurlöndum talinn eitt það bezta, sem um nirvana hefur verið skrifað.

„Þá sagði Mahamati við meistarann Búdda. — „Seg þú okkur, — hvað er nirvana?“

Og Búdda svaraði: „Mahamati, orðið nirvana er notað í mörgum mismunandi merkingum af ólíkum mönnum. Þessum mönnum má skipta í fjóra flokka. Fyrst eru þeir, sem þjást og óttast þjáninguna, og leita því nirvana. Þá eru til heimspekingar, sem reyna að skilgreina nirvana. Í þriðja lagi er til viss tegund nemenda, sem hugsa um nirvana í sambandi við sína eigin sáluhjálp. — Og loks eru búddarnir og það, sem þeir kalla nirvana.

Þeir, sem þjást og óttast þjáninguna, hugsa um nirvana sem undankomu og endurgjald. Þeir ímynda sér, að nirvana sé sama og eyðing skynfæranna og hugans. — Þeir vita ekki, að hugurinn í sinni víðtækustu merkingu og nirvana er eitt — og að þessa veröld lífs og dauða er því ekki hægt að greina frá nirvana. Þessar fáfróðu sálir tala um mismunandi leiðir til frelsunar í stað þess að hugleiða hið ótakmarkanlega eðli nirvana. Þeir þekkja ekki eða vilja ekki þekkja kenningar búddanna (Gautama Búdda er sagður hinn 8. búdda) og halda sér því fast við þá hugmynd, að nirvana sé utan þess, er séð verður með huganum, — og halda þannig í blindni áfram að hringsnúast með hjóli lífs og dauða.

Hinar margvíslegu hugmyndir heimspekinganna um nirvana eiga sér í raun og veru engan stað í veruleikanum. — Sumir heimspekingar halda, að Nirvana verði fundið, þegar hugarstarfseminni lýkur, vegna þess að

þau öfl, sem byggja upp einstaklingseðlið og veröld þess, hætti starfsemi sinni þarmeð, — eða að nirvana verði fundið, ef menn afneiti veröldinni og fallvaltleik hennar. Sumir halda, að nirvana sé ástand án allrar vitundar um fortíð og nútíð, líkt og þegar lampi þornar, eða þegar sæði er brennt, eða þegar eldur slokknar, vegna þess að eldsneytið þrýtur. Þetta er skýrt af heimspekingunum sem endir allrar sundurgreiningar. — En þetta er ekki nirvana, því að nirvana er ekki dauði eða tóm.

Og enn eru heimspekingar, sem útskýra sáluhjálp líkt og hún væri aðeins fólgin í að stöðva sundurgreiningu hugans — eins og vindur, sem hættir að blása — eða eins og þegar menn með sjálfstamningu hætta að greina milli þekkjandans og hins þekkta — eða losa sig við hugmyndina um varanleika og fallvaltleika eða kasta fyrir borð hugmyndum sínum um gott og illt eða sigra girndir sínar með þekkingu. — Í þeirra augum er nirvana sáluhjálp.

Sumir, sem sjá þjáninguna í heimi formsins, óttast hugmyndina um form og leita því hamingju í heimi formleysunnar. — Sumir segja, að með því að kanna eðli einstaklinga og lífsins í heild sinni megi glögglega sjá, að engin eyðing sé til og að allt í tilverunni sé eilíft. — Og þessa eilífð kalla þeir nirvana. — Aðrir sjá eilífðina í þeirri hugmynd um nirvana, að það sé samruni einstaklingssálarinnar við heimssálina. — Enn aðrir skoða alla hluti sem kraftbirtingu þess guðdóms,

sem allt snýr til að lokum. Sumir halda, að tilveran sé í eðli sínu tvennt, efni og andi, sem verki hvort á annað, og til þessara tengsla eigi allir hlutir rót sína að rekja. Sumir halda, að veröldin skapist af lögmáli orsaka og afleiðinga og engin önnur orsök sé þar nauðsynleg. Aðrir halda, að Ishwara (guð) skapi alla hluti að vild sinni.

Með því að binda sig við allar þessar heimskulegu hugmyndir losna þeir aldrei af svefnmóki sínu, og þeir halda svo, að þetta svefnmók sé nirvana.

Þá eru þeir, sem halda, að nirvana sé sá heimur, þar sem hinn innri maður ræður ríkjum óhindraður af öllum og öllu öðru. — Og þar ríki hann eins og marglitt stél páfuglsins eða þúsundfleta kristall — eða broddur þistilsins. Sumir segja, að Veran sé nirvana. Aðrir segja, að Ekki-Veran sé nirvana. Og enn eru aðrir þeirrar skoðunar, að ekki sé rétt að greina milli nirvana og tilverunnar. Sumir halda, að tíminn sé hinn mikli skapari, og að eins og upphaf heimsins sé háð tímanum, halda þeir, að nirvana sé tíminn. Sumir halda, að nirvana birtist, þegar allir hafa tileinkað sér hin tuttugu og fimm sannindi eða þegar kóngurinn tekur að ástunda hinar sex dyggðir. — Og til eru kennimenn, sem hyggja að nirvana sé að komast til paradísar.

Þessi sjónarmið, sem hægt er að finna misjafnlega vel túlkuð hjá heimspekingunum, eru ekki í samræmi við rökrétta hugsun, og vitrir menn geta ekki aðhyllzt þau.

Þeim er öllum sameiginlegt að líta á nirvana í einhvers konar orsakasamhengi við heim sinnar veraldlegu reynslu. Heimspekingarnir smíða sér líkneski af nirvana úr takmörkunum sínum. En þar, sem ekkert upphaf er til og ekki heldur neinn endir —, hvernig getur þar verið um nokkrar takmarkanir að ræða? Hver heimspekingur, sem treystir sinni eigin fræðibók og sækir þangað skilning sinn, syndgar gegn sannleikanum, því að sannleikurinn er ekki þar sem hann heldur.

Með öllu þessu raskar hann aðeins sálarró sinni — og þar sem hann getur ekki fundið nirvana með heimspekilegum heilabrotum, verður hugur hans enn ruglaðri, og því ruglaðri, sem hann verður sjálfur, þeim mun ruglaðri gerir hann aðra menn.

Hvað viðvíkur hugmyndum þeirra nemenda og meistara, sem halda sér fast við, að nirvana sé hinn innri maðurþ eirra og reyna að finna hann með því að einangra sig frá umheiminum, er hugmynd þeirra sú, að nirvana sé eilíf dýrð líkt og sú hugljómun, sem nefnd er samadhi. — En hún er fyrir þá eina, — ekki meðbræður þeirra. Þeir sjá, að heimurinn er skapaður af huganum og að allar hugmyndir eru starfsemi hans. Þess vegna höggva þeir á bönd sín við samfélagið og iðka margs konar andlegar íþróttir og leita í einveru sinni sjálfþekkingar — hins æðsta vísdóms. Þeir komast upp á hið sjötta stig og ná samadhi. En þar sem þeir eru ekki lausir við eigingirni, nær hugarfarsbreytingin ekki til hins dýpsta eðlis og þess vegna verða þeir ekki

óháðir hugarstarfseminni og eru enn á valdi þeirra afla, sem skapa hugsanavenjur. Með því að halda sér fast við samadhi fara þeir til síns nirvana. En það er ekki nirvana búddanna. Þeir hafa fallið í strauminn og verða fyrr eða síðar að snúa við til veraldar lífs og dauða.

Þá sagði Mahamati við meistarann Búdda: „Þegar bodhisattva (verðandi Búdda) fórnar sinni eigin hamingju til að hjálpa öðrum, verða þeir eitt með öllu, sem lífsanda dregur. Þeir geta sjálfir verið hreinir, en hið illa er enn við líði í öðrum mönnum.“ — „Seg oss, Búdda, hvaða vissu fá þá bodhisattvar fyrir nirvana. — Og hver er þeirra nirvana?“

Búdda svaraði: „Mahamati, sú sönnun er ekki stærðfræðilegs eða rökfræðilegs eðlis. Þeim er ekki gefin fullvissa hugans, heldur fullvissa hjartans. Sú fullvissa kemur, þegar innsæi opnast með því að ryðja hindrunum hvatanna úr vegi, yfirstíga hindranir þekkingarinnar með því að gera hana sanna og leysa upp sérhyggju einstaklingseðlisins. Þegar hin dauðlega vitund hættir sundurgreiningu sinni, slokknar lífsþorstinn, kynhvötin hverfur, fróðleiksþorstinn er ekki lengur til, ekki heldur eilífðarþráin. Þegar þessi fjórfaldi þorsti slokknar, deyr máttur vanans til að endurnýja sig, — og þegar þessi máttur vanans er brotinn á bak aftur, hverfa rúnir lasta og þjáninga af andliti lífsins. Bodhisattvann öðlast þá sjálfsþekkingu, en hún er sú sönnun, sem hjartanu er gefin.

Til eru bodhisattvar hér og í öðrum heimum, sem af einlægni helga sig köllun sinni, en geta þó ekki gleymt dýrð samadhi og frið nirvana — sjálfum sér til handa. Kenningin um hið algerða nirvana er því birt samkvæmt leyndri ráðstöfun, vegna þeirra, sem ennþá binda sig við hugmyndina um nirvana — aðeins handa sjálfum sér, svo að þeir fyllist löngun til að einbeita sér að þróun lífsins og frelsun allra lifandi vera. Heimsfræðararnir boða ákveðnar kenningar um nirvana í samræmi við þær aðstæður, sem fyrir hendi eru á hverjum tíma og uppörva með þeim hina hugdeigu og eigingjörnu. Til þess að snúa hugsunum þeirra frá þeim sjálfum og til að hvetja þá til dýpri samúðar og einlægari fyrirhyggju fyrir öðrum er þeim gefin framtíðarfyrirheit af mannkynsfræðurunum, en ekki af búddum sannleikans (Dharmata Budda).

Þau lög, sem eru hin æðsta vizka, drottna í ríki Dharmata Budda. Bodhisattvum á sjöunda og áttunda stigi veitir Dharmata Budda yfirskilvitlegan skilning og þeim er sýnd leiðin, sem þeir eiga að fylgja. Eftir hina óskiljanlegu ummyndun vilja og persónuleika Bodhisattvans, öðlast hann fullkomna þekkingu á hinum æðsta vísdómi. Hann lifir þá ekki lengur sjálfum sér, en það líf, sem hann lifir eftir það, er líf búddans, alheimslegt líf eins og það birtist honum eftir ummyndunina. Í ljósi þessa æðsta vísdóms sér bodhisattvann, að fyrir hinn sanna búdda er ekkert nirvana til.

„Dauði" búddans, sem kallaður er hinn voldugi

Parinirvana, er raunar hvorki eyðing né dauði. Ef svo væri, fylgdi honum ný fæðing og áframhaldandi hringrás endurfæðinganna. Ef um eyðingu væri að ræða, væri sú eyðing í sjálfu sér verknaður, sem einhver afleiðing hlyti að fylgja — en svo er ekki. Hvorki er þessi „dauði" eyðing né lausn né eitthvað, sem maður öðlast — og þá næst þetta stig ekki fyrirhafnarlaust. Hann hefur enga sérstaka þýðingu og er ekki heldur þýðingarlaus — en fyrir búddana er ekkert nirvana til.

Nirvana búddanna er þar, þar sem það er viðurkennt, að ekkert sé til nema það, sem hugurinn sér sjálfur. Nirvana er þar, sem menn skilja eðli hugans og segja skilið við tvíhyggju skynseminnar. Nirvana er þar, sem hugarstarfsemin með allri sinni sundurgreiningu, ófrelsi, græðgi og eigingirni hefur endanlega orðið að þoka. Nirvana er þar, sem rökfræðin er orðin haldlaus og ónóg og ekki lengur notuð. Þar sem menn láta sér jafnvel á sama standa um hugmyndina um sannleikann, vegna þess að hún veldur aðeins ruglingi. Þar sem menn hafa sagt skilið við hinar fjórar staðhæfingar og sjá með innsæi sínu beint inn í hús raunveruleikans. Nirvana er þar sem hinar tvöföldu ástríður hafa fjarað út, þar sem hinum tvöföldu hindrunum er rutt úr vegi og hin tvöfalda óeigingirni er af alhug viðurkennd. Nirvana er þar, sem ummyndunin hefur náð dýpstu eðlisrótum mannsins og veitt honum fullan skilning á sjálfum sér og lífinu. Það er nirvana búddanna.

Í nirvana fer bodhisattvann upp stig af stigi. Með hjálp búddanna nær bodhisattvann þar dýrð samadhis. Nirvana er þar, sem samúðin með öðrum er sterkari en hugsunin um sjálfan sig. Nirvana er þar, sem stigi búddans er loks náð.

Nirvana er ríki Dharmata Budda. *Nirvana er þar, sem hin æðsta vizka birtist sem kærleikur, sem nær til alls. Nirvana er þar, sem kærleikurinn birtist sem hin æðsta vizka, sem nær til alls og upplýsir allt.*

Þetta er hið sanna nirvana.

Til eru tveir hópar manna, sem fá ekki „haldið inn í" nirvana. Í fyrsta lagi þeir, sem hafa yfirgefið hugsjón bodhisattvans og segja, að hún sé ekki í samræmi við ritninguna og lagabókina — og leiði ekki heldur til sáluhjálpar. Í öðru lagi eru það einnig hinir sönnu bodhisattvar, sem vegna hins forna eiðs síns, sem unninn var vegna umhyggju þeirra fyrir velferð annarra, segja sem svo: „Meðan til eru menn, sem geta ekki öðlazt nirvana vegna vanþroska síns, stend ég einnig fyrir utan." Þannig eru þeir af frjálsum vilja utan nirvana. Það er ekki vilji búddanna, að nokkur standi í myrkrinu fyrir utan. Sá dagur mun koma, að hver og einn mun með hjálp þeirra ljúka þróun sinni og komast upp á stig nirvana. — En ef þeir aðeins gætu skilið það, þá eru þeir nú þegar í nirvana búddanna, því að í hinum innsta veruleika hafa allir hlutir frá upphafi verið í nirvana."

# HÁVAMÁL INDLANDS

*(Bagavad Gita)*

Bagavad Gita er vinsælasta bók Hindúismans. Fyrr á öldum var hún vel þekkt í austri, einkum í Kína og Japan, og á síðari öldum hefur hún verið þýdd á flestar tungur Vesturlanda. Í Englandi kallar Aldous Huxley þessa bók t. d. eitt hinna beztu rita, sem skrifuð hafa verið um heimspeki. — Og í Þýzkalandi gerði J. W. Haner hana helzta rit „hinnar þýzku trúar". (J. W. Haner tekur hana í bókstaflegri merkingu).

Höfund bókarinnar þekkjum við ekki. Eins og flestir aðrir rithöfundar indverskir lætur hann ekki nafns síns getið. Í ýmsum bókum er okkur sagt, að höfundur hennar sé Sri Vyasa (sri merkir herra). En á Indlandi hafa verið jafnmargir „Vyasar" og skrifarar á Íslandi, þeir er afrituðu og umsömdu fornar bækur. Sanskrítarorðið *vyasa* og *skrifari* í þessari merkingu þýða hið sama. Vyasa er aðeins titill, sem mörgum fræðaþul var gefinn.

Um aldur bókarinnar vita menn ekki heldur með vissu. Sú skoðun hefur þó orðið ofan á, að bókin í sinni upprunalegu mynd sé frá 5. öld fyrir Krists burð.

Bókin Bagavad Gita er aðeins einn kafli úr lengsta kvæði, sem ort hefur verið, — kvæðinu Mahabarata. Kvæðið fjallar um stríð milli tveggja flokka sömu konungsættar, Kuruga og Pandava, sem báðir berjast til valda. Foringi Pandava nefnist Arjuna. Í þessum kafla kvæðisins, sem nefndur er Bagavad Gita, hefur skáldið látið guðinn Krisna stíga niður til jarðarinnar og ræða við manninn í líki hins verðandi konungs, Arjuna, um höfuðvandamál og rök mannlegrar tilveru. Þessar viðræður Krisna og Arjuna verða síðar sjálfstæð bók. Enn í dag er hún talin merkust bóka meðal Hindúa og er þar almennt litin sömu augum og kristnir menn líta heilaga ritningu.

Bagavad Gita er samin á stormatímum, þar sem margir vindar blása úr ýmsum áttum. Höfundur hennar er opinn fyrir öllum veðrum og leitast við að sameina margar lífsstefnur og fullnægja á þann hátt þörf aldarinnar til einingar. Höfundinum hefur tekizt meistaralega vel að sameina hin mörgu sjónarmið, sem uppi voru á hans tíð. Í Bagavad Gita finnur trúmaðurinn *bakti*, alþýða manna persónulegan guð, þjóðhöfðingjar og stríðsmenn heimspekilega réttlætingu fyrir styrjöldum og vígaferlum, — ef barizt er gegn „hinu illa“. — Og heimspekingurinn, sem skilur hina táknrænu merkingu þessarar bókar, finnur í henni fullkomnun þeirrar heimspeki, sem hún þiggur að láni frá Vedabókum, upanishödum, yoga-heimspeki, Kapila og Búdda.

Meðal ófullkominna manna er fullkomnunin sjaldan vinsælust. Vinsældir Bagavad Gita byggjast bæði á reisn hennar og því sem lægra ber, bæði á háum hugsjónum hennar og kenningum, sem nær eru jörðinni og veraldarhöfðingjuni og alþýðu manna kærari en boðorð hinna fáu stóru meistara.

Bagavad Gita hefst á því, að báðir flokkar hafa fylkt liði á vígvellinum albúnir til orrustu. Arjuna stendur í hervagni sínum og lítur yfir lið fjandmanna sinna — og frænda. Sú tilfinning, að innan stundar hljóti hann að eiga orrustu við þessa ættingja sína og úthella blóði þeirra, varð honum óbærileg. — Hann hvarf inn í hervagn sinn og lagðist þar niður. — Vagnstjóri hans, sem var enginn annar en guðinn Krisna, kom þar til hans til að hvetja hann til að láta ekki bugast, heldur rísa á fætur og berjast. — En Arjuna lætur ekki huggast. — „Hvernig getum við, ó, Madhava (Krisna),“ spyr hann, „öðlazt hamingju með því að drepa okkar eigin frændur?“ Arjuna fýsir ekki að vega þessa hermenn, sem fylkja liði gegn honum — jafnvel ekki þó að þeir ráðist að honum.

Til þess að afhjúpa þessa „villu“ Arjuna þarf guðinn Krisna á djúpstæðustu rökum upanishadanna og yogaheimspekinnar að halda. — „Hið óraunverulega er ekki til,“ sagði hann við Arjuna, „og hinu raunverulega verður ekki eytt . . . Sá, sem heldur, að sjálf mannsins taki þátt í vígum hans eða að sjálfið verði vegið, þekkir ekki sannleikann . . . Sjálfið hvorki vegur né

verður vegið. — Sjálfið fæðist aldrei og deyr aldrei ... Því verður aldrei eytt, þó að líkamanum verði tortímt ... Það verður ekki vegið með sverði, né brennt í eldi, né drekkt í vatni."

Þennan vísdóm um ódauðleika sjálfsins höfðu upanishadar og Patanjali kennt og notað hann til að hvetja menn til að vanda sem mest breytni sína, m. a. með því að tortíma aldrei lífi nokkurs manns — eða jafnvel dýrs, og þola heldur óréttlæti en taka þátt í vígaferlum, því að dauða sinn þyrftu menn ekki að óttast — aðeins afleiðingar rangrar breytni.

Þennan sama vísdóm virðist höfundur Bagavad Gita nota til að sanna, „að fyrir hermann sé ekkert hærra til en réttlátt stríð".

Og guðinn Krisna slær einnig á strengi hégómadýrðarinnar í hvatningu sinni til Arjuna. „Þessir hraustu hermenn munu halda, að þú hafir flúið úr orrustunni sakir hræðslu ... Óvinir þínir munu fara um þig smánarlegum orðum og ásaka þig um hugleysi. — Og hvað er til verra en það?" — Þá eggjan stenzt stríðsmaðurinn Arjuna ekki. — Hann lætur sannfærast og fer í stríðið ...

Hér fjallar höfundur Bagavad Gita um eitt af mestu vandamálum siðfræðinnar. Niðurstaða hans virðist andstæð öllum anda indverskrar heimspeki. Indverskir heimspekingar fyrir hans dag og raunar eftir hans dag líka hafa næstum allir boðað kenninguna um friðhelgi lífsins og talið mannvíg hinar mestu yfirsjónir, sem

mannleg fáfræði gerir sig seka um. Þeir hafa á sama hátt og Kristur boðað, að meingjörðir væru aldrei réttlætanlegar, ekki einu sinni gagnvart meingjörðamönnum. Þessi kenning um friðhelgi mannlífsins hefur þó sérstaklega verið litin hornauga af þjóðhöfðingjum og herkonungum, sem jafnan hafa staðið í styrjöldum og vígaferlum. Indverskir konungar áttu, eins og títt var um þjóðhöfðingja, í endalausum erjum og styrjöldum. Þessir sömu konungar töldu sig samt vel mennta og vitra og höfðu heimspeki og andlegan vísdóm í hávegum. Þeim þótti jafnan sómi að að hafa fræga heimspekinga við hirð sína ... Og þeir heimspekingar, sem framgjarnir voru og fýsti í fé og frama, sáu, að hylli konunga var bezta tryggingin fyrir hvoru tveggja. Við þekkjum ekki höfund Bagavad Gita og vitum ekki, hvort nokkurt samband hefur verið á milli þessara gagnkvæmu hagsmuna, hvað hann snertir. Hitt er ljóst, að þessi kenning um réttlætingu stríðsins hefur verið herkonungum einkar kær og hún hlaut nafnið „hinn konunglegi vísdómur". Bæði Búdda og Kristur sögðu mönnum að svara ekki árás meingjörðamannsins og gjalda illt með góðu. En þessi kenning, sem boðuð er af heimsfræðurunum, á sér óvíða húsaskjól á þessari jörð. Hún hefur aldrei verið viðurkennd í borgaralegum lögum nokkurs þjóðfélags og hefur alltaf verið mönnum þyrnir í augum. — Saga er sögð um ungling nokkurn, er hlýddi á tal Gautama Búdda um rétta breytni og hvernig menn skyldu gjalda illt með góðu.

Unglingnum fannst eins og mörgum fleiri, að þessi kenning væri hreinasta fjarstæða og óframkvæmanleg í daglegu lífi. Hann hugsaði með sjálfum sér: Ef ég nú fer á fund Gautama og geri honum t. d. einhvern óleik, ja, þá verður Búdda að gera mér eitthvað gott í staðinn — eða þá að hann verður að hafna sinni eigin kenningu!

Því meir sem unglingurinn hugleiddi þetta, þeim mun snjallari þótti honum hugmynd sín. Loks stóðst hann ekki mátið lengur og fór á fund Búdda. Þegar þangað var komið, jós strákur úr sér skömmunum og viðhafði ljótan munnsöfnuð um meistarann.

Gautama brosti að villu unglingsins og spurði hógværlega: „Sonur minn, ef maður neitar að þiggja gjöf, hver á þá gjöfina?“ „Gefandinn,“ viðurkenndi unglingurinn. „Sonur minn,“ sagði Gautama. „Þú færir mér þín misvitru orð að gjöf, en ég veiti henni ekki viðtöku. — Hún er því þín eign. En er hún góð eign?“ Unglingurinn var þagnaður, en meistarinn hélt áfram: „Eins og bergmál fylgir hljóði og skuggi fylgir manni, fylgir þjáningin illum orðum og verkum. Sá, sem viðhefur ill orð, líkist manni, sem lítur upp og skyrpir á himininn. Það skaðar himininn ekki neitt, en fellur niður á hans eigið andlit.“

En hvernig stendur þá á því, að höfundur þessarar helgu bókar, Bagavad Gita, leggur blessun sína yfir „réttlátt stríð“, sem beint er gegn „hinu illa“? Höfundurinn veit fullvel, að allir þjóðhöfðingjar telja sig

berjast gegn „hinu illa“. — Hvað lærdóm og leikni í röklist snertir stendur þetta skáld ekki að baki neinum öðrum indverskum höfundi. Hann þekkir niðurstöður upanishadanna, Patanjali og Búdda. Hvers vegna gengur hann gegn þessum lærifeðrum sínum? Sjálfur mundi hann sennilega svara: „Hvergi hef ég á móti þessum meisturum gengið. Herkonungar og alþýða hafa aðeins misskilið verk mitt.“ — Og heimspekingar og djúphyggjumenn eru á sama máli. Þeir skildu táknmálið og vissu, að orrustan var ekki venjuleg orrusta, heldur þroskabarátta mannsandans. Þeir sáu ljóslega, að guðinn Krisna var aðeins tákn sjálfsins, atman, hins eilífa eðlis mannsins. Þeir vissu, að stríðsmaðurinn Arjuna merkti manninn, sem verður að sigra hina lægri náttúru sína, illar tilhneigingar og illar hvatir, að örvænting Arjuna í byrjun stríðsins táknar ástand, sem djúphyggjumenn eru vanir að kalla svartnætti sálarinnar. Það ástand er talið nauðsynlegur undanfari andlegs vaxtar. — Þeir skildu, að baráttuvöllurinn táknar mannssálina, þar sem æðri og lægri öfl takast á, unz sigur hins innri manns (atma, krisna) er unninn og ríki hans endurheimt; að fylkingar fjandmannanna og „frændanna“, sem berjast átti gegn og fella, voru lestir manna eins og reiði, öfund, ótti, hroki, hefnigirni, fáfræði, græðgi, illgirni og annað fylgilið hinnar lægri náttúru.

En þetta skildu ekki allir eins og heimspekingarnir. — Herkonungar, sem háðu stríð og alþýða manna, sem

notuð var til leiksins, tók efni þessa kvæðis í bókstaflegri merkingu, sem eðlilegt má teljast — og skáldinu sjálfu hefur eflaust verið ljóst. Allt þetta virðist með ráði gert og skáldinu tekst hér betur en nokkrum öðrum manni að þjóna tveim herrum og hlýtur fyrir jafnt virðingu herkonunga og heimspekinga!

Boðorðið um að beita aldrei valdi og valda hvorki manni né dýri þjáningar er boðorð himnaríkis, en ekki jarðarinnar enn sem komið er. Það er að finna í breytni fárra manna. Venjulegum mönnum finnst það óframkvæmanlegt, og þeir, sem reyna það á þjóðfélagslegum vettvangi, líkt og Mahatma Gandhi, týna engu fyrir nema lífinu.

Auga fyrir auga og tönn fyrir tönn er boðorð jarðarinnar og konunga hennar.

Þessi tvö boðorð verða aldrei samrýmd. Annað kennir mönnum veg friðar og lífshamingju þessa heims og annars. Hitt er vegur stríðs og þjáninga, og þær öldur er erfitt að lægja.

Önnur ástæða fyrir hinni miklu útbreiðslu og vinsældum Bagavad Gita er kenning hennar um persónulegan guð, Krisna. — Guð heimspekinganna var án allra takmarkana og ofar mannlegri skynsemi. Sá guð var of stór og of fjarlægur allri alþýðu manna. Heimspekingarnir reyndu að þekkja þennan guð með því að þroska með sér innsæi, sem þeir töldu að væri ofar skvnseminni.

Auðugir menn reyndu að nálgast þennan guðdóm

með dýrum fórnfæringum. Meðþví t. d. að blóta hundrað hestum eða hella þúsund lítrum af mjólk yfir höfuð einhvers goðalíkneskis. — Alþýða manna hafði ekki efni á slíkum fórnum og hin sanna heimspeki var fárra manna eign.

Bagavad Gita boðaði mönnum guð kærleikans, sem hver maður gat nálgazt með einfaldleika, hreinu hjarta og trúartilbeiðslu. Krisna opinberar Arjuna þessa hlið guðdómsins og segir: „Hvorki með Vedabókum né meinlætalifnaði né með ölmusugjöfum eða fórnum geta menn séð mig eins og þú hefur séð mig."

Þessi leið til guðs, leið trúarinnar, var öllum mönnum fær, einnig hinum snauðu og þeim, sem þekktu ekki vedabækur og yoga-heimspeki. „Þeir þekkja yoga bezt, sem trúna hafa og láta ekki af að tilbiðja mig," segir Krisna við Arjuna. „Þá, sem staðfastir eru í trú sinni á mig . . . dreg ég innan stundar upp úr djúpum dauðans og endurfæðinganna. . . . Kærir eru mér þeir, sem ala ekki hatur til nokkurs manns. Þeir, sem eru öllum velviljaðir og góðgjarnir, þeir, sem lausir eru við ágirnd og eigingirni, þeir, sem eru hógværir í gleði og sorgum, og þeir, sem kunna að fyrirgefa . . ."

Þessi boðskapur Bagavad Gita um guð kærleikans, hefur komið mörgum fræðimönnum á Vesturlöndum til að halda, að hér sé um áhrif frá kristinni trú að ræða, að guðinn Krisna sé enginn annar en Kristur. — Meðal þessara fræðimanna er prófessor Hopkins einna þekktastur. Hann segir svo: „Svo gagngjör er breyting-

in og svo náin eru tengslin milli Krisnaisma (Hopkins telur kenningu Gita Krisnaisma) og kristindóms á hinum fyrstu öldum kristninnar, að það eru engar skýjaborgir, heldur sagnfræðilega heilbrigð niðurstaða að álíta, að sennilega hafi Hindúar í raun og sannleika með þessari trú sinni á madonnu og barn, tilbeðið óafvitandi Kristsbarnið í meir en þúsund ár."

Hér hefur prófessor Hopkins í huga þá staðreynd að guðinn Krisna birtist sem barn á sama hátt og Kristur og elst upp með alþýðufólki. Fæðingardagur Krisna (á sama hátt og Krists) er einnig mesta hátíð Indverja.

Á klettaveggjum hellismusterisins Elura er einnig að finna mynd af móður guðs, sem heldur á barni sínu í örmum sér líkt og á madonnumyndum í kristnum sið. Sú mynd er frá 8. öld eftir Krists burð.

Þessir fræðimenn benda einnig á, að á fyrstu öldum kristninnar hafi samgöngur verið greiðar milli Grikklands, Egyptalands og Indlands. — Postulinn Tómas er m. a. sagður hafa flutzt þangað sem trúboði. Hann var veginn á fjallahæðum nokkrum skammt fyrir sunnan Madras. Þær hæðir eru síðan við hann kenndar. Trúflokkur hans er enn við líði á Suður-Indlandi og er nefndur „kristnir Sýrlendingar".

Þetta eru nokkur helztu rök þeirra fræðimanna, sem telja, að kenning Bagavad Gita um bakti sé af kristnum toga spunnin. Aðrir fræðimenn telja, að engin þörf sé fyrir indverska heimspeki og trú að taka eingyðistrú og bakti að láni frá kristindómi. — Eingyðistrú er

að finna í elztu bókum Indlands. Guðinn Krisna er persónulegur guð, en hann er einnig hinn takmarkalausi guð. Í augum Indverjans hefur þetta aldrei verið nein mótsögn. Algyðistrú, guðstrú og eingyðistrú eru ekki skoðaðar sem neinar andstæður. Hinn persónulegi guð er hið ótakmarkaða og eilífa í gervi hins takmarkaða. Hvað hina indversku kenningu um bakti snertir, þá er hún einnig miklu eldri en kristindómur. Hana má finna í fornum indverskum ritum, sem eru jafnvel eldri en Búddatrú.

En hvað þá um Madonnumyndina á klettaveggnum í Elura? Sannar hún ekki áhrif kristninnar á indverskar trúarhugmyndir? Við nánari rannsókn verður að fullyrða, að svo sé ekki. Þessi madonnumynd er eins og áður er sagt frá 8. öld eftir Krists burð. Á þeirri tíð voru ekki til neinar madonnumyndir með kristnum þjóðum. Fyrst um það bil fjögur hundruð árum síðar er fyrsta madonnumyndin gerð í kristnum sið. Þá madonnumynd er að finna í kirkju einni í Rómaborg, St. Maria Trastevere. Sú mynd er frá tólftu öld. Þannig er þessi hugmynd óþekkt á Vesturlöndum, þegar myndin er gerð í Elura og því ekki hægt að álíta, að um vestræn áhrif sé þar að ræða.

Og þegar við loks verðum að fallast á þær niðurstöður síðustu rannsókna, að Bagavad Gita sé skrifuð fyrir daga kristninnar, verðum við að álíta, að ekkert beint samband sé milli Bagavad Gita og kristindóms, Krisna

og Krists, hversu líkur sem boðskapur þeirra kann þó að vera.

Hitt má næstum fullyrða, að áhrif kristninnar á Suður-Indlandi hafi gætt þar síðar meir í trúarbrögðum Hindúa og runnið saman við skyldar hugmyndir. Og víst er um það, að mörgum Hindúa þykir engin mótsögn í því að hengja mynd af Kristi eða Maríu guðsmóður upp á vegg sinn meðal Krisna, Vishnu, Síva og annarra, sem verið hafa að þeirra áliti birting guðs á jörðinni.

Guðinn Krisna í Bagavad Gita er eins og áður er sagt hið ótakmarkaða í gervi hins takmarkaða. Hinu ótakmarkaða eðli hans reynir höfundur Bagavad Gita ekki að lýsa. Einnig Búdda var þögull þegar hann var spurður um hinn innsta leyndardóm og nirvana. Þegar Pílatus spurði Krist um eðli sannleikans, var honum engu svarað. — Og Lao Tze tekur sömu afstöðu: „Það Tao („lög himinsins“), sem menn eiga orð til yfir, er ekki hið sanna Tao.“

Hinn ótakmarkaða guð er hægt að skynja með hinni dýpstu vitund manna, en honum verður ekki lýst með orðum, sem skynsemin hefur skapað. En hinn ótakmarkaði guðdómur birtist einnig út á við í takmörkuðu gervi — Isvara. Hann er persónulegur guð, sem vakir yfir veröldinni og tekur þátt í lífi hvers manns og í baráttunni milli hins góða og vonda án þess þó að að klippa vængi sálarinnar með því að ræna hana frelsi

sínu. Hann er guð sköpunarinnar. Andi hans birtist sem neisti, sem hinn innsti kjarni alls hins skapaða. Þessi neisti stendur á bak við alla þróun. Takmark hans er að lyfta veröldinni upp til guðs og gera hana fullkomna eins og sjálfan guðdóminn. Ísvara, hinn persónulegi guð, er mönnum því fyrst og fremst kennari, sem leiðir þá til sín. Sem slíkur fæðist hann milljón sinnum í öllum veröldum og skapar nýjar andlegar stefnur og strauma til að mæta þörfum hvers tíma og leiðaþ róunina. Hann veður elda þjáninganna á jörðinni. Hann vakir yfir og leiðbeinir hverjum manni og öllum heimi. Hann birtist sem vaxtarbroddur mannkynsins á hverjum tíma, og hann hvílist. — Þessar eru hinar fjórar hliðar guðs sem fræðara. En hann er meira en allt þetta. Hann kemur ekki aðeins til mannsins utan að, hann kemur einnig til hans innan að, því að hann sjálfur er kjarni hvers manns. Þegar maðurinn hefur „þvegið fætur sína í blóði hjartans", drukkið bikar myrkursins og vaðið elda þjáninganna. Um miðnætti sálarinnar, þegar nóttin er svörtust og líf manns virðist glatað og vonlaust, opnast hlið sálarinnar og ljós skilnings og samúðar tekur að flæða um vitundina, og hinn innri veruleiki, sjálfið er skynjað. Þannig rís andi lífsins og komandi hamingju úr gröf dauðans og þjáninganna. Við deyjum til þess eins að lifa.

Jól heiðingjans og kristinna manna um dulbúið tákn þessa sama boðskapar og hér er settur fram í Bagavad Gita. Arjuna, tákn hinnar leitandi sálar, stendur á víg-

vellinum andspænis fylkingum myrkranna. Hann lætur bugast. Það ástand hans er tákn miðnættisins á þroskaferli mannsins og einmitt þá tekur vagnstjórinn, sá er taumunum heldur, guðinn Krisna, til máls. Hann er tákn hins innri veruleika mannsins — atma.

Þannig kennir höfundur Bagavad Gita, að hinn ótakmarkaði guðdómur birtist sem takmarkaður persónulegur guð, sem er hið virka afl sköpunarinnar og leiðir þróunina til fullkomnunar. Þannig sameinar Bagavad Gita líkt og önnur indversk heimspeki, guðstrú og algyðistrú.

Þær skoðanir, sem höfundur Bagavad Gita setur fram um veröldina, eru samhljóða eldri heimspeki, indverskri. *Maya*, veröldin, er ekki heimsblekking eins og Schopenhauer heldur fram. Veröldin er líkami guðs og andi hans er aldrei án líkama. Hvort tveggja er því jafnraunverulegt. Aðeins líkaminn (veröldin) er sífelldum breytingum háður, fæðingu og dauða, þróun og hnignun. Sálin aftur á móti er óumbreytanleg. Mannssálin (atman) er hliðstæð sjálfum guðdóminum. En maðurinn veit það ekki fyrr en hann hefur farið í gegnum hin fimm þróunarstig tilverunnar, „efni — líf — hvatir — skynsemi — innsæi (ananda).“ Maðurinn stendur á hinu fjórða þessara stiga, stigi skynseminnar. Hann þekkir þess vegna efni, líf, hvatir og huga, en hann skynjar ekki það sem fyrir ofan hann liggur. Maðkurinn í moldinni getur t. d. ekki skynjað manninn sem mann. Jafnvel ekki þó hann sé tekinn í lófa

manns eða troðinn undir hæl hans. Maðkurinn skynjar það eitt sem liggur á hans þróunarstigi eða þar fyrir neðan. Hann skynjar efni og líf. Dýr sem stendur á hinu þriðja stigi, stigi hvatanna, skynjar heim efnis, lífs og hvata. Svið skynseminnar er því lokuð bók. Þess vegna getur það ekki skilið manninn, sem vitsmunaveru. Það getur aðeins skynjað manninn sem dýr. Maðurinn á sama hátt getur ekki skilið guðdóminn nema sem mann — í gervi persónulegs guðs með mannlegum eiginleikum í stækkaðri mynd. Fyrst þegar innsæisvitund mannsins er fullþroskuð og hann hefur lyft sér upp yfir stig skynseminnar, getur hann skilið það, sem er ofar skynseminni, guðdóminn. Maðurinn á stigi skynseminnar lítur á sig sem „kórónu sköpunarinnar", aðeins vegna þess að hann á sama hátt og maðkurinn og dýrið getur ekki skynjað neitt, sem fyrir ofan hann liggur og er honum æðra. Ekki er þó með þessu átt við, að skynsemin líði undir lok, þegar hinu fimmta stigi þessarar þróunar er náð. Hvert þróunarstig sem maðurinn hefur áður gengið í gegnum, heldur áfram að lifa með honum og vera hluti hans. Þróunarstigin þrjú, sem maðurinn hefur yfirgefið (efni, líf og hvatir) hafa ekki horfið, heldur eru þau þættir sem hann er ofinn úr. Efni hverfur að sjálfsögðu ekki, þó að stigi hins meðvitaða lífs sé náð. Efni og líf halda áfram þegar upp á stig hvatanna er komið. Efni, líf og hvatir líða ekki undir lok á stigi skynseminnar. — Í aftureldingu hins nýja dags hinnar æðri vitundar hverfur skynsem-

in ekki heldur, en hún missir aðeins ljóma sinn líkt og morgunstjörnur við sólarupprás.

Bagavad Gita heldur því þess vegna ekki fram, að menn stúðli að þroska sínum með því að afneita skynseminni. Þvert á móti er augljóst, að vöxtur hennar er skilyrði fyrir frekari þróun, því áður en skynsemin nær fullum þroska getur hin nýja vitund ekki birzt.

Í stað hinnar neikvæðu baráttu gegn skynseminni og „eðli“ sínu kennir Bagavad Gita þrjár leiðir til að komast upp til hins fimmta stigs og öðlast þar með fullkomið frelsi, þar sem allir hlutir eiga þar upptök sín og er á vissan hátt stjórnað þaðan. Þessar leiðir eru karma-yoga, leið starfsins, leið hins fullkomna verknaðar; jñana-yoga, leið vizkunnar og bakti-yoga, leið fórnarinnar, kærleikans og trúarinnar.

En þessar þrjár leiðir liggja þó allar að sömu vegamótum og sameinast þar — áður en lagt er út á hina nýju braut mannlegrar fullkomnunar. Áður en komið er að þessum vegamótum, sjá þeir, sem fara leið karma-yoga, guð sem guð hins eilífa réttlætis. Þeir, sem fara leið jñana-yoga, sjá hann sem ljós heimsins, sem útrýmir myrkri og villu fáfræðinnar. Og þeir, sem fara leið bakti-yoga, sjá hann í líki eilífrar mildi og fegurðar. Þegar komið er að vegamótunum, sést, að allt þetta er eitt.

Stríðsmaðurinn Arjuna fer leið karma-yoga. Guðinn segir honum að hætta áhyggjum sínum og hugarvíli en ganga öruggur fram á vígvöllinn og berjast.

Hér eigum við aftur erfitt með að meðtaka boðskap Bagavad Gita, vegna hinnar tvöföldu merkingar þessarar framsetningar. — Geta manndráp verið í samræmi við karma-yoga? Þau eru andstæð allri indverskri heimspeki og raunar Bagavad Gita líka, ef hún er réttilega skilin, (eins og ljóslega má sjá á 7. og 12. kafla hennar t. d. —). Bagavad Gita er, eins og áður er frá skýrt, kafli í Mahabarata, sem margir telja fyrirmynd Hómerskvæða, m. a. vegna þess að hún fjallar um sams konar efni og hið gríska skáldverk. Það er ekki ólíklegt, að upprunalega hafi í Mahabarata aðeins verið til vísir þessa samtals stríðskappans og guðsins. Auðvitað hefur „Hómer“ Mahabarata teflt guðinum fram á sjónarsviðið eingöngu til að telja kjark í bardagamanninn og hvetja hann til hreystilegrar framgöngu að hætti berserkja. Slíkt er í fyllsta samræmi við hetjukvæði í fornum sið. Líklegt má teljast, að þegar þetta yrkisefni berst í hendur hins sanna heimspekings hafi hann endurritað og aukið þetta samtal og notað hið gamla gervi þess til að túlka heimspeki sína þar ýmist beint eða á táknrænan hátt. Hann getur ekki eða vill ekki af ástæðum, sem raktar eru hér að framan, fella niður hinn gamla texta um guðinn og stríðshetjuna, vegna þess að hann var öllum ráðamönnum og höfðingjum einkar kær. En þó að heimspekiskáldið geti ekki eða vilji ekki fella hinn gamla texta niður, breytir það honum í líkingamál, þannig að hann geti einnig túlkað hina fornu og djúpu speki, sem er hinn rauði þráður í lífi

og kenningu hinna miklu f æðara upanishadanna, yogaheimspekinnar og búddanna. Þegar við höfum þessa erfiðleika skáldsins í huga, skiljum við betur hina sönnu merkingu þessara orða og um leið boðskap Bagavad Gita í sambandi við karma-yoga, leið starfsins.

Orustuvöllurinn táknar mannssálina og um leið athafnir manna, veröldina, lífsbaráttuna. Hið raunverulega vandamál, sem fyrir skáldinu vakir, er þetta: Eigum við að taka þátt í þessu stríði, sem nefnt er lífsbarátta? Eða eigum við að afneita heiminum og gerast einsetumenn, til þess að við flækjumst ekki í athöfnum, sem síðar samkvæmt karma-lögmálinu leiða til nýrrar fæðingar og nýrar þjáningar, sem bindur okkur við hjól veraldarinnar? Eða getum við lifað í þessum heimi venjulegu lífi og tilheyrt mannfélaginu og samt náð því marki, sem er tilgangur allrar þróunar? Höfundur Bagavad Gita afneitar leið einsetumannsins. Menn eiga að lifa í samfélagi við aðra menn og taka fullan þátt í lífsbaráttunni. — Og nú tekur guðinn Krisna að kenna Arjuna, hvernig hann geti tekið þátt í þessari baráttu án þess þó að verða fórnardýr hins neikvæða karma. — Arjuna verður að forðast hið ranga og vinna hið rétta og framkvæma það á fullkominn hátt.

Þjáningin fylgir alltaf illum verkum, orðum og hugsunum. (Þeim mönnum, sem taka fyrstu kafla samtalsins milli Krisna og Arjuna bókstaflega, má í þessu sambandi benda á, að með því að berjast við frændur sína og vega þá, ynni Arjuna hin verstu verk. Hann tæki

með því aðeins þátt í hégómlegri valdabaráttu og tefldi fram þúsundum manna til þessa fánýta leiks konunganna. Skylda Arjuna væri samkvæmt hinu sanna karma-yoga að ganga yfir til fjandmanna sinna og leita friðar, og ef það tækist ekki falla þá heldur sjálfur frá valdabaráttunni eða jafnvel í hendur óvina sinna en verða valdur að stríði, sem gera mundi þúsundir manna örkumla beiningamenn og verða þess valdandi, að þúsundir ekkna yrðu brenndar lifandi með líkum manna sinna, svo sem siður var á þeirri tíð.

Að leggja bókstaflega merkingu í þessa kafla er því augljóslega í beinni mótsögn við kenninguna um karma-yoga og allan anda bókarinnar yfirleitt, ekki sízt kenningar hennar um bakti.

Öllum illum verkum fylgir þjáning. Góðum verkum fylgir hamingja. Þó eru þau sjaldan unnin án einhverra eigingjarnra hvata eða vonar um endurgjald í einhverri mynd. Þess vegna binda þau manninn líka við hina lægri tilveru jafnvel þó að þau skapi mönnum hamingju. Góð verk verður að vinna á fullkominn hátt, ekki í eigingjörnum tilgangi né í von um endurgjald. Krisna kennir Arjuna að setja traust sitt á guð og vinna honum öll verk sín og gefa honum þannig dýrðina.

Þeir, sem vinna góð verk í nafni guðs og fela honum allt líf sitt og allan vanda sinn, þroska skjótt með sér hæfileika til að rísa upp yfir hraunhóla skynsemi og hégómadýrðar — upp til útsýnis og heiðríkju fjallsins.

*Önnur leið,* sem Bagavad Gita kennir, að liggi til þessa takmarks, er leið vísdómsins, jñana-yoga. — Ekki svo að skilja, að skáldið haldi, að mönnum sé nóg að afla sér fróðleiks eða þekkingar frá öðrum mönnum. Hún er ekki heldur fólgin í rökfræðilegum niðurstöðum. Hún er ekki sama og vísindi. Allt þetta er talið þroska mannsins nauðsynlegt. En það er ekki sá vísdómur, sem höfundur Bagavad Gita á við. Sá, sem fer þessa leið, þarf aðeins að verða það, sem hann er og hefur alltaf verið! Hinn fullkomni vísdómur, sem gerir hann frjálsan, býr og hefur alltaf búið með honum, getur því ekki vaxið eða þróazt eins og þekking, sem menn afla sér úr bókum. Hann hefur alltaf verið fullkominn. Það, sem virðist vöxtur hans eða þróun, er aðeins birting hans í æ ríkari mæli líkt og svið, sem birtist, þegar tjaldið er dregið frá, eða eins og ljós, sem fellur hægt inn í myrka stofu, þegar dyrum er lokið upp.

Tjaldið, sem liggur milli hugans og þessa djúpa, en dulda vísdóms, er ofið þráðum skynfæra, hvata og tilfinninga, sem skapa hugmyndirnar um *ég* og *mitt.* Þær hugmyndir vekja síngirni einstaklingsins og ágirnd hans og hann fær þannig löngun til að ná undir sig öllum þeim hlutum, sem hann girnist. Þetta verður aftur orsök árekstra hans við aðra menn, sem einnig keppa eftir sömu gæðum. Þegar hann er svo hindraður í að fá það, sem hugur hans girnist, vaknar reiði hans og hatur, öfund og afbrýðissemi. Þessar kenndir hans verða

að sjálfsögðu til þess, að skilningur hans myrkvast og hann fer villur vega. Þannig missir hann hina andlegu sýn sína, sem greinir milli hins rétta og hins ranga. Þegar svo er komið, hlýtur hann að vinna verk í blindni sinni, sem kalla yfir hann þjáningu og auðnuleysi.

Þetta er það, sem átt er við, þegar sagt er, að fáfræðin sé orsök allra yfirsjóna og alls gæfuleysis. — En þessi fáfræði er ekki sama og skortur skólamenntunar eða fróðleiks og þekkingar í venjulegri merkingu þeirra orða. Fáfræði merkir hér skort hins sanna vísdóms, sjálfsþekkingar.

Þessi aðskilnaður mannsins við hinn sanna anda sinn (sjálfið) er aðeins stundarfyrirbrigði skapað af sérstökum aðstæðum í heimi hverfulleikans. Bagavad Gita bendir á sömu leið og yoga-heimspekin til að sigrast á þessum aðstæðum og lyfta skýlu fáfræðinnar af augum hinnar æðstu vizku.

Maðurinn þekkir aðeins yfirborð vitundar sinnar. Takmark jñana-yoga er að þekkja hana alla.

*Þriðja leiðin*, sem kennd er í Bagavad Gita er leið hjartans og dýrkun fegurðarinnar. — Sú leið er á sanskrít kölluð bakti. Það er dregið af rótinni *bhaj*, að þjóna. Þjónusta við guðdóminn eins og hann birtist okkur í náttúrunni, mönnum og dýrum er kjarni þess. Þessi þjónusta er baktanum ekki hörð skylda, sem hann gegnir af ótta eða af metorðagirnd í von um endurgjald. — Hún er honum eðlileg og ljúf, sjálfsögð og

óhjákvæmleg athöfn vegna þess hjarta, sem undir slær. — Hún birtist í ást móður til barns síns. Mannvinir eins og Florence Nightingale eru ímynd hennar. — Og hún birtist í starfi hins sanna listamanns. Móðirin, mannvinurinn og listamaðurinn vinna ekki verk sín vegna harðrar skyldu, sem á þeim hvílir eða í von um endurgjald. Að baki þeirra er dularfullt voldugt afl, sem höfundur Bagavad Gita kallar guð kærleikans. Þeir sem beina bænum sínum, lífi sínu og sál sinni til þessa máttar, hvort sem þeir vita það eins og trúmaðurinn eða vita það ekki eins og listamaðurinn, iðka hið sanna bakti og komast örugglega á þann hátt að sama marki og þeir, sem halda jñana marga (leið þekkingarinnar) eða karma-yoga (leið starfsins).

Hver þessara þriggja leiða er farin, er mönnum í sjálfsvald sett, — þó að hin síðastnefnda sé talin öruggust og beri skjótast ávöxt. — Annars verða menn að lifa lífi sínu eins og þeim sjálfum sýnist og þeir hafa bezt vit á.

Þegar guðinn Krisna hefur upplýst Arjuna um eðli þessa lífs og sagt honum frá þeim leiðum, sem hann veit liggja til æðri tilveru, býður hann honum að ganga út í lífið og baráttu þess . . . og gera það, sem honum sjálfum sýnist.

Bagavad Gita lætur það vera síðasta orð guðs til mannsins.

Guðdómurinn annast uppeldi mannsins með nærgætni og vizku hins mikla sálfræðings. Hann ætlast til,

að maðurinn gegni hinu góða, en gætir þess um leið vandlega að ræna manninn aldrei sjálfri líftaug þróunar sinnar, frelsinu.

Svo kennir Bagavad Gita.

# VEDANTA-HEIMSPEKIN

SÚ HEIMSPEKISTEFNA INDVERSK, sem þekktust er á okkar dögum gengur undir nafninu Vedanta. Líkt og sagt er um Upanishada, er Vedanta kölluð lokaniðurstaða þeirrar heimspeki, sem hefst með Vedabókum. Sjálft orðið er sett saman úr *Veda* (Vedabækur) og *anta,* sem merkir endir. Þessar heimspekibókmenntir hafa einnig verið nefndar *uttara* (síðasta) *mimansa* (rannsókn), og vísar það til hins sama og orðið Vedanta. Þó eru aðrir, sem telja, að með uttara mimansa sé átt við síðari hluta Vedabóka, sem fjalla um heimspeki í andstöðu við purva mimansa, sem merkir þá rannsókn fyrri hluta vedabóka, er fjalla einkum um trúarsiði.

Höfundur þessarar heimspeki er sagður Badarayana. Aðrir draga það í efa og eigna þann heiður óþekktum speking, sem gengur undir nfninu Vyasa. Stefna þessi er talin eldri búddisma eða frá 7. öld fyrir Krists burð. — Vedanta-Sutra eða Brahma Sutra er elzt þessara bókmennta. Annar höfundur þessarar stefnu er Shri Sankaracharya, sem skrifaði fræga bók um Vedanta Sutra

og er af mörgum Indverjum talinn í flokki hinna mestu heimspekinga, sem uppi hafa verið.

Vedanta Sutra er saman sett af 555 stefum, flestum stuttum, stundum aðeins tveim eða þrem orðum. Margar setningar eru þar dular og tvíræðar, og má þýða þær á marga vegu. Heimspekingar eins og Samkar, Ramanuja, Kesava, Madhva og Vallabha notuðu því texta hennar til stuðnings sínum eigin sjónarmiðum og hugmyndum og skapast þannig brátt miklar bókmenntir í sambandi við þessa bók. Hafa þær sífellt farið vaxandi og náð hámarki á okkar tímum með ritstörfum Vedantista um allan heim.

Viðfangsefni þessarar heimspeki eru tengsli mannsins, veraldarinnar og guðdómsins. Þó að forvígismenn þessarar heimspeki á síðari tímum telji hana merkasta allrar indverskrar heimspeki, víkja þeir hvergi frá hinni fornu kenningu. Viðfangsefni Vedanta er að safna saman allri indverskri heimspeki frá elztu tímum. Hver höfundur skipar þar sinn sess og engum er vísað frá borði. Hver hugsun þeirra er virt. Hver kenning rannsökuð. Engu er fleygt. Öllu er safnað líkt og gimsteinum. Ljósmagn þessara gimsteina í menningararfi aldanna er að vísu mismunndi eftir fágun þeirra eða eðli, en í þeim öllum er neisti eldsins og ljóssins. Vedantaheimspekin lítur þannig á alla spámenn og fræðara sem fulltrúa hins sanna lífsskilnings. Veruleikinn er einn. Sannir spámenn, sem skynja hann, hafa því raunar allir sama boðskap að flytja. Þar sem um skoðana-

mun virðist vera að ræða, er ekki álitið, að einn hafi algjörlega á réttu að standa og annar hafi fullkomlega rangt fyrir sér. Skoðanamunur þessara spámanna er skýrður með mismunandi þroskastigi þeirra og hvaða tegund hugleiðslu þeir hafa náð. Auk þessa er þekking, sem þeir hafa aflað sér með innsæi sínu, sett fram á breytilegan hátt af ólíkum einstaklingum líkt og tveir menn lýsa sama landslagi mismunandi vel. Umhverfi hefur einnig áhrif á þessa framsetningu og síðast, en ekki sízt, ný túlkun við hæfi nýrra tíma.

Vedanta-heimspekin kennir, að með því að leita gegnum þennan sjóð stórra og göfugra hugsjóna geti menn öðlazt þekkingu jafnvel á einni mannsævi, sem leiðir til skilnings, skilnings, sem gerir þá frjálsa. Lokatakmarkið er sjálfsþekking og frelsi sálarinnar.

Eins og kunnáttumaður, sem virðir fyrir sér gimstein ófágaðan og með daufu skini, neitar því ekki, að steinninn sé sannur, eru hinir minni spámenn í heimi andans, sem sjá aðeins takmarkað svið veruleikans, sagðir sannir, og niðurstöður þeirra eru engan veginn vanmetnar. Þegar kunnáttumaðurinn hefur slípað gimstein sinn, er gimsteinninn hinn sanni í eðli sínu en ljósmagn hans er meira. — Niðurstöður indversks heimspekings, sem ekki hefur náð hinum æðri stigum innsæisins, eru ekki sagðar rangar. En þær eru ekki heldur sagðar endanlegar niðurstöður. Þær eru spor í áttina, en ekki hið síðasta orð.

Vedanta-heimspekin leitar að lokaniðurstöðum hinn

ar miklu leitar hinu síðasta orði í bók lífsskilningsins. — Og hið síðasta orð er að þeirra áliti brahman. — Og brahman var nefndur ÞAÐ. Brahman eða ÞAÐ er allt, sem er, allt sem verður og allt sem var. Þeir nefndu ÞAÐ hið eina, hinn innri veruleika tilverunnar sem flýtur um farveg villunnar, hið eilífa án upphafs og endis. Utan þess var ekkert.

Þennan óræða guðdóm, segja Vedantistar, er að sjálfsögðu ekki hægt að þekkja með rökfræði, stærðfræði eða skynsemi. Skynsemin nær ekki til guðs fremur en hendi manns nær til stjarnanna. Hún getur aldrei útrýmt efa. Þegar um hið yfirskilvitlega er að ræða og hin dýpri rök lífs okkar, er skynsemin haldlaus. Innsæi eitt og bein innri reynsla getur veitt okkur fulla vissu. Þeim, sem hafa enga slíkra innri reynslu, reynir Vedanta-heimspekin að gefa rökfræðilega skýringu, þó að hún, eins og áður er sagt, geti aldrei veitt mönnum fulla vissu. — Þeir benda á, að bak við öll störf manna standi vitsmunir. Hús verður ekki til af sjálfu sér. Það þarf að byggja það. Hin vinnandi hönd virðist reisa þetta hús og gera það þannig úr garði, að það fullnægi ákveðnum þörfum manna. En hin vinnandi hönd er í sjálfu sér aðeins blint afl, sem aldrei gæti reist hús. Þess vegna er það ekki höndin ein, sem verkið vinnur, heldur þeir vitsmunir, sem afli hennar stjórna. — Aðeins vegna þessara vitsmuna að baki hins annars blinda afls handarinnar getur hús orðið til — hús í samræmi við ákveðnar þarfir. Það er ekki hægt að aka bifreið

árekstralaust um fjölfarið stræti án þess að vitsmunir standi að baki handarinnar, sem um stýrið heldur. En ef nú einfaldir hlutir eins og aðbyggja hús eða aka bifreið um götu geta ekki gerzt án þess að vitsmunir standi að baki þeim, er þá ekki næsta barnalegt, spyrja Vedantistar, að halda, að hægt sé að byggja óendanlega margbrotnari hluti eins og himintungl, mannslíkama eða blóm án allra vitsmuna eða anda? Vissulega hljóta vitsmunir óendanlega hærri mannlegu viti að standa að baki hins fullkomna og dularfulla samræmis allra hluta. — Þorir nokkur, sem heldur sig þurfa vitsmuni til að skrifa litla bók, að festa á pappír, að engir vitsmunir þurfi að standa að baki hins fullkomna samræmis náttúrulögmálanna og veraldarinnar í heild? Vedanta-heimspekin kennir, að allri tilverunni sé viðhaldið og stjórnað af vitsmunum, sem menn vegna smæðar sinnar að vísu þekkja ekki en séu þó jafnvel kjarni þeirra sjálfra. Þessa vitsmuni kalla trúarbrögðin guð en Vedanta-heimspekin kallar þá aðeins ÞAÐ.

Að skynja þennan guðdóm í sjálfum sér er takmark Vedanta eins og indverskrar heimspeki í heild sinni. Þetta kalla þeir hina sönnu þekkingu. — En blöð andans, sem geyma hin æðstu sannindi eru falin í lokuðu og innsigluðu bréfi. Vesturlönd tala um líkama og sál. Líkaminn er umslag sálarinnar. Vedanta-heimspekin talar um fimm umslög utan um atman, hinn innsta anda mannsins. Hvert þessara umslaga hins leyndardómsfulla bréfs ber sérstaka utanáskrift.

En áður en þessi umslög eru brotin upp er rétt að athuga kenningar Vedanta um manninn annars vegar og veröldina hins vegar. Þetta er nauðsynlegt vegna þess að það sem hér er kallað hin fimm umslög atman, eru ekki bundin við manninn einan heldur alla tilveruna í heild. Maðurinn (eins og allt annað) er hliðstæða alheimsins.

Atman, hinn innsti andi mannsins er hliðstæða brahman, guðdómsins og umslögin fimm sem myndast um þennan kjarna í þróun mannsins eru nákvæm hliðstæða heimsþróunarinnar.

Tilveran eða hin ytri veröld er að vísu eilíf, en hún er einnig eilífum breytingum háð. Hún andar. Þessi andardráttur hennar birtist alls staðar sem fæðing, vöxtur, hnignun og dauði, sem vor, sumar, haust og vetur, sem morgunn, dagur, kvöld og nótt. Þennan sama andardrátt, segir Vedanta-heimspekin, er að finna í fæðingu, þróun, hnignun og dauða hinnar ytri veraldar. Þar skiptist á starf og hvíld, dagur og nótt. Útöndun hins eilífa, er nefndur dagur — heimsdagur Mahakalpa. Hann er sagður standa yfir 311,040,000,000,000 ár. Innöndun hins eilífa er á sama hátt nefnd heimsnótt. — Þá hvílist tilveran. Um heimsnóttina hvílast sálirnar (Purusur) í hinum eilífa (Purusa) því þær eru hluti hans. Efnið og allir eiginleikar þess og form hvílast í Prakriti. Prakriti er oft ranglega þýtt efni. Prakriti þýðir öllu heldur allt hið skynjanlega og um leið er það fræ alls vaxtar. Þangað rekur öll heimsþróunin rætur sín-

ar. Um heimsnóttina er aðeins þetta tvennt — sem þó er talið eitt þar sem Prakriti er aðeins feldur Purusa. — Purusa og Prakriti — hvíla bæði í brahman.

En þessi hvíld er ekki sama og dauði heldur líkt og svefn. Þegar maður sefur hættir hvorki starfsemi líkama hans né vitundarinnar. Við þurfum þess vegna ekki að spyrja í þessu sambandi, hver sé hin fyrsta orsök heimsdagsins, hvað setji allt á hreyfingu. — Hin fyrsta orsök er ekki til. Tilveran byrjar aldrei að vera til. Hún er eilíf. Það getur ekkert valdið hreyfingu, nema hreyfingin sjálf. Hreyfingin á sér ekkert upphaf. Hún er eilíf.

Líkt og líkamsstarfsemi og vitund sofandi manns vekur hann, þegar hann hefur hvílzt nægilega, eins vaknar tilveran „af sjálfu sér" í upphafi hvers heimsdags. Kapila, höfundur Sankhya-heimspekinnar, sem Vedanta byggist að verulegu leyti á, kennir, að veröldin rumski og vakni af dvala sínum eftir heimsnóttina á þann hátt, að neistar guðdómsins, sálirnar, sem heimssálina mynda, dragast að prakriti hinni vaknandi veröld líkt og segull dregst að stáli.

Þetta aðdráttarafl stálsins á segulinn og segulsins á stálið er gagnkvæmt. Sálirnar, *purusar*, dragast að hinni vaknandi veröld heillaðar af nývöktu lífi og töfrum morgunsins og hinum volduga seið, sem magnar fram nýjar langanir og nýjar kenndir, lífsnautnina, sem blundaði í vitundinni, meðan tilveran svaf, en vekur hana á ný að morgni. Sálunum var líkt við segul, ver-

öldinni *prakriti*, var líkt við stál. Réttara væri þó að tala um óteljandi stálagnir. Þegar sálirnar hafa dregizt að veröldinni, draga þær til sín þá eiginleika veraldarinnar, sem eru í mestu samræmi við þær, eðli þeirra og þrár, líkt og segull dregur til sín stálagnir

Þessi samruni purusanna við prakriti; andans, sálnanna við veröldina er upphaf hins nýja heimsdags. Við þennan samruna myndast hinar tuttugu og fimm eðlisrætur hins mikla trés tilverunnar. Fræ þessa trés er prakriti. Ljós vorsólarinnar, sem fær þetta fræ til að skjóta frjóöngum, er purusa, andinn, sem líka er sjálf frumrót þess.

Þannig leysir andinn hin blundandi öfl veraldarinnar úr læðingi.

En prakriti hefur einnig áhrif á andann eða sálina, og hún dregur til sín eðli þess í samræmi við fortíð sína og karma-lögmálið. Þetta eðli prakriti er þrenns konar (gunas), sattva-eðli eða ljóseðli, raja-eðli eða geðhrif og ástríður og tamas-eðli eða drungi og myrkur. Þetta þrenns konar eðli verður því eðli alls lífs. Hvert þessara stiga verður ráðandi er undir þroska sálarinnar komið. Til prakriti rekur þannig öll framvinda heimsins rætur sínar. En þessi þróun er ekki sköpun í sjálfu sér, heldur aðeins birting þess, sem alltaf var, en í byrjun hverrar heimsaldar er hulið í Prakriti, áður en það birtist sem hin ytri tilvera.

Hin fyrsta birting prakriti á þessum morgni heimsdagsins er vitið, buddhi. Á þessu stigi sínu er það al-

heimslegt. Sattva-eðlið, eðli ljóssins er þar ríkjandi. Það safnar og geymir allar minningar og það ályktar og skipuleggur. Vegna starfsemi þess skapast sjálfsvitundin, ahamkara. Fyrsta hugsunin, fæðir af sér sjálfsvitund: þetta er ég og þetta er mitt. Sálin skynjar á þessu stigi ekki lengur, að hún og allt annað er eitt. Þær byrja að greina á milli sín annars vegar og veraldarinnar, og guðdómsins hins vegar. Aðgreiningarkenndin byrjar.

Hið alheimslega ahamkara, sem er upphaf vitundarinnar um ég og mitt, fæðir af sér bæði hina ytri veröld og skynfærin, sem hana skynja. — Hin ytri veröld er fimm höfuðskepnur. Skilningarvitin eru líka fimm. Höfuðskepnurnar, hin ytri veröld og skilningarvitin eru því fullkomnar hliðstæður, sem eiga sameiginlegan grundvöll. Þess vegna er hægt að skynja hina ytri veröld eins og hún er, og um *das Ding an sich* og *das Ding an mich* er ekki að ræða.

Ahamkara fæðir fyrst af sér hinar fimm „tanmöntrur“. Þær eru hinn alheimslegi grundvöllur skynfæranna fimm og höfuðskepnanna fimm. Í sambandi við þær birtist manas muni eða hugur. Hlutverk hans er að velja úr skynjun skynfæranna og flytja síðan þetta úrval sitt til búddhi, skilningsins, sem síðan ályktar, skipuleggur og dæmir. Þannig er manas nokkurs konar dyravörður við hlið skynfæranna og boðberi milli þeirra og skilningsins.

Hinar fimm tanmöntrur eru hinn innri hugræni

grundvöllur bæði skynfæranna fimm (sjón, heyrn, ilman, smekkur og tilfinning), sem er hin næsta birting eftir manas, sömuleiðis starffæranna fimm, sem talin eru hendur, fætur, málfæri, meltingarfæri og kynfæri, og loks höfuðskepnanna fimm, sem taldar eru jörð, vatn, eldur, loft og ljósvaki.

Þetta eru hinar tuttugu og fimm eðlisrætur tilverunnar að dómi Kapila. Þær eru ekki aðeins bundnar við manninn, heldur tilveruna í heild.

Áður en við opnum hin „fimm umslög“ Vedanta-heimspekinnar er rétt að reyna að gera sér grein fyrir kenningu hennar um eðlisþætti mannsins. Hvað er maðurinn að áliti Vedanta-heimspekinnar?

Á Vesturlöndum hefur þetta hugtak *maður* til skamms tíma verið miklu einfaldara en á Indlandi. Margir Vesturlandabúar, einkum á fyrri öldum, litu svo á, að maðurinn væri fyrst og fremst líkami, en hefði einnig e. t. v. sál, sem lifði eftir andlátið. Á okkar dögum eru þeir ekki ófáir, sem trúa því, að maðurinn sé ekkert nema líkaminn og hugurinn aðeins til orðinn vegna ákveðinna eiginleika og starfsemi líffæranna. Nútíma sálfræði hefur beint mönnum inn á nýjar brautir og Vesturlönd hafa uppgötvað í manninum ný rannsóknarefni. Menn tóku að tala um þriðja eðlisþátt mannsins, sem nefndur var dulvitund. Vitund manns var líkt við ísjaka, þar sem einn tíundi var ofansjávar, hitt hulið í sæ. Vedanta-heimspekin samþykkir þessar niðurstöður svo langt sem þær ná, en skoðar þær hins

vegar tilraun vísinda, sem eru gömul í austri, en hafa varla slitið barnsskóm sínum í vestri.

Vestrænir sálfræðingar, segja Vedantistar, gera sér ekki grein fyrir, að hin vakandi vitund mannsins er ekki hinn efsti hluti hennar, heldur öllu fremur miðja hennar. Það, sem vestrænir sálfræðingar kalla undirvitund, segir Vedanta, að liggi bæði ofan og neðan dagvitundarinnar. Þeir saka vestræna sálfræði þannig um á þessu byrjunarstigi sínu að rugla saman vitund eðlishvatanna, „dýrssálinni", hinni réttu undirvitund í bókstaflegri merkingu þess orðs og hinni æðri vitund mannsins, sem er líka dulvituð, en þó ólík, og stendur hinni vakandi vitund mannsins ofar. — En lítum nú á það, sem Vedanta-heimspekin hefur að segja um eðlisþætti mannsins.

I. Fyrsti eðlisþáttur mannsins er líkaminn, *rupa*. Hér verðum við þó að kalla hann efnislíkamann til aðgreiningar frá öðrum líkömum mannsins. Hann er oft kallaður musteri andans, og honum er líkt við föt, sem maðurinn notar, meðan hann lifir í þessum heimi, en leggur frá sér í dauðanum. — En þó að líkaminn sé aðeins yzta yfirborð mannsins og hverfi honum að fullu í dauðanum, leggja þessi fræði hina mestu áherzlu á líkams- og heilsurækt. Sagt er, að manninum sé ekki nóg að þjálfa vöðva sína eingöngu. Markmiðið er að gera líkamann fullkomið tæki í sókn mannsandans fram á við til hærri veralda og um leið sem bezt hljóðfæri fyrir fingur vitundarinnar til að leika á.

Í þessum tilgangi er brýnt fyrir mönnum að ástunda hollar líkamsæfingar, hreinlæti og vanda mataræði sitt, svo að það veikli ekki líkamann innan frá.

Kennt er, að hver fruma líkamans sé lífvera, sem lifi sjálfstæðu lífi á vissan hátt og hafi „sál" á ákveðnu þróunarstigi.

Þessar „sálir" samhæfast hver annarri og mynda þjóðfélög í líkamanum, sem stjórnað er og þau skipulögð af kama rupa, sem síðar verður getið.

Hver þessara frumna eða sálna dregur til sín prönu, lífsorku, er birtist með manninum sem orka eða þróttur.

Vedanta-heimspekin kennir mönnum sem lið í líkamsrækt sinni að ná tökum á þessari orku og auka prönu líkamans.

Þegar efnislíkaminn deyr, missir kama rupa, sem er ein af vitundum mannsins, tök sín á þessum þjóðfélögum sálnanna. Þau leysast upp og hver sál fer sína leið til að taka þátt í uppbyggingu nýs þjóðfélags í jurta- eða dýraríkinu.

Dauði og ný fæðing fylgjast alls staðar að.

II. *Prana* nefnist annar eðlisþáttur mannsins. Prana er orkan, sem efnið skapar. Sjálf skapast hún af andanum. Prana, lífsorkan, er í öllu, því samkvæmt Vedanta er allt líf. Prana manns er ekki líkaminn, ekki heldur andinn. Hvert atóm líkamans er þó hlaðið prönu eða orku. Öll þessi prana er undir stjórn mannsandans, að nokkru leyti undir stjórn hugans og að nokkru leyti

undir stjórn hinna duldu vitunda mannsins. Þegar líkaminn deyr og þjóðfélögum „frumsálnanna“ er sundrað, hverfa þær burtu hver með sinn ákveðna hluta af prönu líkamans og bera hana með sér til hinna nýju heimkynna í gróðurríkjum jarðarinnar eða líkömum manna eða dýra.

Brýnt er fyrir mönnum að reyna að ná tökum á hinum miklu orkustraumum í sjálfum sér og í tilverunni í kringum þá. Þeir, sem náð hafa tökum á þessum prönum, þessum orkustraumum, geta að sögn með góðum og heilbrigðum hugsunum byggt í kringum sig virki úr prönu, sem verndar þá jafnvel í hinu sjúklegasta andrúmslofti.

Viljinn, ef hann er einbeittur, getur leitt þessa orkustrauma hvert sem er. Á þessu byggjast andlegar lækningar. Prana hins sjúka líffæris er leidd burt og heilbrigðri prönu úr andrúmsloftinu er beint þangað í hennar stað.

Þannig er prana skoðuð sem sérstakur eðlisþáttur, lífsorka, sem er millistig milli líkama og sálar, anda og efnis, — þó að allt þetta eigi sameiginlega rót og sé eitt frá sjónarmiði hins algilda.

III. *Linga sharira*, astrallíkaminn, er þriðji eðlisþáttur mannsins samkvæmt Vedanta-heimspekinni. Hann er ósýnilegur venjulegu fólki, en oft séður af þeim, sem skyggnir eru. Hann lítur að öllu leyti út eins og efnislíkaminn, er aðeins úr fíngerðara efni. Bæði efnislíkaminn og astrallíkaminn hvíla í sama rúmtaki líkt

og vatn og vín, sem blandað er í sama glas eða ljósgeislar og hitageislar, sem fylla sama herbergi. Astrallíkaminn hefur stundum verið nefndur fylgja, vofa eða tvífari í þjóðsögum, sem fjalla um dulræna reynslu manna. Algengast er, að menn telji sig verða vara við astrallíkama fyrst eftir andlát eigenda hans, og er hann þá af alþýðu manna nefndur „draugur“. En hægt er einnig að sögn að verða var við astrallíkama lifandi manns. Sagt er, að allir ferðist í astrallíkama sínum meira og minna án þess að vita það eða réttara sagt án þess að muna eftir því. Dulhyggjumenn telja sig geta „farið úr líkamanum“ að vild sinni og ferðazt þá einkum um astralheima. Á þann hátt nota þeir astrallíkamann til að komast yfir mikilvæga þekkingu um eðli lífsins og „landið handan grafarinnar“.

Astrallíkaminn er gerður fyrir astralheima og úr sama efni og þeir, á sama hátt og efnislíkaminn er gerður fyrir jörðina og úr sama efni og hún.

Þegar maður liggur á banasæng sinni, losnar astrallíkaminn úr sambandi við efnislíkamann, unz aðeins er milli þeirra mjór gráleitur þráður. Sá þráður slitnar á dauðastundinni. Eftir andlátið lifir astrallíkaminn um skeið í astralheimum. En einnig hann er dauðlegur og hið ísbláa lík hans er sögð algeng sjón á hinum lægri astralplönum, þar sem hann hverfur aftur til þeirrar náttúru, sem hann er runninn frá. — Hann eins og efnislíkaminn er aðeins skip, sem sálin siglir á til blárra stranda hins fyrirheitna lands.

IV. *Kama rupa: dýrslíkaminn: eðlishvatir.* Þessi fjórði eðlisþáttur mannsins er lægstur hinna þriggja vitunda mannsins. Hann er sameiginlegur mönnum og dýrum. Hann er jafnvel talinn teygja sig niður til kristalla steinaríkisins og upp að borgarhliðum skynseminnar í ríki mannsins. Hann geymir reynslu aldanna frá fyrstu tímum þróunar sinnar. Hann er manninum ómissandi tæki í baráttu hans og þróun á jörðinni. Þessi eðlisþáttur kama rupa er bæði meðvitaður og dulvitaður. Sá hluti hans, sem stjórnar hinum ósjálfráðu hreyfingum líkamans eins og hreyfingum meltingarfæra, blóðrásar, andardráttar og græðslu sára og meinsemda t. d., er dulvitaður. Hann er meðvitaður, þar sem hann birtist sem hvatir og kenndir manninum til sóknar og varnar. Þessum kenndum kama rupa má ekki rugla saman við hinar æðri tilfinningar, sem að ofan koma. Kenndir kama rupa eru hinar lægri kenndir manna. Kama rupa ljær manninum reiði, þegar hann er í hættu staddur, en getur sigrazt á hættunni með afli sínu. Reiðin eykur styrk mannsins og auðveldar honum sigur í bardaganum. Kama rupa ljær manninum ótta, þegar hann getur ekki sigrazt á hættunni með afli sínu, en á þann einn kost að forða sér undan á flótta. Óttinn örvar blóðrásina til fótanna og gerir manninn léttari og frárri á fæti. Kama rupa lætur manninn skynja sársauka til þess að hann hlífi særðum líkamshluta, sem þarf á hvíld að halda og þolir ekki viðkomu. Kama rupa vekur hjá manninum hungur og

þorsta, til þess að hann viðhaldi líkamanum með hæfilega mikilli næringu. Hann andar manninum svefn í brjóst, svo að líffærin geti hvílzt. Kama rupa magnar kynhvötina í blóði hans og gerir hana nægilega sterka til þess að hún beri rökfræði skynseminnar ofurliði, því að köld og sérgóð skynsemin án kynhvatar (kama) sér enga ástæðu til að flækja sig í neti hjúskaparlífs og taka á sig byrðar, sem uppeldi nýrra einstaklinga hefur í för með sér.

Þessari vitund, sem talin er hin lægsta vitund mannsins, skjátlast þó aldrei í leiðsögn sinni um myrkan frumskóg sérhyggjunnar, þar sem hver einstaklingur hugsar aðeins um sig.

Þegar mannkynið því tekur sín fyrstu reikulu skref upp á svið hinnar næstu vitundar, þá er hrópað óttablandið úr öllum áttum: Hverfum aftur til náttúrunnar, hinnar öruggu fóstru okkar. — En áin rennur ekki upp í móti, og förin heldur áfram.

## MANAS — MANNSSÁL

V. Þeir eðlisþættir, sem hér að framan hafa verið taldir, eru sameiginlegir mönnum og dýrum. Mannssálin er stig skynseminnar og um leið stig sjálfsvitundarinnar. Dýrið, sem stjórnast nær eingöngu af kama rupa, veit. Maðurinn á stigi sjálfsvitundar og stigi skynseminnar veit, að hann veit. Hann getur skoðað vitund kama rupa með augum skynseminnar. Hann reynir jafnvel

að spyrja um starfsemi hennar og komast fyrir rætur hennar, hann ályktar og hugsar á óhlutlægan hátt. Hann greinir hluti í sundur, kannar þá og raðar hlutum saman í orsakasamhengi. Mannssálin er þannig milli tveggja vitunda, kama rupa, dýrssálarinnar, að neðan og hinnar æðri vitundar að ofan. Þessar vitundir líkjast hröfnum Óðins, sem sitja jafnan á öxlum hans og hvísla hvor í sitt eyra. Þetta telja Vedantistar höfuðorsök baráttunnar í mannssálinni milli hins gamla og hins nýja, milli fortíðarinnar og þess, sem koma skal, milli hinnar æðri og lægri náttúru. Trúarbrögðin mála jafnan annan hrafninn hvítan, en hinn svartan — eða svo að tekið sé enn dýpra í árinni, þau kalla hinn svarta hrafn kama rupa freistarann, óvin sálarinnar, og rödd hinnar æðri vitundar kalla þau samvizkuna í brjósti manna, rödd guðs. Sá, sem hlýðir nær eingöngu á rödd hins svarta hrafns kama rupa, notar aðeins skynsemina í þjónustu dýrseðlis síns og verður jafnvel þeim mun verri en dýrið sem hann er máttugri og kann fleiri ráð til að fullnægja kenndum kama rupa. Á þann hátt er „syndin" og þjáningin sköpuð. Syndin er sjálfsögð afleiðing ungrar og vanþroskaðrar mannssálar. Þjáningin, fylgja yfirsjónanna, er eini lærimeistarinn, sem óþroskuð sál er fær um að nema lífsskilning sinn af. Þjáningin er því ekki refsing, heldur læknisaðgerð, sem græðir þær meinsemdir, sem röng breytni veldur á mannssálinni.

Enn er mannssálin komin skammt á veg. Hjá sum-

um mönnum hefur hún enn varla yfirgefið kjöltu fóstru sinnar, kama rupa. Aðrir eru farnir að ganga og hafa jafnvel farið í fyrstu kynnisferðir sínar út úr húsi hennar. Mannssálin byrjar þá að kanna hið nýja umhverfi, hina nýju veröld. Hún byrjar að treysta á sjálfa sig og láta skynsemina ráða í vissum athöfnum, þar sem leiðsagnar fóstrunnar naut áður. Þannig vex þessi vitund smám saman, kannar heiminn og leggur hann undir sig að lokum. Í dag stöndum við á stigi skynseminnar. Vísindin hafa öðlazt öryggi og stundum yfirlæti unglings, sem heppnast nýjar tilraunir í fyrsta sinn. Vísindin hafa gert skynsemina að guði sínum. Þau neita að viðurkenna nokkuð annað, vegna þess að skynsemin skynjar ekkert fyrir ofan sig á sama hátt og kama rupa skynjar ekki skynsemina.

En Vedanta-heimspekin fullyrðir, að menn eigi meiri þroska fyrir höndum. Hún álítur, að á sínum tíma muni öld skynseminnar hverfa í aftureldingu hinnar æðri vitundar — jafnvel þó að milljónir ára kunni að líða áður en mannkynið í heild komist upp á það stig.

## HIN ÆÐRI VITUND

VI. Þessi vitund er að mestu dulvituð mannssálinni, þó að leiftrum hennar bregði oft fyrir í hugum manna og hún veki þar hugboð um æðri tilveru. Hún er andinn, sem sagt er, að komi yfir spámennina, og hún er hinn

guðlegi neisti allra lista. Til hennar rekja sannir dulrænir hæfileikar rætur sínar. Hið fyrsta merki þess, að dögun þessarar vitundar sé í nánd, er andlegt hungur mannsins, þrá hans eftir betri heimi og meira ljósi. Þessi fyrsta skíma morgunsins birtist í mannssálinni sem stórar og göfugar hugsjónir — hún birtist sem innri trúarleg reynsla, sem varpar trúarlærdómum fyrir borð. Hún vekur í mannssálinni hlýhug og auðmýkt, góðvild, sem nær til alls. Þetta kemur ekki frá kama rupa, sál hvatanna. Það kemur ekki heldur frá skynsemi og sjálfsvitund mannssálarinnar. Jafnvel skuggi hinnar æðri vitundar býr yfir birtu og hlýleika, sem ekki er að finna hjá hinum tveim lægri vitundum. Kama rupa ann engu nema sér og sínu. Þar er allt bundið við einstaklinginn sjálfan. Mannssálin hefur samúð með því, sem henni er skyldast eða því, sem hún skilur vegna líkrar reynslu. Samúð hinnar æðri vitundar nær til alls. Hún er sjálft andrúmsloft hennar. — Þeir, sem ná þessu vitundarstigi, bindast því órjúfandi bræðraböndum og um árekstra milli einstaklinga er þar ekki lengur að ræða.

Hin æðri vitund er sögð óendanlega hærri stigi skynseminnar. Hún er voldug eins og heimsvitundin og máttug eins og sá guð, sem hún tilheyrir.

Sá, sem leggur eyru sín við rödd þessarar æðri vitundar sinnar, hversu lágvært, sem hvísl hennar kann þó að vera, — sá, sem beinir innri sjónum sínum að ljósi hennar, hversu dauf sem glætan er, sem smeygir

sér um glufur skynseminnar, — sú mannssál opnar smám saman blöð sín fyrir ljósinu að ofan, og þessar tvær vitundir byrja að renna saman í eina.

Í þessum samruna verður hin æðri vitund ríkjandi, en hvorki skynsemin né einstaklingsvitund mannssálarinnar líður þó undir lok. Líkt og kama rupa á sínu mikilverða hlutverki að gegna á stigi skynseminnar, eins á mannssálin mikilvægu hlutverki að gegna á stigi hinnar æðri vitundar. Skynsemin og einstaklingsvitundin verða tæki hinnar nýju vitundar, — hin yztu blöð hennar eftir að blóm hinnar æðri vitundar er sprungið út í ilman sinni og fegurð.

## ATMAN — ANDINN

VII. Hinn efsti eðlisþáttur mannsins er kallaður *atman* eða *andinn*. Hann er sál hinna þriggja sálna mannsins og birtist í allri starfsemi þeirra, en stendur þeim þó ofar. Hann er sólin í ríki ljóssins. Frá honum er allt komið. Á lægri stigum birtist hann sem prana, lífsorka, orkan birtist síðan sem efni. Hann er lífsandi allrar tilveru. Allt annað í manninum er tæki hans. Hann er hið sanna sjálf. Hinar þrjár vitundir manna, sem taldar hafa verið, eru takmarkaðar, hann er ótakmarkanlegur. Frá honum kemur allt. Til hans hverfur allt. Hann er allt. Hann er kjarni mannssálarinnar, en mannssálin þekkir hann aðeins sem óljósan hálfgleymdan draum. En það ríki, sem skynsemin kallar

staðreyndir, er honum draumur, þar sem mannssálin berst við vindmyllur og drauga, handleikur skugga og byggir skýjaborgir. Hann veit og lætur hinar þrjár vitundir halda, að þær viti. Fyrst þegar hinar þrjár vitundir mannsins hafa runnið saman við hann þannig, að ljós hans lýsi þar upp hvern kima, er takmarki vedanta-heimspekinnar náð: að þekkja sjálfan sig. Þeirri sjálfsþekkingu fylgir algjör vísdómur, algjör máttur, algjör hamingja.

Þetta eru hinir sjö eðlisþættir mannsins að sögn Vedanta-heimspekinnar.

En hverfum nú aftur að hinum fimm umslögum atmans eða purusa, hins innsta kjarna og síðasta leyndardóms tilverunnar.

Yzt þessara umslaga utan um hinar dularfullu línur hins innsta boðskapar er anna-maya-kosha, efnisheimurinn. Hann samsvarar rupa mannsins, líkamanum.

Vísindin kenndu til skamms tíma, að efnið ætti fastan grundvöll, atóm. Vedanta kennir, að enginn slíkur fastur grundvöllur sé fyrir hendi, þar sem hægt er að breyta anda í orku og orku í efni.

Vísindin kenna, að til séu næstum hundrað (96) frumefni, sem efnisheiminn mynda. Vedanta segir, að til sé aðeins eitt frumefni.

Efninu skiptir vedanta í sjö stig eftir þéttleika sínum eða fínleika. Efnið á hinum efstu stigum sínum segir Vedanta, að ekki sé að finna í okkar veröld, — aðeins í

æðri heimum, sem veröld og líkama anda á öðrum og hærri þróunarstigum.

Fyrir lok hvers heimsdags tekur allt efni að dragast inn í hið eina frumefni sitt, sem liggur í prakriti um heimsnóttina. Fyrst hverfur hið grófasta og þyngsta, síðast hið léttasta. Í byrjun nýs heimsdags streymir það út á ný. Þegar frumefnið hefur dregið inn í sig öll hin sjö stig efnisins, dregst efnið inn í *prönu*, orkuna, og hún hverfur til *prakriti*.

Athugull lesandi mun þegar vera búinn að sjá í þessu veikustū hlið Vedanta-heimspekinnar og spyrja næstum gremjulega: „En hver er þá tilgangurinn, sá endanlegi absolúti tilgangur með öllum þessum eilífu hringrásum? Er rökrétt að halda, að heimsdagur og heimsnótt hafi skipzt á frá eilífð? Verður ekki annað alltaf að koma á undan hinu?“ Og Vedanta-heimspekinni virðist verða fátt um greinagóð svör. — Þau benda á, að tilgangur hverrar einstakrar heimsþróunar, sem fer fram hvern heimsdag, sé augljós og það sé manninum nóg að skilja í bráð! — En þegar rætt er um hinn absolúta tilgang þessara hringrása, segja þeir, að þær séu liðir í heimsþróun, sem standi ekki aðeins langt fyrir utan skilning manna, heldur einnig þeirra, sem miklu lengra eru komnir. Og þegar út á þessar brautir er komið, viðurkenna jafnvel sumir, að skiptingarnar í heimsdag og heimsnótt jafnvel þó að þær séu taldar staðreynd í lengri tíma en mannlegir vitsmunir skynja, þurfi ekki að vera annað en bárur á sæ eilífðarinnar.

Næsta umslag er nefnt prana-maya-kosha. Það samsvarar að sjálfsögðu til prönu annars eðlisþáttar mannsins. Prana-maya-kosha er heimsorkan. Hún veldur öllum hreyfingum, allri breytingu, og hún er aflvakinn mikli í allri starfsemi náttúrunnar. En hún er mynduð af næsta umslagi, sem tekur við inn af henni, mano-maya-kosha. Mano-maya-kosha er hin alheimslega hugarorka. Þannig er heimsorkan prana fædd af hugsanaorkunni eða huganum í hinni víðtækustu merkingu. Þegar þessa er gætt, er auðskilið, að heimspranan stendur undir stjórn vitundarinnar og lýtur boðum hennar sjálfráðum og ósjálfráðum. Af þessum orsökum getur vilji og hugur náð tökum á vissum orkustraumum tilverunnar og öðlazt með þeim vald, sem aðeins ófurmennum er gefið — og verum á hærri tilverustigum.

Um margar tegundir af prönu eða orku er að ræða líkt og sagt var um efnið, en út í það skal ekki farið hér.

Mano-maya-kosha er þriðja umslagið. Það er á vissan hátt hliðstætt dýrssálinni í þróun mannsins.

Mano-maya-kosha er millistig hinnar æðri og lægri tilveru. Þar tengjast saman þræðir efnis og prönu (orku) annars vegar og hinar æðri vitundir hins vegar. — Þetta er svið skynfæranna, hinna ytri og hinna innri, og manas, sem velur úr skynjuninni og flytur síðan milli hinna ytri og innri skynfæra og búddhi skilningsins.

Bæði skynfærin, manas, hugurinn og hið skynjaða,

eiga hér upptök sín: Mano-maya-kosha vekur eins og áður er sagt öldu prana-maya-kosha, heimsorkuna, og hún vekur aftur öldu anna-maya-kosha, efnið. Þannig eiga bæði skynfærin og það, sem þau skynja (orka og efni), sameiginlega vöggu í mano-maya-kosha. Þess vegna er ekkert ósamræmi milli skynjunar og hinnar skynjuðu veraldar, eins og þó er oft haldið fram af ýmsum heimspekingum.

Þekking skapar eðli. Við verðum það, sem við vitum. — Hið fjórða umslag er nefnt vijnana-maya-kosha, slæða ofin úr skilningi. Hún samsvarar mannssálinni. Hún er hinn alheimslegi skilningur; yfirdómari skynjunarinnar, hinn mikli sjáandi. Hún er hið rökrétta samhengi tilverunnar og hið órjúfandi samræmi allra lögmála náttúrunnar.

Innsta umslagið nefnir Vedanta ananda-maya-kosha, sem merkir umslag eða slæðu gerða úr ananda, ljósi, gleði, fegurð. Atman, hinn innsti veruleiki, er óháður því, þó að það sé birting atmans. Ananda-maya-kosha er hliðstæða hinnar æðri vitundar mannsins.

Heimsandinn iswara, hinn persónulegi guð sköpunarinnar, er hin fyrsta birting hins ópersónulega og óræða brahmans, hins eilífa, nákvæmlega á sama hátt og ananda-maya-kosha, hin æðsta vitund (utan atmans), er hin fyrsta birting atmans, hins innsta eðlis mannsins. Á sama hátt og iswara geymir í sér fræ allrar sköpunar, eins hefur ananda-maya-kosha í sér aflið, sem vekur öldurnar fjórar, sem á eftir fylgja og getið hefur verið

um. Eins og hinn innsti guðdómur speglast í iswara, eins er ananda-maya-kosha spegill sjálfsins, svo að mynd beggja er hin sama. — Atman mannsins er dropi í hinum miklu djúpum brahmans. Ananda-maya-kosha er brot af iswara, hinum virka guðdómi alheimsins.

Umslögin fimm, sem Vedanta-heimspekin talar um, hafa verið brotin upp og Vedanta-heimspekin hefur fundið bréfið, sem á er skráður hinn innsti leyndardómur; hið síðasta orð í hinni miklu leit sinni gegnum hinn dýra fjársjóð aldanna.

Á þetta blað, sem við höfum nú í höndum, er aðeins skrifuð ein setning, aðeins þrjú stutt orð, lokaniðurstaða Vedanta-heimspekinnar. Orðin eru *„Það ert þú."* Þú ert *það*. Þú ert guðdómurinn.

Takmark lífsins er samkvæmt Vedanta að láta hinn innsta anda guðdómsins ná fullum tökum á öllum sviðum tilverunnar og gefa þeim eiginleika sína, fulla vitund, fullkomna þekkingu og fullkomna hamingju. „Verði þinn vilji svo á jörðu sem á himnum," getur staðið sem kjörorð þessarar baráttu, sem Vedanta-heimspekin kallar tilgang tilveru okkar. Hverjum einstaklingi er fengið sitt ákveðna pund til að ávaxta í þessari baráttu og hann er ábyrgur fyrir því.

Hlutverk Vedanta-heimspekinnar er að hjálpa mönnum bæði í sókn sinni út á við og leit sinni inn á við. Til að lyfta undir þessa þróun kennir hún mönnum að gera skyldu sína, iðka fræði sín og umgangast þá, sem færir eru um að leiðbeina leitandi sálum.

Þeim, sem vilja ná skjótum árangri, er ráðlegt að gangast undir ákveðna þjálfun, sem skipta má í fjóra flokka eða fjögur stig:

I. *Viveka:* Það er fólgið í að gera sér sem ljósasta grein fyrir mismun hins eilífa og hins stundlega, hins raunverulega og hins hverfula.

II. *Vairagya:* Að láta sér á sama standa um hið stundlega og hverfula, án þess þó að gleyma skyldum sínum við lífið, — og öðlast þannig fulla rósemi til að mæta öllum erfiðleikum lífsins. — Í þessu er einnig fólgið að vinna öll verk sín án vonar um endurgjald þessa heims eða annars.

III. *Setsampat:* Rétt breytni, sem skiptist í sex liði:

a) Rólyndi; að ná valdi yfir huganum og draga hann á vissan hátt frá öllu veraldarvafstri, — jafnvel þó að menn taki fullan þátt í lífsbaráttunni.

b) Sjálfsstjórn.

c) Umburðarlyndi. Það er einkum í því falið að losna undan öllum trúarkreddum og leiðsögn sértrúarflokka, því að þeir leggja andlegt frelsi manna í fjötra og hindra vöxt einstaklingsins og eru honum farartálmi á braut þekkingarinnar. Þegar menn eru bundnir þessum fjötrum, leggst nótt, blindni og innri dauði yfir hugann, sem engir ytri helgisiðir geta lífgað eða lýst upp, ekki heldur trúhræsnin.

d) Trú. Skurðgoð, prestur eða kirkjusókn er talið ónauðsynlegt, en þó stundum skaðlaust og jafnvel gagnlegt á vissu stigi.

e) Hreysti og karlmennska til að þola erfiðar aðstæður og hörð náttúruskilyrði, mikla hita og kulda t. d.

f) Jafnaðargeð og lausn undan of miklum svefni, leti og hirðuleysi.

IV. *Mumuksutva.* Rétt löngun. Hún er í því fólgin að þrá hina æðstu þekkingu, fegurð, sanna hamingju og ljósið að ofan.

Þetta er frelsunarleið Vedanta-heimspekinnar, sem veitir mönnum um síðir sjálfsþekkingu. Sú þekking bindur enda á útlegð vitundar okkar, sem nú lifum aðeins á yfirborði tilverunnar.

Þrír hópar manna munu komast heim: Þeir, sem trúna hafa og stöðugir eru í hugleiðslu. Þeir, sem helga líf sitt þjónustu við guð og menn. Þeir, sem vinna verk sín trúlega.